# KONUNGA-SÖGUR

AF

# SNORRA STURLUSYNI

TOM. I.



*Rudera Fani Veter. Upsaliæ, quibus Templ. hodiern. superstructum.*

HOLMIÆ,
EXCUD. ELMÉN ET GRANBERG,
MDCCCXVI.

# KONUNGA-SÖGUR

AF

SNORRA STURLUSYNI.

---

Ynglinga Saga
Saga Hálfdanar Svarta
Saga Haralld s ens Hárfagra
Saga Hákonar Goda
Saga af Haralldi Gráfelld
oc Hákoni Sigurdarsyni
Saga af Olafi Tryggvasyni

---

Holmiæ,
Excud. Elmén et Granberg
MDCCCXVI.

# KONUNGA SÖGUR.

## FORMÁLINN.

Á bók þessi let ec rita fornar frásagnir um höfdingia þá er ríki hafa haft á nordrlöndum, oc á danska túngu hafa mælt, sva sem ec hefir heyrt fróda menn segia: sva oc nockorar kynqvíslir þeirra, eptir því sem mer hefir kent verit: sumt þat er finnz í Langfedgatali því, er Konungar hafa rakit kyn sitt, eda adrir stór-ættadir menn: enn sumt er ritat eptir fornum qvædum eda sögu-liódum, er menn hafa haft til skemtanar ser. Nú þó at ver vitum ei sannindi á því, þá vitum ver dæmi til þess, at gamlir frædimenn hafa slíkt fyrir satt haft. Þiódólfr enn Fródi úr Hvini var skalld Haralds ens Hárfagra, hann orti oc qvædi um Rögnvalld Konung Heidum hærra, þat er kallat er Ynglingatal. Rögnvalldr var son Olafs Geirstadaálfs, bródur Hálfdanar Svarta. I þessu qvæde eru nefndir XXX. langfedgar hans, oc sagt frá dauda hvers þeirra oc legstad. Fiölnir er sá nefndr, er son var Yngvifreys, þess er Svíar hafa blótat lengi sídan: af hans nafni eru Ynglingar kalladir. Eivindr Skalldaspillir talldi oc langfedga Hákonar Jarls ins Ríka í qvædi því

er Háleygia-tal heitir, er ort var um Hákon. Sæmingr er þar nefndr, son Yngvifreys; sagt er þar oc frá daud hvers þeirra oc haugstad. Eptir Þiódolfs sögn er fyrst ritin æfi Ynglinga, oc þar vidaukit eptir sögn fródra manna. En fyrsta ölld er köllut Bruna-ölld, þá skylldi brenna alla dauda menn, oc reisa eptir bauta-steina; Enn sídan er Freyr hafdi heygdr verit at Uppsölum, þá giördu margir höfdingiar eigi sídr hauga enn bauta-steina, til minningar eptir frændur sína; Enn sídan er Danr enn Mikilláti Dana Konungr let ser haug giöra, oc baud sic þannig bera daudan med Konungs skrúdi oc herbúnadi, oc hest hans vid öllu södulreidi, oc mikit fe annat: enn hans ættmenn giördu margir sva sídan; þá hófz þar Haugs ölld í Danmörku; enn lengi sídan hellz Bruna-ölld med Svíum oc Nordmönnum. Enn er Haralldr enn Hárfagri var Konungr í Noregi, þá bygdiz Island. Med Haralldi voru skalld, oc kunna menn enn qvædi þeirra, oc allra Konungaqvædi þeirra er sídan hafva verit at Noregi, oc tökum ver þar mest dæmi af því, er sagt er i þeim qvædum, er qvedin voru fyrir siálfum höfdingiunum, eda sonum þeirra: tökum ver þat allt fyrir satt, er í þeim qvædum finnz um ferdir þeirra eda orustur. Enn þat er háttr skallda at lofa þann mest, er þá eru þeir fyrir; enn engi mundi þat þora, at segia siálfum hönum þau verk hans, er allir þeir er heyrdi, vissi at hegómi væri oc skrök, oc sva siálfr hann: þat væri þá hád enn eigi lof.

*Frá Ara presti inum Fróda.*

Ari prestr inn Fródi Þorgilsson Gellis sonar, ritadi fyrstr manna her á landi at Norrænu máli frædi, bæda forna oc nya: ritadi hann mest í upphafi sinnar bókar um Islands bygd oc lagasetning; sídan frá lögsögumönnum, hvessu lengi hverr hafdi sagt; oe hafdi þat ára-tal fyrst til þess er kristni kom á Island; enn sídan allt til sinna daga. Hann tók þar oc vid mörg önnur dæmi, bædi Konunga æfi í Noregi oe Danmörk, oc sva á Englandi; edr enn stór-tídindi er giörz höfdu her á landi. Oc þykir mörgum vitrum mönnum hans sögn öll merkiliguz: var hann forvitri oc sva gamall, at hann var fæddr næsta vetr eptir fall Harallds Sigurdarsonar. Hann ritadi, sem hann siálfr segir, æfi Noregs Konunga, eptir sögu Odds Kollssonar Hallssonar af Sídu: enn Oddr nam at Þorgeiri Afrádskoll, þeim manni er vitr var, oe sva gamall, at hann bió þá undir Nidarnesi, er Hákon Jarl enn ríki var drepinn. I þeim sama stad let Olafr Konungr Tryggvason efna til Kaupángs, þar sem nú er. Ari prestr Þorgilsson kom VII. vetra gamall í Haukadal, til Halls Þórarinssonar; oc var þar XIV. vetur. Hallr var madr stórvitr oe minnigr; hann mundi þat er Þangbrandr prestr skírdi hann þrevetran: þat var vetri fyrr enn kristni væri lögtekin á Islandi. Ari var XII. vetra gamall, þá er Isleifr biskup andadiz. Hallr fór milli landa, oc hafdi felag Olafs Konungs ens Helga, oc feck af því uppreist mikla: var hönum

því kunnigt um Konungríki hans. Enn er Isleifr biskup andadiz var lidit frá falli Olafs Konungs Tryggvasonar nær LXXX. vetra. Hallr andadiz IX. vetrum sídar enn Isleifr biskup; þá var Hallr at vetra tali nírædr oc IIII. vetra. Hann hafdi gjort bú í Haukadal þritogr, oc bió þar LX. oc IV. vetra.; sva ritadi Ari. Teitr son Isleifs biskups var med Halli í Haukadal at fóstri, oc bió þar sídan; hann lærdi Ara prest, oc marga frædi sagdi hann hönum, þá er Ari ritadi sídan. Ari nam oc marga frædi at Þuridi dóttur Snorra Goda: hun var spök at viti: hun mundi Snorra födur sinn; enn hann var þá nær half-fertugr er kristni kom á Island; enn andadiz einum vetri eptir fall Olafs Konungs ins Helga. Því var eigi undarligt, at Ari prestr væri sannfródr at fornum tídindum, bæde her oc utanlands, at hann var siálfr námgiarn oc vitr oc minnugr, enn hafdi numit at gömlum mönnum oc vitrum. Enn qvædin þykia mer sízt úr stad færd, ef þau eru rett qvedin, oc skynsamliga upptekin.

# YNGLINGA SAGA.

## CAP. I.

### HER SEGIR FRA LANDA SKIPAN.

Sva er sagt, at kringla heimsins, sú er mannfolkit byggir, er miök vag-skorin: gánga höf stór ur útsiánum inn í iördina. Er þat kunnigt, at haf gengr af Niörvasundum, oc allt út til Jorsala-lands. Af hafinu gengr lángr hafsbotn til landnords, er heitir Svarta-haf; sá skilr heims þridiungana: heitir fyrir austan Asia, enn fyrir vestan kalla sumir Evropa, enn sumir Enea. Enn nordan at Svarta-hafi gengr Svíþiód in mikla eda in kallda. Svíþód ena Miklu kalla sumir menn eigi minni enn Serkland hit Mikla; sumir iafna henni vid Bláland hit Mikla. Hinn neyrdri lutr Svíþiódar liggr óbygdr af frosti oc kullda, sva sem hinn sydri lutr Blálands er audr af sólarbruna. I Svíþiód eru stór herut mörg: þar eru oc margskonar þiódir undarligar, oc margar túngur: þar eru risar, oc þar eru dvergar; þar eru oc blámenn. Þar eru dyr oc drekar furduliga stórir. Ur nordri frá fiöllum þeim, er fyrir utan eru bygd alla, fellr á um Svíþiód, sú er at rettu heitir Tanais; hun var fordum köllut Tanaqvísl edr Vanaqvísl; hun kemr til

siávar inn i Svarta haf. I Vanaqvíslum var þa kallat Vanaland, edr Vanaheimr; sú á skilr heims þridiungana; heitir fyrir austan Asia, enn fyrir vestan Evropa.

## CAP. II.

## FRA ASIA MÖNNUM.

Fyrir austan Tanaqvísl í Asia, var kallat Asa-land, edr Asaheimr; enn höfutborgina, er var í landinu, kölludu þeir Asgard. Enn í borginni var höfdingi sá, er Odinn var kalladr; þar var blótstadr mikill. Þat var þar sidr at XII. hofgodar voru æztir: skylldu þeir ráda fyrir blótum oc dómum manna í milli; þat eru Díar kalladir edr drottnar: þeim skylldi þiónustu veita allt folk oc lotning. Odinn var hermadr mikill oc miök vídförull, oc eignadiz mörg ríki: hann var sva sigrsæll, at í hverri orustu feck hann gagn. Oc sva kom at hans menn trúdu því, at hann ætti heimilan sigr í hverri orustu. Þat var háttr hans, ef hann sendi menn sína til orustu, edr adrar sendifarar, at hann lagdi ádr hendur í höfut þeim, oc gaf þeim bianac: trúdu þeir at þá mundi vel faraz. Sva var oc um hans menn, hvar sem þeir urdu í naudum staddir, á siá eda á landi, þá kölludu þeir á nafn hans, oc þóttuz iafnan fá af því fró: þar þóttuz þeir eiga allt traust er hann var. Hann fór opt sva langt í brot, at hann dvalldiz í ferdinni mörg misseri.

## CAP. III.

## FRA BRÆDRUM ODINS.

Odinn átti II. brædur, het annar Ve, enn annar Vilir; þeir brædr hans styrdu ríkinu þá er hann var í brottu. Þat var eitt sinn, þá er Odinn var farinn lángt í brot, oc hafdi lengi dvaliz, at Asum þótti örvænt hans heim: þá tóku brædur hans at skipta arfi hans; enn kono hans Frigg gengu þeir bádir at eiga. Enn litlu sídar kom Odinn heim; tók hann þá vid konu sinni.

## CAP. IV.

## OFRIDR VID VANI.

Odinn fór med her á hendur Vönum; enn þeir urdu vel vid, oc vördu land sitt, oc hafdu ymsir sigr: heriudu hvarir land annara, oc gördu skada á. Enn er þat leiddiz hvarumtveggium, lögdu þeir milli sín sættar stefnu, oc gerdu frid, oc seldut gislar; fengu Vanir sína ena ágæstu menn, Niörd hin audga, oc son hans Frey; enn Æsir þar í mót þann er Hænir het, oc kölludu hann allvel til höfdingia fallin. Hann var mikill madr oc hinn vænsti; med hönum sendu Æsir þann er Mímir het, hinn vitrasti madr; enn Vanir fengu þar í mót þann er spakastr var í þeirra flocki, sá het Qvásir. Enn er Hænir kom í Vanaheim, þá var hann þegar höfdingi görr; Mímir kendi hönum rád öll. Enn er

Hænir var staddr á þíngum edr stefnum, sva at Mímir var eigi nær, oc kæmi nockur vandamál fyrir hann, þá svaradi hann æ enu sama: Rádi adrir, qvad hann. Þá grunadi Vani at Æsir mundi hafa falsat þa í manna skiptinu: þá tóku þeir Mími oc hálshiuggu, oc sendu höfudit Asum. Odinn tók höfudit, oc smurdi urtum þeim er eigi mátti fúna, oc qvad þar yfir galldra; oc magnadi sva, at þat mælti vid hann, oc sagdi hönum marga leynda luti. Niörd oc Frey setti Odinn blótgoda, oc voru þeir Díar med Asum. Dóttir Niardar var Freya; hun var blótgydia oc hun kendi fyrst med Asum seid, sem Vönum var títt. Þá er Niördr var med Vönum, þá hafdi hann átta systur sína; því at þat voru þar lög: voru börn þeirra Freyr oc Freya: Enn þat var bannat med Asum, at byggia sva náit at frændsemi.

## CAP. V.

## ODIN SKIPTI RIKI. OC FRA GEFION.

Fiall-gardr mikill gengr af landnordri til útsudurs; sá skilr Sviþiód ena Miklu, oc önnur ríki: fyrir sunnan fiallit er eigi langt til Tyrklands; þar átti Odinn eignir stórar. I þann tíma fóru Rumveria höfdingiar vida um heiminn, oc brutu under sic allar þiódir. Enn margir höfdingiar flydu fyrir þeim ófridi af eignum sínum. Enn fyrir því at Odinn var forspár oc fiölkunnigr; þá vissi hann at hans afqvæmi mundi um nordrhalfu heimsins byg-

gia. Þá setti hann brædur sína Ve oc Vila yfir Asgard; enn hann fór oc Díar allir med honum oc mikit mannfolk annat. Fór hann fyrst vestr í Garda-ríki, oc þá sudr í Saxland. Hann átti sonu marga: hann eignadiz ríki vída um Saxland, oc setti þar sonu sína til landzgæzlu. Þá fór hann nordr til siávar, oc tók ser þar bústad í ey einni; þar heitir nú Odins ey í Fióni. Þá sendi hann Gefion nordr yfir sundit á landa leitan: þá kom hun til Gylfa, oc gaf hann henni eitt plógsland. Þá fór hun í Jötunheima, oc gat þar IV. sonu vid iötni nockorum; hun brá þeim í yxnalíki, oc færdi þá fyrir plóginn, oc dró landit út á hafit, oc vestr gegnt Odinsey, oc er þat land kallat Selund: þar bygdi hun sídan. Hennar feck Skiölldr son Odins; þau biuggu at Hleidru. Þar er vatn edr síar eptir, þat er kallat lögrenn. Sva liggia firdir í leginum í Svíariki, sem nes í Selundi. Sva qvad Bragi hinn gamli:

Gefion dró frá Gylfa
glöd diúpröduls audla
sva at af renni röknum
rauk danmarkar auka.
Báru yxn oc átta
enni tungl þar er gengu
fyri vineyar vidri
valröf fiögur höfut.

Enn er Odinn spurdi at gódir lands kostir voru austr at Gylfa, fór hann þannoc, oc gördu þeir Gylfi sætt sína, þvíat Gylfi þóttiz eingi krapt til hafa til mótstödu vid Asana. Mart áttuz þeir Odinn

vid oc Gylfi í brögdum oc siónhverfingum, oc urdu Æsir iafnan ríkri. Odinn tók ser bústad vid laúginn, þar sem nú eru kalladar forno Sigtúnir, oc gerdi þar mikit hof oc blót, eptir sidveniu Asana. Hann eignadiz þar lönd sva vítt, sem hann let heita Sigtúnir: hann gaf bústadi hofgodunum: Niördr bió í Noatúnum; enn Freyr at Uppsölum; Heimdallr at Himinbiörgum; þór á þrúdvangi; Balldr á Breidabliki: öllum feck hann þeim góda bólstadi.

## CAP. VI.

## FRA ATGERVI ODINS.

þá er Asa-Odinn kom á nordr-lönd, oc med hönum Díar; er þat sagt med sannindum, at þeir hófu oc kendu íþróttir þær, er menn hafa lengi sídan medfarit. Odinn var göfgastr af öllum, oc at hönum námu þeir allir íþróttirnar: því at hann kunni fyrstr allar oc þó flestar. Enn þat er at segia fyrir hveria sök hann var sva miök tignadr, þá baru þessir lutir til: hann var sva fagr oc göfuligr álitum þá er hann sat med vinum sínum, at öllum hló hugr vid; enn þá er hann var í her þá syndiz hann grimmligr sinum óvinum. Enn þat bar til þess, at hann kunni þær íþróttir, at hann skipti litum oc líkium, á hveria lund er hann villdi: önnur var sú, at hann taladi sva sniallt oc slett, at öllum er áheyrdu, þótti þat eina satt; mællti han allt hendingum, sva sem nú er þat qvedit, er skalldskapr heitir: Hann oc hofgodar hans heitá lióda-smidir, því at sú íþrótt

hófz af þeim i Nordrlöndum. Odinn kunni sva gera, at í orustu urdu óvinir hans blindir, eda daufir, eda óttafullir; enn vopn þeirra bitu eigi helldr enn vendir: enn hans menn fóru bryniu-lausir, oc voru galnir sem hundar edr vargar, bitu í skiölldu sína, voru sterkir sem birnir eda gridungar; þeir drápu mannfölkit, enn hvartki elldr ne iarn orti á þá: þat er kallat berserks-gangr.

## CAP. VII.

## FRA IþROTTUM ODINS.

Odinn skipti hömum; lá þá búkrinn sem sofinn eda daudr, enn hann var þá fugl eda dyr, fiskr eda ormr, oc fór á einni svipstund á fiarlæg lönd, at sínum erindum edr annara manna. Þat kunni hann enn at gera med ordum einum, at slöckva elld, oc kyrra siá, oc snúa vindum hveria leid er hann villdi. Odinn átti skip þat er Skídbladnir het, er hann fór á yfir höf stór; enn þat mátti vefia saman sem dúk. Odinn hafdi med ser höfut Mímis oc sagdi þat hönum mörg tídindi úr ödrum heimum: enn stundum vakti hann upp dauda menn úr iördu, edr settiz undir hánga: fyrir því var hann kalladr drauga-drottinn edr hanga-drottinn. Hann átti oc hrafna II. er hann hafdi tamit vid mál; flugu þeir vída um lönd, oc sögdu hönum mörg tídindi: af

þessum lutum vard hann stórliga fródr. Allar þessar íþróttir kendi hann med rúnum oc liódum, þeim er galldrar heita; fyrir því eru Æsir kalladir galldra-smidir. Odinn kunni þá íþrótt er mestr máttr fylgdi, oc framdi siálfr, er seidr heitir: enn af því mátti hann vita örlög manna oc ó-ordna luti, sva oc at göra mönnum bana edr óhamingiu, edr vanheilindi; sva oc at taka frá mönnum vit edr afl, oc gefa ödrum; enn þessi fiölkyngi, er framit er, fylgir sva mikil ergi, at eigi þótti karlmönnum skammlaust vid at fara; oc var gydiunum kend sú íþrótt. Odinn vissi of allt iardfe, hvar fólgit var, oc hann kunni þau liód er upplaukz fyrir hönum iördin, oc biörg oc steinar, oc haugarnir, oc batt hann med ordum einum þá er fyrir biuggu, oc geck inn oc tók þar slikt er hann villdi. Af þessum kröptum vard hann miök frægr, óvinir hans óttuduz hann, enn vinir hans treystuz hönum, oc trúdu á krapt hans oc á siálfan hann: Enn hann kendi flestar íþróttir sínar blótgodunum; voru þeir næst hönum um allan fródleik oc fiölkyngi. Margir adrir námu þó mikit af; oc hefir þadan af dreifz fiölkyngin vida, oc halldiz lengi. Enn Odinn oc þá höfdingia XII. blótudu menn, oc kölludu god sín, oc trúdu á lengi sídan. Eptir Odins nafni var kalladr Audon, oc hetu menn sva sonu sína; enn af Þórs nafni er kalladr Þórir edr Þórarinn; edr dregit af ödrum heitum til, sva sem Steinþór edr Hafþór, edr enn breitt á fleiri vega.

## CAP. VIII.

### LAGASETNING ODINS.

Odinn setti lög í landi sínu, þau er gengit höfdu fyrr med Asum; sva setti hann, at alla dauda menn skylldi brenna, oc bera á bál med þeim eign þeirra: sagdi han sva at med þvílíkum audæfum skylldi hverr koma til Valhallar sem hann hafdi á bál: þess skylldi hann oc nióta, er hann siálfr hafdi i iörd grafit: Enn öskuna skylldi bera út á siá, edr grafa nidr í iörd. Enn eptir göfga menn skylldi haug gera til minningar. Enn eptir alla þá menn, er nokot mans mót var at, skylldi reisa bautasteina; oc hellz sá sidr lengi sídan. Þá skylldi blóta í móti vetri til árs; enn at midium vetri blóta til gródrar; et þridia at sumri; þat var sigr-blót. Um alla Svíþiód gulldu menn Odni skattpenning fyrir nef hvert; enn hann skylldi veria land þeirra fyrir úfridi, oc blóta þeim til árs.

## CAP. IX.

### KVANFANG NIARDAR.

Niördr feck konu þeirrar er Skadi het, hun villdi ecki vid hann samfarar, oc giptiz sídan Odni, áttu þau marga sonu: einn þeirra het Sæmingr, um hann orti Eyvindr Skálldaspillir þetta:

Þann skialld blætr
skattfæri gat

Asa nidr
vid jarnvidiu.
þá er þau meirr
í mannheimum
skattna vinr
oc Skadi bygdu
Sævar beins
oc sonu marga
öndr dys,
vid Odni gat.

Til. Sæmings talldi Hákon Jarl hinn Riki langfedga kyn sitt. Þessa Svíþiód kölludu þeir Mannheima, enn hina Miklu Svíþiód kölludu þeir Godheima; úr Godheimum sögdu þeir mörg tídindi, oc mörg undur.

## CAP. X.

## DAUDI ODINS.

Odinn vard sóttdaudr í Svíþiód; oc er hann var at kominn bana, let hann marka sic geirs oddi, oc eignadi ser alla vapnbitna menn: sagdi hann sic mundo fara í Godheim, oc fagna þar vinum sínum. Nú hugdu Svíar, at hann væri kominn í hinn forna Asgard, oc mundi þar lifa at eylifu. Hófz þá at nyu áttrúnadr vid Odinn, oc áheit. Opt þótti Svíum hann vitraz ser, ádr stórar orustur yrdi; gaf hann þá sumum sigr, enn sumum baud hann til sin: þótti hvarrtveggi kostr gódr. Odinn var brendr daudr, oc var sú brenna giör allveglig. Þat var trúa þeirra, at því hærra sem reykinn lagdi í loptit upp, at því háleitari væri sá i himninum, er brennuna átti; oc þess audgari, er meira fe brann med hönum.

## CAP. XI.

## FRÁ NIRDI

Niördr af Nóatúnum gerdiz þá valllds-madr yfir Svíum, oc hellt upp blótum; hann kölladu Svíar þá drottinn sinn; tók hann þá *skattgiafir af* þeim. A hans dögum var fridr allgódr, oc allskonar ár sva mikit, at Svíar trúdu því, at Niördr redi fyrir ári, oc fyrir fesælu manna. A hans dögum dó flestir Díar, oc voru allir brendir oc blótadir sídan. Niördr vard sóttdaudr, let hann oc marka sic Odni ádr hann dó: Svíar brendu hann, oc gretu allir miök yfir leidi hans.

## CAP. XII.

## DAUDI FREYS.

Freyr tók þá vid ríki eptir Niörd; var hann kalladr drottinn yfir Svíum, oc tók skattgiafir af þeim; hann var vinsæll oc ársæll sem fadir hans. Freyr reisti at Uppsölum hof mikit, oc setti þar höfutstad sinn; lagdi þar til allar skylldir sínar, lönd oc lausan eyri: þá hófz Uppsala audr, oc hefir halldiz æ sídan. A hans dögum hófz Fróda fridr; þá var oc ár um öll lönd: kendu Svíar þat Frey. Var hann því meir dyrkadr enn önnur godin, sem á hans dögum vard lands fólkit audgara enn fyrr, af fridinum oc ári. Gerdr Gymis dóttir het kona hans; sonr þeirra het Fiölnir. Freyr het Yngvi ödru nafni; Yngva

nafn var sídan haft í hans ætt fyrir tignar nafn: oc ynglingar voru sídan kalladir hans ættmenn. Freyr tók sótt; enn er at hönum leid sóttin, leitudu menn ser ráds, oc letu fá menn til hans koma; enn biuggu haug mikinn, oc leto dyr á, oc III. glugga. Enn er Freyr var daudr, báru þeir hann leyniliga í hauginn, oc sögdu Svíum at hann lifdi, oc vardveittu hann þar III. vetr. Enn skatt öllum helltu þeir í hauginn, í einn glugg gullinu, enn í annann Sylfrinu, í hinn þridia eyr-penningum. Þá hellz ár oc fridr.

## CAP. XIII.

## FRÁ FREYU OC DÆTRUM HENNAR.

Freya hellt þá upp blótum, þviat hun ein lifdi þá eptir godanna, oc vard hun þá hin frægasta, sva at med hennar nafni skylldi kalla allar konor tignar, sva sem nú heita fruvor. Sva heitir oc hver freya yfir sinni eigu, enn sú húsfreya er bú á. Freya var helldr marglynd; Odr het bóndi hennar; dætur hennar hetu Hnoss oc Gersimi; þær voru fagrar miök: af þeirra nafni eru sva kalladir hinir dyrstu gripir. Þá er allir Svíar vissu at Freyr var daudr, enn hellz ár oc fridr, þá trúdu þeir at sva mundi vera, medan Freyr væri á Svíþiód, oc villdu eigi brenna hann, oc kölludu hann veralldar god, blótadu hann mest til árs oc fridar alla æfi sídan.

CAP.

## CAP. XIV.
## DAUDI FIÖLNIS KONUNGS.

Fiölnir son Yngvi-Freys red þá fyrir svíum oc Uppsala audi; hann var ríkr oc ársæll oc fridsæll: þá var Fridfródi at Hledru: þeirra i millum var vinfengi mikit oc heimbod. Þá er Fiölnir fór til Fróda á Selund, þá var þar fyrirbúin veizla mikil, oc bodit til vída um lönd. Fródi átti mikinn húsabæ; þar var gert ker mikit margra álna hátt, oc okat med stórum timbrstockum: þat stód í undirskemmu, enn lopt var yfir uppi, oc opit gólfþilit, sva at þar var nidr hellt leginum; enn kerit blandit fullt miadar; þar var dryckr furdu sterkr. Um kvelldit var Fiölni fylgt til herbergis í et næsta lopt, oc hans sveit med hönum. Um nóttina geck hann út í svalir at leita ser stadar; var hann svefn-ærr oc dauda druckinn: Enn er hann sneriz aptr til herbergis, þá geck hann fram eptir svölunum oc til annara lopt dyra, oc þar inn, misti þá fótom, oc fell í miadarkerit, oc tyndiz þar. Sva segir Þiódolfr hinn Hvinverski:

Vard framgengt
þar er Fródi bió
feigdar ord
er at Fiölni kom:
oc sikling
svigdis geira
vagr vindlaus
of vida skylldi.

## CAP. XV.

## FRÁ SVEGDI.

Svegdir tók ríki eptir födur sinn; hann strengdi þess heit at leita Godheims, oc Odins ens gamla; hann fór med XII. menn vida um heiminn. Hann kom út í Tyrkland oc í Svíþiód ena Miklo, oc hitti þar marga frændur sína, oc var í þessi för V. vetr. Þá kom hann aptr til Svíþiódar, dvalldiz hann þá enn heima um hríd. Hann hafdi fengit konu þá er Vana het, út í Vanaheimi, var þeirra son Vanlandi. Svegdir fór enn at leita Godheims; oc í austan-verdri Svíþiód het bær mikill at Steini, þar er steinn sva mikill sem stórt hús. Um kvelldit eptir sólar fall, þá er Svegdir geck frá dryckiu til svefn-búrs, sá hann til steinsins, at dvergr sat undir steininum: Svegdir oc hans menn voru miök drucknir, oc runnu til steinsins: dvergrinn stód í durom, oc kalladi á Svegdi, bad hann þar inn ganga, ef hann villdi Odinn hitta. Svegdir hlióp í steininn; enn steininn laukz þegar aptr, oc kom Svegdir eigi aptr. Sva segir Þiódolfr hinn Hvinverski:

Enn dag-sciarr
Durnis nidia
salvördodr
Svegdi velti;
þá er í stein
enn stórgedi
dulsa konr
ept dvergi hlióp:

oc salbiartr
þeirra Söcmímis
jötnn-býgdr
vid jöfri gein.

## CAP. XVI.

## FRÁ VANLANDA.

Vanlandi het sonr Svegdis, er ríki tók eptir hann, oc red fyrir Uppsala aud: han var hermadr mikill, oc hann fór vida um lönd. Hann þá vetr vist á Finnlandi med Snia hinum gamla, oc feck þar dóttur hans Drífu. Enn at vari fór hann á brott, enn Drífa var eptir; oc het hann at koma aptr á þriggia vetra fresti; enn hann kom eigi á X. vetrum. Þá sendi Drífa eptir Huld seidkonu, enn sendi Visbur, son þeirra Vanlanda, til Svíþiódar. Drífa keypti af Huld seidkonu, at hun skylldi sída Vanlanda til Finnlands, edr deyda hann at ödrum kosti. Enn er seidr var framidr, þá var Vanlandi at Uppsölum: þá gerdi hann fúsan at fara till Finnlands: enn vinir hanns oc rádamenn bönnudu hönum, oc sögdu at vera mundi fiölkyngi Finna í farfysi hans. Þá gördiz hönum svefn höfugt, oc lagdiz hann til svefns. Enn er hann hafdi lítt sofnat, kalladi hann, oc sagdi, at mara trad hann. Menn hans fóru til, oc vilidu hiálpa hönum; enn er þeir tóku uppi til höfudsins, þá trad hun fótleggina, sva at nær brotnudu: þá tóku þeir til fótanna, þá kafdi hún höfudit, sva at þar dó hann. Svíar tóku lík hans, oc var hann brendr

vid á þá, er Skuta heitir. Þar voru settir bauta steinar hans. Sva segir Þióðolfr:

Enn á vit
Vilia bródur
vitta vettr
Vanlanda kom;
oc tröll-kund
of troda skylldi
lids grimhilldr
lióna baga;
oð sá brann
á bedi Skútu
men-glötudr
er mara qvalldi.

## CAP. XVII.

## DAUDI VISBURS.

Visbur tók arf eptir Vanlanda födur sinn; hann geck at eiga dóttur Auda ens Audga, oc gaf henni at mundi III. stórbæi, oc gullmen. Þau áttu II sonu Gisl oc Öndur. Enn Visbur let hana eina, oc feck annarar konu; enn hun fór til födur síns med sonu sína. Visbur átti son er Domaldi het; stiupmódir Domallda let sida at hönum ógæfu. Enn er synir Visburs voru XII. vetra oc XIII. fóru þeir á fund hans, oc heimtu mund módur sinnar; enn hann villdi eigi giallda. Þá mæltu þeir, at gull-menit skylldi verda at bana hinum besta manni í ætt hans, oc fóru í brott oc heim. Þá var enn fengit at seid, oc sídit til þess, at þeir skylldu mega drepa födur sinn. Þá sagdi Hulldr völva þeim, at hun mundi

sva sida, oc þat med, at ættvíg skylldu ávallt vera í ætt þeirra Ynglinga sidan: þeir iáttu því. Eptir þat samnodo þeir lidi, oc komo at Visbur um nótt á óvart, oc brendu hann inni. Sva qvad Þiódolfr:

Oc Visburs
Vilia byrdi
sævar nidr
svelgia knátti,
þá er meinþiof
markar öttu
setr veriendur
á sinn fódur;
oc allvalld
í aren-kiöle
glóda garmr
glymiande beit.

## CAP. XVIII.

## DAUDI DOMALLDA.

Domalldi tók arf eptir födur sinn Visbur, oc red löndum. A hans dögum giördiz í Sviþiód sulltr mikill oc seyra. Þá efldo Svíar blót stór at Uppsölum; it fyrsta haust blótudu þeir yxnom, oc batnadi ecki árferd at helldr. Enn annat haust hófu þeir mannblót; enn árferd var söm edr verri. Enn et þridia haust komu Svíar fiölmennt til Uppsala, þá er blót skylldu vera: þá áttu höfdingiar ráda giörd sína, oc kom þat ásamt med þeim, at hallærit mundi standa af Domallda konungi þeirra; oc þat med, at þeir skylldo hönum blóta til árs ser, oc veita hönum at-

gaungu oc drepa hann, oc rióda stalla blódi hans; oc sva gerdu þeir. Sva segir Þiódolfr:

Hitt var fyrr
at folld rudu
sverdberendur
sínum drottni;
oc land her
á lífs vonanu
drærug vapn
Domallda bar.
Þá ár-giörn
Jóta dólgi
Svía kind
of sóa skylldi.

## CAP. XIX.

## DAUDI DOMARS.

Domar het sonr Domallda, er þar næst red ríki; hann red lengi fyrir löndum, oc vard þá gód árferd oc fridr um hans daga. Frá hönom er ecke sagt annat, enn hann vard sóttdaudr at Uppsölum, oc var færdr á Fyris völlu, oc brendr þar á ár-backanum, oc eru þar bautasteinar hans. Sva segir Þiódolfr:

Oc ec þess opt
of Yngva hrær
fróda menn
of fregit hafda,
hvar Domar
á dynianda
bana hálfs
of borin væri.

Nú ec þat veit
at verk-bitinn
Fiölnis nidr
vid Fyri brann.

## CAP. XX.

## DAUDI DYGGVA.

Dyggvi het son hans, er þar næst red löndum, oc er frá hönum ecki sagt annat, enn hann vard sóttdaudr; Sva segir þiódolfr:

Kvedkat ec dul
nema Dyggva hrær
glitnis gná
at gamni hefir;
þvíat jodís
Ulfs oc narfa
konungmann
kiósa skylldi.
Oc all-valld
Yngva þiódar
loka mær
of leikinn hefir.

Módir Dyggva var Drótt, dóttir Danps konungs, sonar Rígs, er fyrstr var konungr kalladr á danska túngu: hans ættmenn höfdu ávallt sídan Konungs nafn fyrir et æzta tignar nafn. Dyggvi var fyrstr konungr kalladr sinna ættmanna; enn ádr voru þeir drottnar kalladir: enn konur þeirra drottningar, enn drótt hyrd-sveitin. Enn Yngvi edr Ynguni var kalladr hverr þeirra ættmanna alla æfi; enn Ynglingar allir saman. Drott drottning var systir Dans konungs hins Mikil-láta, er Danmörk er vidkend.

## CAP. XXI.

## FRÁ DAG SPAKA.

Dagr het son Dyggva Konungs, er konungdóm tók eptir hann; hann var madr sva spakr, at hann skildi fugls rödd: hann átti spörr einn, er hönum sagdi mörg tidindi; flaug hann á ymsi lönd. Þat var eitt sinn, at spörrinn flaug á Reidgota-land, á bæ þann, er á Vörva heitir: hann flaug í akr karls, oc feck þar matar. Karl kom þar, oc tók upp stein, oc laust spörrinn til bana. Dagr konungr vard illa vid, er spörrinn kom eigi heim; geck hann þá til sonar blóts, til frettar, oc feck þau svör, at spörr hans var drepinn á Vörva. Sidan baud hann út her miklum, oc fór til Gotlands; enn er hann kom á Vörva, geck hann upp med her sinn oc heriade: fólkit flydi vids vegar undan. Dagr konungr sneri herinum til skipa er qvölldadi, oc hafdi drepit margt fólk, oc margt handtekit. Enn er þeir fóro yfir á nockura, þar sem heitir Skiótans-vad edr Vapna-vad; þá rann fram úr skógi einn verk-þræll á ár-backann, oc skaut heytiugu í lid þeirra, oc kom í höfut konungi skotit: fell hann þegar af hestinum, oc feck bana: fóru menn hans aptr til Sviþiódar. I þann tima var sá höfdingi gramr kalladr er heriadi, enn hermennirnir gramir. Sva segir Þiódolfr:

Frá ec at Dagr
dauda ordi
frægdarfús
of fara skylldi.

þá er valteins
til Vörva kom
spakfrömudr,
spörs at hefna.
Oc þat ord
á austr-vega
vísa ferd
frá vígi bar,
at þann gram
of geta skylldi
sleyngu þref
skeipnis verdar.

## CAP. XXII.

## FRÁ AGNA.

Agni het sonr Dags, er konungr var eptir hann, ríkr madr oc ágætr; hermadr mikill, atgervi madr mikill um alla luti. Þat var eitt sumar, er Agni konungr fór med her sinn á Finnland, geck þar upp oc heriadi. Finnar drógu saman lid mikit, oc fóru til orustu. Frosti er nefndr höfdingi þeirra. Vard þar orosta mikil, oc feck Agni konungr sigr; þar fell Frosti, oc mikit lid med hönum. Agni konungr fór herskilldi um Finnland, oc lagdi undir sic, oc feck stórmikit herfang. Hann tók oc hafdi med ser Skiálf dóttur Frosta, oc Loga bródur hennar. Enn er hann sigldi austan, lagdi hann til Stocksunda; hann setti tiölld sin sudr á fitina: þar var þá skógr. Agni konungr átti þá gull-menit, þat

er Vifbur hafdi átt. Agni konungr geck at eiga Skiálf; hun bad hann at gera erfi eptir födur sinn. Hann baud þá til sín mörgum ríkismönnum, oc gerdi veitslu mikla; hann var allfrægr ordinn af för þessi: þá voru þar dryckiur miklar. Enn er Agni konungr gerdiz druckinn, þá bad Skiálf hann gæta vel mensins, er hann hafdi á hálsi: hann tók til, oc batt ramliga menit á háls ser, ádr hann gengi at sofa; enn landtialdit stód vid skóginn, oc hátt tre yfir tialldinu, þat er skyla skylldi vid sólar-hita. Enn er Agni konungr var sofnadr, þá tók Skiálf snæri, oc festi undir menit; menn hennar slógu þá landtialld-staungunum, enn köstudu lykiu snærisins upp í limar tressins; drógu sídan, sva at konungr heck næst uppi vid limar oc var þar hans bani. Skiálf oc hennar menn liópu á skip, ok reru í brott. Agni konungr var þar brendr, oc er par sídan köllut Agnafit, á austanverdum taurinum, vestr frá Stocks-sundi. Sva segir Þiódolfr:

þat tel ec undr
er Agna herr
Skiálfar rád
at sköpum þóttu;
þá er gæding
med gullmeni
Loga dís
at lopti hóf.
Hinn er vid taur
temia skylldi
svalan hest
Signyar vers.

## CAP. XXIII

## FRÁ ALREKI OC EIRÍKI.

Alrekr oc Eiríkr hetu synir Agna, er konungar voru eptir hann; þeir voru ríkir menn oc hermenn miklir, oc iþrótta-menn. Þat var sidvenia þeirra, at rída hesta, temia bædi vid gang oc vid laup; kunnu þeir þat allra manna best; lögdu þeir á þat ic mesta kapp, hverr betr reid, edr betri hesta átti. Þat var eitt sinn, at þeir brædur ridu tveir frá ödrum mönnum hina bestu hesta sína, oc ridu út á völlu nockora, oc komu eigi aptr: var þeirra leita farit, oc funnuz þeir bádir daudir, oc lamit höfut á bádum; enn ecki vapn höfdu þeir nema bitlana af hestonum, oc þat hyggia menn at þeir hafi drepiz þar med. Sva segir Þiódolfr:

Fell Alrekr
þar er Eiríki
bródur vapen
at bana urdu.
Oc hnack-mars med
höfut fetlum
Dags frændur
of drepaz kvádu.
Fráat madr ádr
eykia gærvi
Freys afspríng
í fólk hafa.

## CAP. XXIV.

## FRÁ ALFI OC YNGVA.

Yngvi oc Alfr voru synir Alreks, er konungdóm tóku í Sviþiód þar næst. Var Yngvi hermadr mi-

kill oc allsigrsæll; frídr oc íþróttamadr hinn mesti, sterkr oc hinn snarpasti i orostum, milld af fe, oc gledimadr mikill: af slikn öllu vard hann frægr oc vinsæll. Alfr konungr bródir hans sat at löndum, oc var ecki i hernadi, hann var kalladr Elfsi: hann var madr þögull, ríklundadr oc óþydr. Módir hanns het Dageidr, dóttir Dags konung hins Rika, er Döglingar eru frákomnir. Alfr konungr átti konu er Bera het, kvenna frídust oc skörungr mikill, gledimadr hinn mesti. Yngvi Alreksson var þá enn eit haust kominn úr vikingu till Uppsala, oc var þá hinn frægsti; hann sat opt vid dryckiu lengi um kvölldum: Alfr konungr geck opt snimma at sofa. Bera drottning sat opt lengi á kvelldum, oc töludu þau Yngvi ser gaman. Alfr ræddi opt um vid hana, at hun skylldi eigi sitia sva leingi um aptana; bad hana fara fyrr at sofa, sagdi at hann villdi ecki vaka eptir henni. Hun segir at sú kona væri sæl, er helldr skylldi eiga Yngva enn Alf: hann reiddiz því miök, er hun mælti þat opt. Eitt kvölld geck Alfr inn i höllina, þá er þau Yngvi oc Bera sátu í hásæti oc töluduz vidr; hafdi Yngvi um kne ser mæki; menn voru miök drucknir, oc gafu engan gaum at konunginum kom inn. Alfr konungr geck at hásætinu, brá sverdi undan skickio; oc lagdi i gegnum Yngva bródur sinn: Yngvi lióp upp, oc brá mækinum, oc hió Alf banahög, oc fellu þeir bádir daudir á gólfit. Voro þeir Alfr oc Yngvi heygdir á Fyrisvöllum. Sva segir Þiódolfr:

Oc varđ hinn
er Alfr of vá
vördr vestallz
ofveginn liggia;
er döglingr
drærgan mæki
öfund giarn
á Yngva rand.
Vara þat bært
at Bera skýlldi
valsæfendur
vígs of hvetia;
þá er brædur tveir
at bönum urduz
óþurfendur
of afbrydi.

## CAP. XXV.

## FALL HUGLEIKS KONUNGS.

Hugleikr het son Alfs, er konungdóm tók yfir Svíum, eptir þá brædur, þvíat synir Yngva voro þá börn at alldri. Hugleikr konungr var engi hermadr, oc sat hann at löndum í kyrrsæti: hann var audigr miök, oc kalladr helldr sínkr af fe. Hann hafdi miök í hird sinni allskonar leikara, harpara oc gígiara oc fidlara; hann hafdi oc med ser seidmenn oc allskonar fiölkunnigt folk. Haki oc Hagbardr hetu brædur tveir, oc voru ágætir miök, þeir voru siá-konungar, oc höfdo lid mikit; fóru stundum bádir samt, enn stundum ser hvarr þeirra: margir kappar voru med hvarum-tveggium þeirra. Haki konungr fór med her sinn til Sviþiódar, á hendur Hugleiki konungi, enn

Hugleikr konungr samnadi her fyrir: þá komu til lids vid hann brædir II Svipdagr oc Geigadr, ágætir menn bádir, oc hinir mestu kappar. Haki konungr hafdi med ser XII. kappa: þar var þá Starkadr hinn Gamli med hönum; Haki konungr var oc hinn mesti kappi. Þeir hittuz á Fyrisvöllum; vard þar orosto mikil; fell brátt lid Hugleiks konungs. Þá sóttu fram kapparnir Svipdagr oc Geigadr; enn kappar Haka gengu VI á móti hvarum þeirra, oc urdo þeir handteknir: þá geck Haki konungr inn í skialldborg at Hugleiki konungi, oc drap hann þar, oc sonu hans tvo. Eptir þat flydu Svíar, enn Haki konungr lagdi nú lönd undir sic, oc gördiz konungr yfir Svíum. Hann sat þá at löndum III. vetur; enn í því kyrrsæti fóru kappar hans frá hönum, oc í víking, oc fengo ser sva fiár.

## CAP. XXVI.

## DAUDI GUDLAUGS KONUNGS.

Jörundr oc Eiríkr voro synir Yngva Alrekssonar; þeir lágu úti á herskipum þessa hríd alla, oc voru hermenn miklir. Á einu sumri heriudu þeir í Danmörk, oc þá hitto þeir Gudlaug Háleyia konung, oc áttu vid hann orostu; oc lauk sva at skip Gudlaugs var hrodit, enn hann vard handtekinn: þeir fluttu hann til lands á Straumeyarnes, oc heingdo hann þar: urpu menn hans þar haug eptir hann. Sva segir Eyvindr Skalldaspillir:

Enn Gudlaugr
grimman tamli
vid ofrkapp
austr konunga
Sigars jó,
er synir Yngva
menglötud
vid meid reido.
Oc ná-reidr
á nesi drupir
vinga meidr
þar er víkur deilir.
þar er fiölkynt
um fylkis hrær
steini merkt
Straumeyarnes.

## CAP. XXVII.

## FRA HAKA KONUNGI.

Eiríkr oc Jörundr brædur urdo af verki þessu frægir miök, þóttuz þeir miklu meiri menn enn ádr. Þeir spurdo at Haki konungr í Svíþiód hafdi sent frá ser kappa sína; þá hallda þeir til Svíþiódar, oc draga sidan her at ser. Enn er Svíar spyria at Ynglingar eru þar komnir, fer fiölldi lids til þeirra. Sidan leggia þeir í Löginn upp, oc hallda til Uppsala, á hendur Haka konungi; enn hann fer í móti þeim á Fyrisvöllo, oc hafdi lid miklo minna: vard þar mikill orusta, geck Haki konungr fram sva hart, at hann felldi alla, þá er hönum voru næstir, oc at lyktum felldi hann Eirík konung, oc hió nidr merki þeirra brædra. Þá flydi Jörundr konungr til skipa, oc

allt lid hans. Haki konungr feck sva stór sár, at hann sá at hanns lífdagar mundo eigi lángir verda: þá let hann taka skeid er hann átti, oc let hlada daudum mönnum oc vápnom, let þá flytia út til hafs, oc leggia styrir í lag, oc draga upp segl, enn leggia elld í tyr-vid, oc göra bál á skipinu. Vedr stód af landi: Haki var þá atkominn dauda edr daudr, er hann var lagidr á bálit: geck skipit logandi út um eyar í haf, oc var þetta allfrægt lengi sidan.

## CAP. XXVIII.

## DAUDI JÖRUNDAR

Jörundr son Yngva konungs vard konungr at Uppsölum, hann red þá löndum, oc var optliga á sumrum í hernadi. Á einhveriu sumri fór hann med her sinn til Danmerkur; hann heriadi um Jótland, oc fór um haustit inn í Limafiörd, oc heriadi þar; hann lá lidi sinu í Oddasundi. Þá kom þar med her mikinn Gylaugr Haleyia konungr, sonr Gudlaugs konungs, er fyrr var getit; hann leggr til orustu vid Jörund. Enn er landsmenn urdu þess varir, drifa þeir til úr öllom áttom, bædi med stórom skipom oc smám: Verdr þá Jörundr konungr ofrlidi borinn, oc hrodit skip hans; lióp hann þá á sund, oc vard hann handtekinn, oc leiddr á land upp: let þá Gylaugr konungr reisa gálga, leidir hann Jörund þar til, oc lætr hengia hann. Lykr sva hans æfi. Sva segir Þiódolfr:

Vard

Vard Jörundr
hinn er endr of dó
lífs of lattr
í Limafirdi.
Þá er hábióstr
Hörva sleipnir
bana Gudlaugs
of bera skylldi;
oc Hagbards
hersa valldi
haudno leif
at hálsi geck.

CAP. XXIX.

## DAUDI ÁNS KONUNGS.

Ön edr Áni het sonr Jörundar, er Konungr var yfir Svíum eptir födur sinn; hann var vitr madr oc blótmadr mikill; engi var hann hermadr, oc sat at löndum. I þann tíma er þessir konungar voro at Uppsölum, er nú var frásagt, var yfir Danmörku fyrst Danr hinn Mikilláti; hann var allgamall: þá sonr hans Fródi hinn Mikilláti, edr hinn Fridsami: þá hans synir Hálfdan oc Fridleifr; þeir voru hermenn miklir. Halfdan var ellri, oc fyrir þeim of allt: hann fór med her sinn til Svíþiódar á hendur Ön konungi, oc átto þeir orostor nockorar, oc hafdi Hálfdan iafnan sigr; oc at lyktum flydi Ön konungr í vestra Gautland: þá hafdi hann verit konungr yfir Uppsölum XXV vetra. Hann var oc í Gautlandi XXV vetra, medan Halfdan konungr var at Uppsölum. Halfdan

konungr vard sóttdaudr at Uppsölum, oc er hann þar heygdr. Eptir þat kom Ön konungr enn til Uppsala, þá var hann LX. Þá gerdi hann blót mikit, oc blet til lánglífis ser, oc gaf Odni son sinn, oc var hönum blótinn. Ön konungr feck þau andsvör af Odni, at hann skylldi enn lifa LX vetra: Ön var þá enn konungr at Uppsölum V vetra oc XX. Þá kom Ali hinn Frækni med her sinn til Svíþiódar, sonr Frilleifs konungs, á hendur Ön konungi, oc átto þeir orustur, oc hafdi Ali iafnan sigr. Þá flydi Ani konungr í annat sinn ríki sitt, oc fór í vestra Gautland. Ali var konungr at Uppsölum XXV vetra, ádr Starkadr hinn Gamli drap hann. Eptir fall Ala fór Ön konungr enn aptr til Uppsala, oc red þar ríkinu enn XXV vetra. Þá gerdi hann blót mikit til lánglífis ser, ocblótadi ödrum syni sínum: Þá svarar Odinn hönum, at han skylldi æ lifa, medan hann gæfi Odni son sinn et tíunda hvert ár; oc þat med, at hann skylldi heiti gefa nockuru heradi í landi sínu, eptir tölu sona sinna, þeira er hann blótadi til Odins. Enn þá er hann hafdi blótat VII sonum sínum, þá lifdi hann X vetra, sva at hann mátti ecki gánga; var hann þá á stóli borinn. Þá blótadi hann enum VIII syni sínum, oc lifdi hann þá enn X vetra, oc lá þá í kör. Þá blótadi hann enum IX syni sínum, oc lifdi þá enn X vetra: þá drack hann horn sem lébarn. Þá átti hann einn son eptir, oc villdi hann þá blóta þeim, oc þá villdi hann gefa Odni Uppsali, oc þau herud er þar liggia til, oc láta kalla þat

tíundaland. Svíar bönnudu hönum þat, oc vard þá ecki blót. Sídan andadiz Ön konungr, oc er hann heygdr at Uppsölum. Þat er sídan köllut Ana-sótt, er madr deyr verklaus af elli. Sva segir Þiódolfr:

Knátti endr
at Uppsölum
Ana sótt
Ön of standa;
oc þrálífr
þiggia skylldi
jóds adal
ödru sinni.
Oc sveiduds
at ser hverfdi
mækis lut
enn miávara.
Er ocreins
áttunga riódr
lögdis odd
liggiande drack.
Máttit hárr
Mæki hiardar
austr-konungr
upp of hallda.

## CAP. XXX.

## FRÁ EGLI TUNNA DÓLGI.

Egill het son Öns hins Gamla, er konungr var eptir födur sinn í Svíþiód; hann var engi hermadr, oc sat at löndum í kyrrsæti. Tunni het þræll hans, er verit hafdi med Ana hinum Gamla, rádagiordamadr oc fehyrdir hanns. Enn er Ani var andadr,

þá tók Tunni of lausafiár oc grof í iörd nidr. Enn er Egill var konungr, þá setti hann Tunna med þrælum ödrum: hann kunni því stórilla, oc lióp í brott, oc med hönum margir þrælar, oc tóko þá upp lausafeit er Tunni hafdi fólgit; gaf hann þat mönnum sínum, enn þeir tóko hann til höfdingia. Sídan dreif til hans mart illþydis fólk; lágu þeir úti á mörkum, enn stundum hliópu þeir í heröd, oc ræntu menn eda drápu. Egill konungr spurdi þetta, oc fór at leita þeirra med lidi sínu; enn er hann hafdi tekit ser náttstad á einni nótt, þá kom þar Tunni med lidi sínu, oc lióp á þá óvara, oc drapu lid mikit af konungi. Enn er Egill konungr vard var vid úfrid, þá sneriz hann til vidtöku, oc setti upp merki sitt; enn lid flydi mart frá hönum, þvíat þeir Tunni sóttu at diarft: sá þá Egill konungr engan annan sinn kost enn flya. Þeir Tunni ráku þá flóttann allt til skógar; sídan fóro þeir aptr í bygdina, heriudo oc ræntu, oc fengu þá enga mótstödu. Fe þat allt er Tunni tók í heradinu, gaf hann lidsmönnnm sínum; vard hann af því vinsæll oc fiölmennr. Egill konungr samnadi her, oc fór til orosto í móti Tunna; þeir börduz, oc hafdi Tunni sigr, enn Egill konungr flydi, oc let lid mikit. Þeir Egill konuugr oc Tunni áttu VIII orostur oc hafdi Tunni sigr í öllum. Eptir þat flydi Egill konungr landit, oc hellt til Danmerkur í Selund, til Fróda hins Frækna: hann het Fróda konungi til lids skatti af Svíum: feck þá Fródi hönum her oc kappa sína;

fór þá Egill konngr til Sviþiódar. Enn er Tunni spyr þat, fór hann í móti hönum med lid sitt; vard þá orusta mikil: þar fell Tunni, enn Egill konungr tók þá vid ríki sinu, enn Danir fóru aptr. Egill konungr sendi Fróda konungi gódar giafir oc stórar, á hveriom misserum, enn gallt engan skatt Dönum, oc hellz þó vinfeingi þeirra Fróda. Sídan er Tunni fell red Egill konungr einn ríkinu III vetur. Þat vard í Svíþiódu, at gridungr sá er til blóts var ætladr, var gamall oc alinn sva kappsamliga, at hann hann var mannygr; enn er menn vildu taka hann, þá lióp hann á skóg oc vard galinn, oc var lengi á vidum, oc hinn mesti spellvirki vid menn. Egill konungr var veidimadr mikill; hann reid um daga optliga á markir, dyr at veida. Þat var eitt sinn; at hann var ridinn á veidar vid menn sína. Konungr hafdi ellt dyr eitt lengi, oc hleypti eptir í skóginn frá öllum mönnum: þá verdr hann varr vid gridunginn, oc reid til, oc vill drepa hann; Gridungrinn sneyri í móti, oc kom konungr lagi á hann, oc skar ur spiótit: Gridungrinn stack hornunum á sídu hestinum, sva at hann fell þegar flatr, oc sva konungrinn. Þá lióp konungr á fætur, oc vill bregda sverdi, Gridungrinn stack þá hornunum fyrir brióst hönum, sva at á kafi stód. Þá komo at konungs menn, oc drápu gridunginn. Konungr lifdi litla hríd, oc er hann heygdr at Uppsölum. Sva segir Þiódolfr:

Oc lofsæl
úr landi fló

tys áttungr
Tnuna ríki;
Enn flæming
farra trióno
Jötnns eykr
á Agli raud
sá er of aust-mörk
ádan hafdi
brúna hörg
of borinn lengi.
Enn skidlaus
skilfinga nid
hæfis hiörr
til hiarta stód.

## CAP. XXXI.

## FRÁ OTTARI VENDILKRÁKU.

Ottar het son Egils, er ríki oc konungdóm tók eptir hann: hann vingadiz ecki vid Fróda konung. Þá sendi Fródi konungr menn til Ottars konungs, at heimta skatt, þann er Egill hafdi heitit hönum. Ottar svaradi sva, at Svíar hefdo alldrei skatt golldit Dönum; segir at hann mundi oc sva gera: fóro aptr sendimenn. Fródi var hermadr mikill: Þat var á einu sumri, at Fródi fór med her sinn til Svíþiódar; gördi þar upprásir oc heriadi; drap mart fólk, enn sumt hertók hann; feck hann þar allmikit herfang; hann brendi oc vída bygdina, oc gerdi et mesta hervirki. Annat sumar fór Fródi konungr at heria i Austrveg; þar spurdi Ottar konungr, at Fródi konungr var eigi í landino. Þá stíger hann á her-

skip, oc fer út í Danmörk, oc heriar þar; oc fær enga mótstödu. Hann spyrr, at samnadr mikill var á Selundi; stefnir hann þ.i vestr í Eyrarsund, siglir þá sudr til Jotlands, oc leggr í Limafiörd, oc heriar þá á Vendli; brennir þar, oc görir miök aleyda landit, þar sem þeir komu. Völtr oc Fasti hetu Jarlar Fróda, þá hafdi Fródi sett til landvarnar í Danmörk, medan hann var úr landi; Enn er Jarlar spurdu, at Svía konungr heriadí í Danmörk, þá samna þeir her, oc laupa á skip, oc sigla sudr til Limafiardar; koma þar miök á úvart Ottari konungi, leggia þegar til orosto; taka Svíar vel í mót, fellr lid hvarratveggio. Enn sva sem lid fellr af Dönum, kom annat meira þar or herodum, oc sva var til lagt öllum skipum þeim er í nánd voro. Lykr sva orosto, at þar fell Ottar konungr, oc mestr luti lids hans. Danir tóku lík hans, oc fluttu til lands, oc lögdu upp à haug einn, oc letu þar rífa dyr oc hrafna hræin. Þeir gera af tre kráko eina, oc sendo til Svíþiódar, oc segia at eigi var meira verdr Ottar konungr þeirra, þeir kölludu sídan Ottar Vendilkráko; Sva segir Þiódolfr:

Fell Ottar
und ara greipar
duganligr
fyrir Dana vapnom;
Þann hergammr
hrægum fæti
vitz boriun
á Vendli sparn'

þau fra ec verk
Vötz oc Fasta
sænskri þióð
at sögum verda;
at eylands
Jarlar Fróda
víg framad
of veginn höfdo.

## CAP. XXXII.

## KVANFÁNG ADILS KONUNGS.

Adils het son Ottars konungs, er konungdóm tók eptir hann; hann var lengi konungr, oc vard miök audigr, var hann oc nockor sumor í víking. Adils konungr kom med her sinn til Saxlands: þar redi fyrir konungr er Geirþiófr het, enn kona hans het Alöf hinn ríka; ecki er getit barna þeirra; konungr var eigi í landinu. Adils konungr oc menn hans runnu upp til konungs bæiar, oc rænlu þar; sumir ræka ofan hiörd til strandarhöggs. Hiardarinnar hafdi gætt ánaudigt fólk, karlar oc konur, oc hafdu þeir þat allt med ser. I því lidi var mær ein, undarliga fögur; sú nefndiz Yrsa. Fór þá Adils konungr heim med herfang. Yrsa var ecki med ambáttum; Brátt fanz þat, at hun var vitr oc vel ordum farin, oc allra luta vel kunnandi; fanz mönnum mikit um hana, oc þó konungi mest; kom þá sva at Adils gerdi brullaup til hennar. Var Yrsa þá drottning í Svíþióð, oc þótti hun hinn mesti skörungr.

## CAP. XXXIII.

## DAUDI ADILS KONUNGS.

Helgi konungr Halfdanar son red þá fyrir Hleidro; hann kom til Svíþiódar med her sva mikinn, at Adils konungr sá engan annan sinn kost, enn flya undan. Helgi konungr geck þar á land med her sinn, oc heriadi, feck mikit herfang; hann tók höndum Yrsu drottning, oc hafdi med ser til Hleidrar, oc geck at eiga hana; þeirra son var Rólfr Kraki. Enn er Rólfr var þrevetr, þá kom Alöf drottning til Danmerkur; sagdi hun þá Yrsu drottningu, at Helgi konungr madr hennar, var oc fadir hennar, enn Alöf módir hennar. Fór þá Yrsa aptr til Sviþiódar til Adils konungs, oc var þar drotning medan hun lifdi sídan. Helgi konungr fell í hernadi; Rólfr Kraki var þá VIII vetra, oc var þá til konungs tekinn at Hleidro. Adils konungr átti deilur miklar vid konung þann er Ali het hinn Upplenski; hann var úr Noregi. Þeir Adils konungr oc Ali konungr áttu orostu á Vænis ísi; þar fell Ali konungr, enn Adils hafdi sigr. Frá þessari orosto er lángt sagt í Skiölldunga Sögu, oc sva frá því, er Rólfr Kraki kom til Uppsala, til Adils; þá seri Rólfr Kraki gullinu á Fyrisvöllu. Adils konungr var miök kærr at gódom hestom: hann átti ena bestu hesta í þann tima: Slöngvir het hestr hans, enn annarr Hrafn; þann tók hann af Ala daudum, oc þar var undir alinn annar hestr, er Hrafn het, þann sendi hann

til Hálogalands Godgesti konungi; þeim reid Godgestr konungr, oc feck eigi stödvat ádr hann fell af baki, oc feck bana; þat var í Ömd á Hálogalandi. Adils konungr var at Dísa blóti, oc reid hesti um dísar salinn; hestrinn drap fótum undir hönum, oc fell, oc konungr af fram, oc kom höfut hans á stein, sva at hausinn brotnadi, enn heilinn lá á steininum; þat var hans bani. Adils dó at Uppsölum, oc er þar heygdr: kölludu Sviar hann ríkan konung. Sva segir þiódolfr:

þat frá ec enn
at Adils fiörvi
vitta vettr
of vida skylldi.
Oc dádgiarn
af drasils bógom
Freys áttungr
falla skylldi.
Oc vid aur
ægir hiarna
bragnings burs
of blandinn vard.
Oc dádsæll
deya skylldi
Ala dólgr
at Uppsölum.

## CAP. XXXIV.

## FALL ROLFS KRAKA.

Eysteinn het son Adils, er þar næst red Svíavelldi; á hans dögum fell Rólfr Kraki at Hleidro. I þann

tíma heriudu konungar miök í Svía velldi, bædi Danir oc Nordmenn. Voro margir sækonungar þeir er redu lidi miklu, oc áttu engi lönd: þótti sá einn med fullu heita mega sækonungr, er hann svaf alldri undir sótkum ási, oc drack alldri at arinshorni.

## CAP. XXXV.

## FRA EYSTEINI OC SÖLVA JÓTA KONUNGI.

Sölvi het Sækonungr, sonr Högna í Niardey, er þá heriadi í austrveg: hann átti oc ríki á Jotlandi; hann hellt lidi sínu til Svíþiódar. Þá var Eysteinn konungr at veitzlu í heradi, þar er í Lofönd heitir: þar kom Sölvi konungr á óvart um nótt, oc tók hús á konungi, oc brendi hann inni med hird sína alla. Þá ferr Sölvi til Sigtúna, oc beidir ser Konungs nafns oc vidrtöku; enn Svíar samna her, oc vilia veria hönum landit, oc vard þar orosta sva milkil, at þat er sagt at eigi sleit á XI dægrum. Þar feck Sölvi konungr sigr, oc var hann þá konungr yfir Svíavelldi langa hríd, allt þar til er Svíar sviko hann, oc var hann þar drepinn. Sva segir Þiódólfr:

Veit ec Eysteins
enda fólginn
Iokins lífs
á Lofundi;
at sikling
med Svíum kvádu
Jotska menn
inni brenna.

Oc bit-sótt
í brand-nói
hlídar þángs
á hilmi raun.
þá er timbrfastr
toptar neqvi
flotna fullr
of fylki brann.

## CAP. XXXVI.

## DRÁP ÝNGVARS KONUNGS.

Yngvar het son Eysteins konungs, er þá var konungr yfir Svíavelldi; hann var hermadr mikill, oc var opt á herskipum: þvíat þá var ádr Svíaríki miök herscátt, bædi af Dönum oc Austrvegs-mönnum. Yngvar konungr gerdi frid vid Dani; tók þá at heria um austrvegu. A einn sumri hafdi hann her úti, oc fór til Eistlands, oc heriadi þar um sumarit, sem het at Steini; þá komu Eistir ofan med mikinn her, oc áttu þeir orostu; var þá landherinn sva driúgr, at Svíar fengu eigi mótstödu veitt; fell þá Yngvar konungr, enn lid hans flydi: hann er heygdr þar vid siá sialfan; þat er á Adalsyslu. Fóru Svíar heim eptir ósigr þenna. Sva segir Þiódolfr:

þat stöck upp,
at Yngvari
Syslukind
of sóat hefdi.
Oc liós-hömum
vid lagar hiarta

her Eistneskr
at hilmi vá.
Oc aust-marr
jöfri sænskum
gymis lióđ
at gamni hvedr.

## CAP. XXXVII.

## FRÁ BRAUT ÖNUNDI KONUNGI.

Önundr het son Yngvars, sá er næstr tók konungdóm í Sviþiód. Um hans dagar var fridr godr í Svíþiód, oc vard hann miök audigr at lausa fe. Önundr konungr fór med her sinn til Eistlands, at hefna födur síns; geck þar upp med her sinn, oc heriadi vída um landit, oc feck herfáng mikit; fer aptr um haustit til Svíþiódar. Um hans daga var ár mikit í Svíþiód. Önundr konungr var allra konunga vinsælstr. Svíþiód er markland mikit, oc liggia þar sva eydimerkur, at margar dagleidir eru yfir. Önundr konungr lagdi á þat kapp mikit oc kostnad, at rydia markir, oc byggia rudinn: hann let oc leggia vego yfir eydimerkur, oc funnuz þá vída í mörkonom skóglaus lönd, oc bygduz þar þá stór herod. Vard af þessum hætti vidt land bygt, þvíat landsfolkit var gnægt til lands bygdarinnar. Önundr konungr let brióta vego um alla Svíþiód, bædi um markir oc myrar oc fiallvego: fyrir því var hann Braut-Önundr kalladr. Önundr konungr setti bú sinn í hvert stórherad á Svíþiód; oc fór um allt landit at veizlum.

## CAP. XXXVIII.

## FRÁ INGIALLDI ILLRÁDA.

Braut-Önundr átti son er Ingialldr het. Þá var konungr á Fiadryndalandi Yngvar. Hann átti sonu tva vid konu sinni, het annar Alfr, enn annar Agnar. Þeir voru miök iafnalldrar Ingiallds. Vida um Svíþiód voro í þann tíma herads-konungar Braut-Önundar, oc red fyrir Tíunda-landi Svipdagr Blindi. Þar eru Uppsalir; þar er allra Svía þing; voro þar þá blót mikil; sóttu þannug margir konungar; var þat at midium vetri. Oc einn vetr þá er komit var at midium vetri, var fiölmennt komit til Uppsala; var þar Yngvar konungr oc synir hans: þeir voro VI vetra gamlir Alfr son Yngvars konungs oc Ingialldr son Önundar konungs. Þeir efldu til sveina leiks, oc skylldi hvarr ráda fyrir sínu lidi; oc er þeir lekuz vidr, var Ingialldr ósterkari enn Alfr, oc þótti hönum þat sva íllt, at hann gret af miök sva. Þá kom til Gautvidr fóstbródir hans, oc leiddi hann i brott til Svipdags Blinda fósturfödur hans, oc sagdi hönum at allilla hafdi atfarit, oc hann var ósterkari oc óþróttkari i leiknum enn Alfr son Yngvars konungs. Þá svarar Svipdagr, at þat væri mikil sköm. Annan dag eptir let Svipdagr taka hiarta úr vargi, oc steika á teini, oc gaf sídan Ingialldi konungs syni at eta; oc þadan af vard hann allra manna grimmastr, oc verst skaplundadr. Oc er Ingialldr var roskinn, þá bad Önundr kono til handa hönom,

Gauthilldar dóttur Algauta konungs; hann var son Gautreks konungs hins Millda, sonar Gauts, er Gautland er vidkent. Algautr konungr þóttiz vita at hans dóttir mundi allvel gipt, ef hun væri syni Önundar konungs gefin, ef hann hefdi skaplyndi födur sins: oc var mærin send till Sviþiódar, oc görδi Ingialldr brullaup til hennar þegar er tími er til þess.

## CAP. XXXIX.

## DAUDI ÖNUNDAR.

Önundr konungr fór milli búa sinna á einu hausti, med hird sinni oc fór þann veg sem kalladr er Himinheidr, þat eru fiall-dalir nockurir þraungvir, enn há fiöll tveim megin; þá var mikit regn, enn ádr hafdi sniá lagt á fiöllin. Þar lióp ofan skrida mikil med grióti oc leiri, þar vard fyrir Önundr konungr co lid hans; fær konungr bana, oc mart lid med hönum. Sva segir Þiódolfr:

Vard Önundr
Jonakurs bura
harmi heptr
und himin-fiöllum:
oc of væg
Eistra dólgi
heipt hrisungs
at hendi kom:
Oc sá frömudr
folldar beinum
högna hrærs
of horfinn var.

## CAP. XL.

## BRENNA AT UPPSÖLUM.

Þá tók konungdóm Ingialldr son Önundar konungs yfir Svìum. Uppsala konungar voru æztir konunga í Svíþiód, þá er þar voru margir herads-konungar, frá því er Odinn var höfdingi í Svíþiód. Voru einvallds höfdingiar þeir er at Uppsölum sátu, um allt Sviavelldi, til þess er Agni dó; enn þá kom ríkit fyrst í brædra skipti, sva sem fyrr er ritit: enn sidan dreifdiz ríki oc konungdómr í ættir, sva sem þær greinduz: enn sumir konungar ruddu marklönd stór, oc bygdu þar, oc jóku þannug ríki sitt. Enn þá er Ingialldr konungr tók ríkit oc konungdóm, voru margir heradskonungar, sem fyrr er ritit. Ingialldr konungr let búa veitzlu mikla at Uppsölum, oc ætladi at erfa Önundr konung födr sinn; hann let búa sal einn; engum mun minna, edr úvegligra, enn Uppsalr var, er hann kalladi VII konunga sal; þar voru í gör VII hásæti. Ingialldr konungr sendi menn um alla Svíþiód, oc baud til sín konungom oc Jörlom, oc ödrom merkis-mönnom. Til þess erfis kom Algauti konungr mágr Ingiallds, oc Yngvar konungr af Fiadryndalandi, oc synir hans tveir Alfr oc Agnar; Sporsniallr konungr af Næríki; Sigvatr konungr af Attundalandi; Granmar konungr af Sudrmannalandi var eigi kominn. Þar var VI konungum skipat í hinn nya sal. Var þá eitt hásæti audt, þat er Ingialldr

gialldr konungr hafdi búa látit. Öllu lidi því er til var komit, var skipat í hinn nya sal. Ingialldr konungr hafdi skipat hird sinni oc öllu lidi sinu í Uppsal. Þat var sidvenia í þann tíma, þar er erfi skylldi giöra eptir konunga edr jarla, þá skylldi sá er gerdi erfit, oc til arfs skylldi leida, sitia á skörinni fyrir hásætinu, allt þar til er inn væri borit full, þat er kallat var Bragafull; skylldi sá þá standa upp í móti Bragafulli, oc streingia heit, drecka af fullit sídan: sídan skylldi hann leida í hásæti þat, sem átti fadir hans; var han þá kominn til arfs alls eptir hann. Nú var sva her gört, at þá er Bragafull kom inn, stód upp Ingialldr konungr, oc tók vid einu dyrshorni miklu, streingdi han þá heit, at hann skylldi auka ríki sit halfu í hveria höfut átt, edr deya ella; drack af sídan af horninu. Oc er menn voru drucknir um kvölldit, þá mællti Ingialldr konungr til Folkvidar ok Hylvidar sona Svipdags, at þeir skylldu vopnaz oc lid þeirra, sem ætlat var um kvelldit: þeir gengu út, oc til ins nya sals, baru þar elld at; oc því næst tók salrinn at loga, oc brunnu þar inni VI konungar, oc lid þeirra allt: enn þeir er út leitadu þá voru skiótt drepnir. Eptir þetta lagdi Ingialldr konungr undir sik ríki þessi öll, er konungar þessir höfdu átt, oc tók skatta af.

## CAP. XLI.
## KVANFANG HIÖRVARDAR.

Grannmar konungr spurdi þessi tídindi, oc svik

þessi öll; þá þóttiz hann vita at hönum mundi slíkr kostr hugadr, ef hann gylldi eigi varúd vid. Þat sama sumar kemr med lidi sínu Hiörvardr konungr, er Ylfingr var kalladr, til Svíþiódar, oc lagdi í fiörd þann er Myrkva fiördr heitir. Enn er Granmar konungr spyr þat, sendi hann menn til hans, oc bydr hönom til veizlo, oc öllu lidi hans. Hann þecliz þetta; þvíat hann hafdi ecki heriat á ríki Granmars konungs. Oc er hann kom til veizlunnar þá var þar fagnadr mikill; oc um kvelldit er full skylldi drecka, var þat sidvenia konunga þeirra er at löndum sátu, eda veizlum, er þeir letu göra, at drecka skylldi á kvelldum tvímenning, hvar ser karlmadr oc kona, sva sem inniz; enn þeir ser er fleiri væri saman. Enn þat voru víkinga lög, þótt þeir væri at veizlom, at drecka sveitar-dryckiu Hásæti Hiörvardz konungs var búit gagnvart hásæti Granmars konungs, oc sátu allir hans menn á þann pall. Þá mællti Granmar konungr vid Hilldigunni dóttur sína, at hun skylldi búa sik, oc bera öl víkingum; hun var allra qvenna fríduz; þá tók hun silfur-kalk einn oc fyllti, oc geck fyrir Hiörvard konung oc mællti: heilir allir Ylfingar at Rolfs minni Kraka! oc drack af til hálfs, oc selldi Hiörvardi konungi. Nú tók hann kalkinn oc hönd hennar med, oc mællti, at hun skylldi gánga at sitia hiá hönum. Hun seigr þat ecki víkinga sid, at drecka hiá konum tvímenning. Hiörvardr svarar, let þess vera meiri von, at hann mundi þat skipti á gera, at láta helldr víkinga lögin,

oc drecka tvímenning vid hana. þá settiz Hilldigudur hiá hönum, oc drucku þau bædi saman, oc töludu mart um qvelldit. Eptir um daginn, er þeir konungarnir hittuz, Granmar oc Hiörvardr, þá hóf Hiörvardr upp bónord sitt, oc bad Hilldigudar. Granmar konungr bar þetta mál fyrir konu sína Hilldi, oc adra ríkismenn; oc segir at þeim mundi vera mikit traust at Hiörvardi konungi; oc nú vard rómr at; oc þótti þetta öllum rádligt; oc lauk sva, at Hilldigudr var föstnod Hiörvardi konungi, oc gerdi hann brullaup til hennar; skylldi þá Hiörvardr konungr dveliaz med Granmari konungi, fyrir því at hann átti engan son til ríkis at vardveita med ser.

## CAP. XLII.
## OROSTA Í SVÍÞIÓD INGIALLDS OC ÞEIRRA MÁGA GRANMARS OC HIÖRVARDS.

Þat sama haust samnadi Ingialldr konungr ser lidi, oc ætlar á hendur þeim mágum; hann hefir her úti af öllom þeim ríkiom, er ádr hafdi hann ùndir sic lagt. Oc er þat spyria þeir mágar, samna peir lidi í sino riki, oc kemr til lids vid þá Högni konungr oc Hilldir son hans, er redu fyrir Eystra Gautlandi: Högni var fadir Hilldar, er átti Granmar konungr. Ingialldr konungr geck á land upp med öllum her sínum, oc hafdi lid miklo meira; sígr þá saman orusta, oc var hin hardasta. Enn er litla hríd hafdi

bariz verit, þá flyia þeir höfdingiar, er redu fyrir Fiadryndalandi, oc Vestr Gautum, oc af Næríki, oc Attundalandi; oc allr sá her er af þeim löndum hafdi farit, oc fóru til skipa sinna. Eptir þetta vard Ingialldr konungr staddr nauduliga, oc feck sár mörg, oc komst vid þetta á flótta til skipa sinna. Enn þar fell Svipdagr Blindi fóstri hans, oc synir hans bádir Gautvidr oc Hyldvidr. Ingialldr konungr fór aptr vid sva búit til Uppsala, oc undi illa sinni ferd; oc þottiz þat finna, at hönum mundi vera her sá útrúr, er hann hafdi or sino ríki, því er hann feck med hernadi. Eptir þetta var ófridr mikill millum Ingiallds konungs oc Granmars konungs. Nu er langar hridir hafdi þannug framfarit, komu vinir beggia því vid, at þeir sættuz, oc lögdu konungar stefnu med ser, oc hittuz, oc gerdo frid millum sin, Ingialldr konungr oc Granmar konungr, oc Hiörvardr konungr mágr hans: skylldi fridr sá standa millum þeirra, medan þeir lifdi III konungar; var þat bundit eidum oc trygdum. Eptir um vorit fór Granmar konungr til Uppsala at blóta, sem sidvenia var til, móti sumri, at fridr væri. Fell hönum þá sva spánn, sem hann mundi eigi lengi lifva: fór hann þá heim í ríki sitt.

## CAP. XLIII.
## DAUDI KONUNGANNA GRANMARS OC HIÖRVARDAR.

Um haustit eptir fór Granmar konungr oc Hiör-

vardr konungr mágr hans at taka veizlu í ey þeirri er Síli heitir, at búom sínum: oc þá er þeir voru at veitslonni, kemr þar Ingialldr konungr med her sinn á einni nótt, oc tók hús á þeim, oc brendi þá inni med öllu lidi sinu. Eptir þat lagdi hann undir sic ríki þat allt, er átt höfdu konungar, oc setti yfir höfdingia. Högni konungr oc Hilldir son hans ridu opt upp í Svíavelldi, oc drápu menn Ingiallds konungs, þá er hann hafdi sett yfir þat ríki er átt hafdi Granmar konungr mágr þeirra. Stód þar lánga hríd mikil deila millom Ingiallds konungs oc Högna konungs; feck Högni konungr þó halldit ríki sínu fyrir Ingialldi konungi allt til dauda dags. Ingialldr konungr átti II börn vid konu sinni, oc het hit ellra Asa, enn annat Olafr Tretelgia; oc sendir Gauthilldr, kona Ingiallds konungs, sveininn til Bóva fóstra síns í vestra Gautland, hann var þar uppfæddr, oc Saxi son Bóva, er kalladr var Flettir. Þat er sögn manna at Ingialldr konungr dræpi XII. konunga, oc sviki alla í gridum: hann var kalladr Ingialldr hinn Illrádi: hann var konungr yfir mestum lut Svíþiódar. Ásu dóttur sína gipti hann Gudrödi konungi á Skáni, hun var skap-lík fedur sinum. Asa olli því er Gudrödr drap Halfdan bródur sinn. Halfdan var fadir Ivars ens Vidfadma. Asa red oc bana Gudrödi konungi bóanda sinum, oc flydi sídan til födur síns; hun var köllut Asa hin Illráda.

## CAP. XLIV.

## DAUDI INGIALLDS ILLRÁDA.

Ivar hinn Vídfadmi kom á Skáni, eptir fall Gudrödar födur-bródur síns, oc dró þegar her mikinn saman; fór þegar upp á Sviþiód: Asa hin Illráda var ádr farin á fund födur síns. Ingialldr konungr var þá staddr á Ræningi at veizlo, er hann spurdi at her Ivars konungs var þar nær kominn; þóttiz Ingialldr engan styrk hafa til at beriaz vid Ivar; hönum þótti oc sá synn kostr, ef hann legdiz á flótta, at hvadan æva mundo fiandmenn hans at drífa. Tóku þau Asa þat rád, er frægt er ordit, at þau gerdu fólk allt dauda druckit; sidan letu þau leggia elld í höllina; brann þar höllin, oc fólk allt, þat er inni var med Ingialldi konungi oc Asu. Sva segir þiódolfr:

Oc Ingialld
í fiörvan trad
reycs rösudr
á Ræningi.
þá er húsþiöfr
hyriar leistum
god konung
í gögnom steig.
Oc sá urdr
allri þiódo
siallgætastr
med Svíum þótti,
er hann siálfr
síno fiörvi
frækno fyrstr
of fara villdi.

## CAP. XLV.

## FRÁ IVARI VIDFADMA.

Ivar Vidfadmi lagdi undir sic allt Svíavelldi; hann eignadiz oc allt Danavelldi, oc mikinn lut Saxlands, oc allt austr-ríki, oc inn fimta lut Englands. Af hans ætt eru sídan komnir Dana konungar oc Svía konungar, þeir er þar hafa einvalld haft. Eptir Ingialld inn Illráda hvarf Uppsala velldi ur ætt Ynglinga, þat er at langfedgum mætti telia.

## CAP. XLVI.

## FRÁ OLAFI TRETELGIU.

Olafr son Ingiallds konungs, þá er hann spurdi fráfall födur síns, þá fór hann med þat lid er hönum villdi fylgia á Næríki; þvíat allr múgr Svía lióp upp med einu samþycki, at rækia ætt Ingiallds konungs, oc alla hans vini. Enn er Svíar spurdu til hans, þá mátti hann ecki þar vera: fór hann þá vestr mark-leidi, til ár þeirrar er nordan fellr í Væni, oc Elfr heitir. Þar dveliaz þeir; taka þar at rydia mörkina oc brenna, oc byggia sídan. Urdu þar brátt stór heröd, oc kölludu þeir þat Vermaland: þar voru all gódir lands kostir. Enn er spurdiz til Olafs i Svíþiod, at hann rydr markir, kölludu þeir hann Tretelgiu, oc þótti hædiligt hans rád. Olafr feck konu þeirrar er Sólveig het edr Solva, dóttir Halfdanar Gulltannar vestan af Sóleyum. Halfdan var son Sölva,

Sölvars sonar, Sölva sonar hins Gamla, er fyrstr ruddi Sóleyar. Módir Olafs Tretelgiu het Gauthilldr; enn hennar módir Alof, dóttir Olafs ens Skygna, konungs af Næriki. Olafr oc Sölva áttu tva sonu, Ingialld oc Hálfdan; Halfdan var uppfæddr í Sóleyom med Sölva módurbrædur sínum; hann var kalladr Halfdan Hvítbein.

## CAP. XLVII.

## BRENDR INNI OLAFR TRETELGIA.

Þat var mikill mannfiölldi, er útlagi fór or Svíþióð fyrir Ivari konungi; spurdu þeir at Olafr Tretelgia hafdi lands-kosti góda á Vermalandi, oc dreif þannug til hans sva mikill mannfiölldi, at landi feck eigi borit: gerdiz þar hallæri mikit oc sulltr; kendu þeir þat konungi sínum, sva sem Svíar eru vanir at kenna konungi bædi ár oc hallæri. Olafr konungr var lítill blótmadr; þat líkadi Svíum illa, oc þótti þadan mundo standa hallærit: drogu Svíar þá her saman, gördu för at Olafi konungi, oc tóku hús á hönum, oc brendu hann inni, oc gáfu hann Odin, oc bletu hönum til árs ser: þat var vid Væni. Sva segir Þiódolfr:

Oc vid vág
hinn er vidiar
hræ Olafs
hof-gylldir svalg
oc glód-fialgr
görvar leysti

sonr Forniótz
af Svía iöfri.
sá áttkonr
frá Uppsölum
lofda kyns
fyrir laungu hvarf.

## CAP. XLVIII.

## HÁLFDAN HVITBEIN TIL KONUNGS TEKINN.

Þeir er vitrari voru af Svíum, fundu at þat olli hallærinu, at mannfólkit var meira enn landit mætti bera, enn konungr hafdi engu um valldit. Taka nu þat rád, at þeir fara med herinn allan vestr yfir Eydaskóg, oc koma fram í Sóleyum miök á óvart: þeir drapu Sölva konung, enn tóku höndum Hálfdan Hvitbein; þeir taka hann til höfdingia yfir sic, oc gefa hönum konungs nafn: lagdi hann þá undir sic Sóleyar. Sídan fór hann med herinn út á Rauma-ríki, oc heriar þar, oc feck hann fylki þat af hernadi.

## CAP. XLIX.

## FRÁ HALFDANI HVÍTBEIN.

Halfdan Hvítbein var konungr ríkr; hann átti Asu dóttur Eysteins hins hardráda, Upplendinga konungs; hann red fyrir Heidmörk:. Þau Hálfdan áttu II sonu, Eystein oc Gudröd. Halfdan eignadiz mikit af Heid-

mörk, oc Þotn oc Hadaland, oc mikit af Vestfolld: hann vard gamall madr, oc vard sóttdaudr á Þotni, oc var sidan fluttr út á Vestfolld, oc heygdr þar sem heitir Skæreid í Skíringssal. Sva segir Þiódólfr:

þat fra hverr
at Hálfdanar
söc midlendr
sakna skylldu.
Oc hallvarps
hlífi nauma
þiód-konung
á Þotni tók.
Oc Skæreid
í Skiringssal
of brynialfs
beinom drupir.

## CAP. L.

## FRÁ INGIALLDI BRODUR HALFDANAR

Ingialldr bródir Halfdanar var konungr í Vermalándi; Enn eptir dauda hans lagdi Hálfdan konungr Vermaland undir sic, oc tók skatta af, oc setti þar Jarla yfir, medan hann lifdi.

## CAP. LI.

## DAUDI EYSTEINS KONUNGS.

Eysteinn, son Hálfdanar Hvitbeins, var konungr eptir hann á Rauma-ríki oc á Vestfolld; hann átti Hilldi dóttur Eiríks Agnar sonar, er konungr var á Vestfolld. Agnar fadir Eiríks, var sonr Sigtryggs

konungs á Vindli. Eirikr konungr átti engan son; hann dó þá er Hálfdan konungr Hvítbein lifdi. Tóku þeir fedgar Hálfdan oc Eysteinn þá undir sic alla Vestfolld; red Eysteinn Vestfolld medan hann lifdi. Þá var sá konungr á Vörno er Skiölldr het, hann var allmiök fiölkunnigr. Eysteinn konungr fór med herscip nockor yfir á Vörnu, oc heriadi þar, tók slikt er fyrir var klædi oc adra gripi, oc gögn bóanda, oc hiöggo strandhögg; fóro í brott sídan. Skiölldr konungr kom til strandar med her sinn; var Eysteinn konungr þá í brottu, oc kominn yfir fiördinn, oc sá Skiölldr segl þeirra; þá tók hann möttull sinn, oc veifdi, oc bles vid. Þá er þeir sigldu inn um Jarlsey, sat Eysteinn konungr vid styri; skip annat sigldi nær þeim; báru-skot nockut var í, oc laust beiti ásinn af ödru skipi konung fyrir bord; þat var hans bani. Menn hans nádu likinu; var þat flutt inn á Borro, oc orpinn haugr eptir á rödinni, út vid siá, vid Vödlu. Sva segir Þiódolfr:

Enn Eysteinn
fyrir ási fór
til byleistis
bródur meyar.
Oc nú liggr
und lagar beinum
reiks lödudr
á radar broddi;
Þar er elkalldr
hiá iöfur Gauzcom
Vödlo straumr
at vagi kemr.

## CAP. LII.

## FRÁ HALFDANI KONUNGI MILLDA OC MATARILLA.

Halfdan het sonr Eysteins konungs, er konungdóm tók eptir hann; hann var kalladr Halfdan hinn Milldi oc hinn Matar-illi. Sva er sagt, at hann gaf i mála mönnum sinum jam-marga gullpeninga, sem adrir konungar silfrpeninga; enn hann svellti menn at mat. Hann var hermadr mikill, oc var laungum i vikingu, oc feck ser fiár. Hann átti Hlif dóttur Dags konungs af Vestmörum. Holltar á Vestfold var höfutbær hans; þar vard hann sóttdaudr, oc er hann heygdr á Borro. Sva segir þiódolfr:

Oc til þings
þridia iöfri
Hvedrungs mær
or heimi band.
þá er Hálfdan,
sá er á Hollti bió,
norna dóms
of notit hafdi.
Oc budlung
á Borroe
sigr-hafendr
sídan fálo.

## CAP. LIII.

## FRÁ GUDRAUDI VEIDI-KONUNGI.

Gudreydr het sonr Hálfdanar, er konungdóm tók eptir hann; hann var kalladr Gudreydr hinn Mikilláti,

enn sumir köllndu hann Veidi-konung; hann átti þá konu er Alfhilldr het, dóttir Alfarins konungs úr Alfheimum; oc hafdi med henni halfa Vingulmörk. Þeirra son var Olafr, er sídan var kalladir Geirstada-Alfr. Alfheimar voru þá kalladir milli Raumelfar oc Gautelfar. Enn er Alfhilldr var öndut, þá sendi Gudreydr konungr menn sína vestr á Agdir til konungs þess er þar red fyrir, sá er nefndr Haralldr hinn Gran-raudi; skylldo þeir bidia Aso dóttur hans til handa konungi; enn Haralldr syniadi; komu sendimenn aptr, oc sögdu konungi sitt erendi. Enn nockoro sídar skaut Gudraudr konungr skipum á vatn, fór sídan med lidi miklu út á Agdir; kom miök á úvart, oc veitti þegar upprás; kom um nótt á bæ Haralldś konungs. Enn er hann vard var vid, at her var kominn á hendur hönum, þá geck hann út med þat lid sem hann hafdi; vard þar orosta, enn lids munr var allmikill: þar fell Haralldr konungr oc Gyrdr sonr hans. Tók Gudrödr konungr herfang mikit; hann hafdi heim med ser Asu, dóttur Harallds konungs, oc gerdi brullaup til hennar: þau áttu son er Halfdan het. Enn þá er Halfdan var vetr gamall, þat haust fór Gudrödr konungr at veizlum; hann lá med skipi sínu í stíflusundi, voru þar dryckiur miklar, var konungr miök druckinn. Oc um kvelldit er myrkt var, geck konungr af skipi; enn er hann kom á bryggiuspord, þá lióp madr at móti hönum, oc lagdi spióti í gögnum hann; var þat hans bani; sá madr var þegar drepinn. Enn um

morguninn eptir er lióst var, þá var madr sá kendr, var þat skósveinn Asu drottningar; duldi hun þá ecki, at þat voru hennar rád. Sva segir Þiódolfr:

Var Gudrödr
hinn göfugláti
lómi beittr
sá er laungu var
oc um rád
at ölom stilli
höfud heipt rækt
at hilmi dró.
Oc launsigr
hinn lómgedi
Aso árr
af iöfri bar.
Oc budlungr
á bedi fornom
Stiflosunds
of stánginn var.

## CAP. LIV.
## DAUDI OLAFS KONUNGS.

Olafr tók konungdóm eptir födur sinn; hann var ríkr madr oc hermadr mikill; hann var allra manna frídastr oc sterkastr, oc mikill vexti; hann hafdi Vestfolld: þvíat Alfgeir konungr tók þá undir sic Víngulmörk alla; setti hann þar yfir Gandalf konung son sinn. Þá gengu þeir fedgar miök á Raumaríki, oc eignuduz mestan lut þess ríkis oc fylkir. Högni het son Eysteins hins Ríka, Upplendinga konungs; hann lagdi þá undir sic Heidmörc alla, oc Þotn oc

Hadaland; þá hvarf oc undan þeim Gudreydar sonum Vermaland, oc sneruz þeir þá at skattgiöfum undir Svía konung. Olafr var þá á tvítogs alldri, er Gudrödr andadiz: enn er Halfdan bródir hans geck til ríkis med hönum, þá skipto þeir ríkino med ser; hafdi Olafr inn eystra lut, enn Halfdan inn sydra. Olafr konungr hafdi atsætu á Geirstödum; hann tók fótar verc, oc andadiz þar af; oc er hann heygdr á Geirstödum. Sva qvad Þiódolfr:

Oc nid kvísl
í Noregi
Þróttar Þros
of þróaz hafdi.
Red Olafr
ofsa fordum
vídri grund
of Vestmari.
Uns fótverkr
vid folldar Þröm
vígmidlung
of vida skylldi.
Nú liggr gunn-diarfr
á Geirstödum
her-konungr
haugi ausinn.

CAP. LV.

## FRÁ RÖGNVALLDI HEIDUM HÆRRA.

Rögnvalldr het sonr Olafs konungs er konungr var á Vestfolld eptir födur sinn. Hann var kalladr

Heidum hærri; um hann orti Þiódolfr enn Hvinverski Ynglinga tal; þar segir hann sva:

Þat veit ec bazt
und blam himni
kenni-nafn
sva at konungr eigi,
er Rögnvalldr
reidar stióri
Heidum-hárr
of heitinn er.



# II. SAGA

## II.

# SAGA HALFDANAR SVARTA.

### CAP. I.

### HALFDAN BERZ VID GANDÁLF OC SIGTRYGG.

Hálfdan var vetr gamall, þá er fadir hans fell; Asa módir hans fór þegar med hann vestr á Agdir, oc settiz þar þegar til ríkis þess, er átt hafdi Haralldr fadir hennar. þar óx upp Hálfdan oc var brátt mikill oc sterkr oc svartr á hár; hann var kalladr Hálfdan svarti. þá var hann XVIII vetra, er hann tók konungdóm á Ögdum. Fór hann þegar á Vestfolld, oc skipti ríki vid Olaf bródur sinn, sva sem fyrr er rítat. Sama haust fór hann med her á Vingulmörk, á hendur Gandálfi konungi, oc áttu þeir margar orostur, oc höfdu ymsir sigr; enn at lyctum sættuz þeir: skylldi Hálfdan hafa Vingulmörk hálfa, sem ádr hafdi haft Gudraudr fadir hans. Eptir þat fór Halfdan konungr upp á Raumaríki, oc lagdi undir sic: þat spurdi Sigtryggr konungr, son Eysteins konungs; hann hafdi þá atsetu á Heid-

mörc, oc hafdi ádr Raumaríki undir sic lagt: Fór þá Sigtryggr konungr med her móti Hálfdani konungi, oc var þar orosta mikil, oc hafdi Hálfdan konungr sigr. Enn er flótti brazt, þá var Sigtryggr konungr lostinn öru undir höndina vinstri, oc fell hann þar. Sidan lagdi Hálfdan undir sic allt Raumaríki. Eysteinn het annar sonr Eysteins konungs, brodir Sigtryggs konungs, hann var þá konungr á Heidmörc: Enn er Hálfdan konungr var farinn út á Vestfolld, þá fór Eysteinn konungr med her sinn út á Raumaríki, lagdi þar þá vida land undir sic.

## CAP. II.

## OROSTA HALFDANAR OC EYSTEINS.

Hálfdan Svarti spurdi at ófridr var á Raumaríki: dró hann þá her saman, oc fór á Raumaríki til móts vid Eystein konung, oc áttu þeir orustu, oc hafdi Hálfdan sigr, enn Eysteinn flydi upp á Heidmörc. Hálfdan konungr fór med her sinn eptir hönum upp á Heidmörc, oc áttu þeir þar adra orostu, oc hafdi Hálfdan sigr; enn Eysteinn flydi nordr í Dala, á fund Gudbrands hersis: hann efldiz þadan at lidi, fór sidan um vetrinn út á Heidmörc; hann hitti Hálfdan Svarta í eyinni miklu, er liggr í Miörs; áttu þeir þar orostu; þar fell mart manna af hvarom tveggia, oc hafdi Hálfdan sigr. Þar fell Guthormr sonr Gudbrands hersis, er mannvænstr

þótti vera á Upplöndum. þá flydi Eysteinn konungr enn nordr í Dala; þá sendi hann Hallvard Skálc frænda sinn á fund Hálfdanar konungs, at leita um sættir. Enn fyrir frændsemis sakir, þá gaf Hálfdan konungr upp Eysteini konungi hálfa Heidmörc, sva sem þeir frændur höfdu fyrr átt. Enn Halfdan lagdi undir sic þotn, oc þar sem Land heitir: þá eignadiz hann oc Hadaland; þvíat hann heriadi vída: var hann þá oc allríkr konungr.

## CAP. III.

## KVANFANG HALFDANAR SVARTA.

Hálfdan Svarti feck konu þeirrar, er nefnd er Ragnhilldr dóttur Harallds Gullskeggs; hann var konungr í Sogni: þau áttu son, er Haralldr konungr gaf nafn sitt, oc fæddiz sá sveinn upp í Sogni med Haralldi konungi módur-fedur sínum. Enn er Haralldr var örvasi at alldri, var hann sonlauss; þá gaf hann Haralldi dóttur-syni sínom ríki sitt, oc let hann taka til konungs. Litlu sídar andadiz Haralldr Gullskeggr. þann sama vetr andadiz Ragnhilldr dóttir hans; enn eptir um vorit vard sóttdaudr Haralldr konungr úngi í Sogni; hann var þá X vetra gamall. þegar er Hálfdan Svarti spurdi andlát hans, þá byriar hann ferd sina med lidi miklo, oc fer nordr til Songs; var þar vid hönom vel tekit: taldi hann þar til ríkis oc arfs eptir son sinn: oc var þar

eingi vidrstada. Lagdi hann undir sic ríki þat. Þá kom til hans Atli Jarl hinn Mióvi af Gaulum: hann var vin Hálfdanar konungs. Konungr setti Atla Jarl yfir Sygna-fylki, at dæma þar landslög, oc heimta saman skatta til handa konungi. Fór þá Hálfdan konungr til Upplanda í ríki sitt.

## CAP. IV.

## OROSTA HALFDANAR OC GANDALFS SONA.

Hálfdan konungr fór um haustit út á Vingulmörc. Þat var á einni nátt, þar er Hálfdan konungr var á veizlo, at um midnætti kom til hans madr sá, er hest-vörd hafdi halldit, oc sagdi hönum, at her var kominn nær bænum: konungr stód upp þegar, oc bad menn sína vopna sic, gengr þegar út í gardinn, oc fylkir. Því næst kvamo þar synir Gandalfs, Hysingr oc Helsingr, med lid mikit, vard þar orosta mikil. Enn fyrir því at Hálfdan konungr var ofrlidi borinn, þá flydi hann til skógar, oc let mart manna: þar fell Ölfer hinn Spaki fósturfadir hans. Eptir þat dreif til lid Hálfdanar konungs: fór hann þá at leita Gandalfsona: oc hittuz þeir á Eydi, vid Eyna-sker, oc beriaz þar; þar fell Hysingr oc Helsingr; enn bródir þeirra Haki hom á flótta. Eptir þat lagdi Hálfdan konungr undir sic alla Vingulmörc, enn Haki flydi í Alfheima.

## CAP. V.
## SÍDARA KVANFANG HALFDANAR; ER HANN FECK DÓTTUR SIGURDAR HIARTAR.

Sigurd Hiörtr er nefndr konungr á Hringariki; hann var meiri oc sterkari enn hverr madr annara: allra manna var hann oc fridastr synom. Fadir hans var Helgi hinn Hvassi, enn módir hans Aslaug, dóttir Sigurdar Orms í Auga, Ragnars sonar Lodbrókar. Sva er sagt, at þá var Sigurdr XII vetra gamall, er hann drap Hilldibrand berserk í einvígi, oc þá XII saman; mörg vann hann þrekvirki, oc er laung saga frá hönum. Sigurdr átti tvo börn; Ragnhilldr het dóttir hans: hun var allra kvenna sköruligust; hun var þá á tvitugs alldri: enn Guthormr bródir hennar, hann var á ungmennis alldri. Enn þat er sagt frá atferd Sigurdar kongs, at hann reid einnsaman út á eydimerkur, hann veiddi stór dyr oc mann-skiæd; lagdi hann á þat kapp mikit iafnan. Þat var einn dag at Sigurdr reid einn saman út á merkur, sem vandi hans var til, oc er hann var lánga leid ridinn, kom hann fram í ryd nockorr, í nándir Hadalandi; þá kom þar móti hönum Haki berserkr, med XXX manna, þar barduz þeir: fell þar Sigurdr Hiörtr, enn af Haka XII menn, enn siálfr hann let hönd sína, oc hafdi III sár önnur. Eptir þat reid Haki vid menn sína til búss Sigur-

dar, oc tók þar Ragnhilldi dóttur hans, oc Guthorm bródur hennar, oc hafdi braut med ser, oc fe mikit, oc marga dyrgripi, oc hafdi heim á Hadaland: þar átti hann bú stór. Þá let hann efna til veizlo, oc ætladi at göra brudlaup til Ragnhilldar; enn þat dvalldiz, fyrir því at sár hans höfduz illa. Haki Hada-berserkr lá i sárum um haustit, oc öndverdan vetr: Enn of jól var á Heidmörc Halfdan konungr á veizlo: hann hafdi spurt öll þessi tidindi. Þat var einn morgin snimma er konungr var klæddr, at hann kalladi til sín Hárek Gand, sagdi at hann skylldi fára yfir á Hadaland, oc færa hönum dóttur Sigurdar Hiartar Ragnhilldi. Hárekr bióz oc hafdi hundrat manna; stillti sva ferdinni, at þeir kvamo yfir vatnit í ótto til bæiar Haka, tóku dyr allar oc skála, er húskarlar svafo í: sidan gengo þeir til svefnbúrs þess, er Haki svaf í, oc brutu upp, oc tóku í brott Ragnhilldi, oc Guthorm bródur hennar, oc allt fe þat er þat var; enn þeir brendu skálann, oc alla menn þá er inni voru: þeir tiölldudu vagn einn allvegligan, oc settu þar í Ragnhilldi, oc Guthorm, fóru sidan til íssins. Haki stód upp, oc geck eptir þeim um hríd; enn er hann kom at vatz ísinum, þá sneri hann nidr hiölltum á sverdinu, enn lagdiz á blódrefilinn, sva at sverdit stód í gegnum hann: feck han þar bana, oc er hann þar heygdr á vatzbackanom. Halfdan konungr sá er þeir fóru um vatzísinn, þvíat hann var manna skygnztr; oc er hann sá vagn tialldadan, þóttiz hann vita, at eyrindi þeir-

ra mundi ordit vera, þat sem hann villdi: let hann þá setia bord sitt, oc sendi menn vida um bygdina, oc baud til sin mörgum mönnum, oc var þar þann dag veizla gód: oc at þeirri veizlo feck Hàlfdan konungr Ragnhilldar oc var hun sidan rik drottning. Módir Ragnhilldar var Þyrni, dóttir Klack Harallds konungs af Jotlandi, systir Þyri Danmarkar bótar, er átti Gormr hinn Gamli Dana konungr, er þá red Danavelldi.

## CAP. VI.

## FRÁ DRAUMOM RAGNHILLDAR.

Ragnhilldi drottningu dreymdi drauma stóra: hun var spök at viti. Sá var einn draumr hennar, at hun þóttiz vera stödd í grasgardi sinom, oc taka þorn einn or serk ser: oc er hun hellt á, þá óx hann sva, at þat vard teinn einn mikill; sva at annar endir tók í iörd nidr, oc vard brátt rótfastr; enn annar endir tresins tók hátt í loptit upp, oc því næst syndiz henni tred sva mikit, at hon feck varla sed yfir upp: þat var oc furdu digurt: enn nedsti lutr tresins var raudr sem blód; enn þá leggrinn upp fagr-græun; enn limarnar hvítar sem sniár. Þar voru kvistir á trenu margir oc stórir, sumir ofarr, enn sumir nedarr: limar tresins voru sva miklar, at henni þóttu dreifaz um allan Noreg, oc enn miklo vídara.

## CAP. VII

## DRAUMR HALFDANAR.

Hálfdan konungr dreymdi alldrey; hönum þótti þat undarligt, oc bar þat fyrir þann mann er nefndr er Þórleifr enn spaki, oc leitadi ráda, hvat at því myndi mega gera. Þórleifr sagdi hvat hann gerdi, ef hann forvitnadi nockurn lut; at hann færi í svínabæli at sofa, oc bránz hönum eigi draumar, oc konungr gerdi þat, oc birtiz hönom draumr þessi: Hönom syndiz at hann væri allra manna best hærdr, oc var hár hans allt med lockom, sumir sídir sva at tók till iardar; sumir í midian legg, sumir á kne, sumir í miodm, eda midia sídu, sumir á hals; enn sumir ecki meir enn sprottnir upp or hausi sem knyflar. Enn á lockum hans var hverskyns litr, enn einn lockr sigradi alla vid fegurd oc med liósleik oc mikilleik. Þórleifi sagdi hann þann draum; enn hann þyddi sva, at mikil afspríngr mundi af hönum koma, oc myndi hans ættmenn löndum ráda med miklum veg, oc þó eigi allir med jam-miklum: enn einn mundi sá af hans ætt koma, at öllum mundi meiri oc ædri. Oc hyggia menn þat, at sá lockr iartegndi Olaf konung hinn Helga. Hálfdan konungr var vitr madr, oc sanninda madr oc iafnadar, oc setti lög, oc gætti siálfr, oc þrysti öllum til at gæta. Oc at eigi mætti ofsi steypa lögunum, gerdi hann siálfr saktal oc skipadi bótum, hverium

eptir sinom burd oc metordum. Ragnhilldr drottning ól son, oc var sá vatni ausinn, oc nefndr Haralldr; han var brátt mikill oc hinn frídasti. Óx hann þar upp, oc gerdiz þegar íþrótta-madr snemma, oc vel viti borinn: módir hans unni hönum mikit, enn fadir hans minna.

## CAP. VIII.

## MATAR HVARF HALFDANAR.

Hálfdan konungr var á iólavist á Hadalandi; þar vard undarligr lutr ióla aptan, þá er menn voru til borda gengnir, oc var þar allmikit fiölmenni, at þar hvarf vist öll af bordum, oc allt munngát: sat konungr ryggr eptir, enn hverr annara sótti sin heimili. Enn til þess at konungr mætti víss verda hvat þessum atburd olli, þá let han taka finn einn, er margfródr var, oc villdi neyda hann til sadrar sögu, oc píndi hann, oc feck þó ecki af hönum. Finnrinn het þannoc miök til hialpar, er Haralldr var sonr hans, oc Haralldr bad hönum eyrdar, enn feck eigi, oc hleypti Haralldr hönom þó í brot, at úvilia konungs, oc fylgdi honom siálfr. Þeir komu þar farandi, er höfdingi einn hellt veizlo mikla, oc var þeim at syn þar vel fagnat. Oc er þeir höfdu þar verit til vors, þá mællti höfdinginn einn dag til Harallds: furdo mikit torrek görir fadir þinn ser at, er ec tók vist nockura frá hönum í vetr; enn ec mun þer þat launa med fegin sögu: fadir þinn er nú daudr, oc

skalltu heim fara; muntu fá ríki þat allt, er hann hefir átt, oc þar med skallto eignaz allan Noreg.

## CAP IX.

## DAUDI HALFDANAR KONUNGS.

Hálfdan Svarti ók frá veizlo á Hadalandi, oc bar sva til leid hans, at hann ók um vatnit Rönd: þat var um vár, þá voro sólbrád mikil. Enn er þeir óku um Rykinsvík, þar höfdu verit um vetrinn nauta brunnar; enn er mykrin hafdi fallit á ísinn, þá hafdi þar grafit um, í sólbrádinu; enn er konungr ók þar um, þá braz nidr ísinn, oc tyndiz þar Hálfdan konungr, oc lid mikit med hönum. Þá var hann fertogr at alldri. Hann hafdi verit allra konunga ársælstr. Sva mikit gordo menn ser at um hann, at þá er þat spurdiz, at hann var daudr, oc lík hans var flutt á Hríngaríki, oc var þar til graptar ætlat, þá fóru ríkismenn af Raumaríki oc Vestfolld oc Heidmörk, oc beiddoz allir at hafa líkit med ser, oc heygia í sínu fylki, oc þótti þat vera árvænt þeim er nædi. Enn þeir sættuz sva, at líkino var skipt í fióra stadi, oc var höfudit lagit í haug at Steini á Hríngaríki. Enn hverir fluttu heim sinn luta, oc heygdo; oc eru þat allt kalladr Hálfdanar haugar.

# III.

# HARALLDS SAGA ENS HARFAGRA.

## CAP I.

## OROSTA HARALLDS VID HAKA OC GANDALF FÖDUR HANS.

Haralldr tók konungdóm eptir födur sinn þá er hann var X vetra gamall: hann var allra manna mestr oc sterkastr oc frídastr synom, vitr madr oc skörungr mikill. Guthormr módurbródir hans gerdiz forstióri fyrir hirdinni, oc fyrir öllum landrádom; hann var oc hertogi fyrir hird-lidinu. Eptir líflát Hálfdanar Svarta gengo margir höfdingiar á ríki þát er hann hafdi leift; var þar hinn fyrsti madr Gandálfr konungr, oc þeir brædur Högni oc Fródi, synir Eysteins konungs af Heidmörk; oc Högni Káruson geck vída yfir Hríngaríki. Þá byriar ferd sína Haki Gandálfsson út á Vestfolld med CCC manna, oc fór it efra um dali nockura, oc ætladi at koma á úvart Haralldi konungi: enn Gandálfr konungr sat at löndum med her sinn, oc þar ætladi hann þá at flytiaz yfir fiördinn med her sinn á Vestfolld. Enn er þat spyrr Guthormr hertogi, samnar hann her, oc fer med Haralldi konungi. Fara þeir

Guthormr móti Haka upp á land, oc finnaz þeir í dal nockurum; vard þar orosta, oc feck Haralldr konungr sigr, enn þar fell Haki konungr, oc mikíl luti lids hans. Þar heitir sídan Hakadalr. Eptir þat venda þeir aptr Haralldr konungr oc Guthormr hertogi, enn þá var Gandalfr konungr kominn á Vestfolld, oc fara nú hvarir móti ödrum; oc er þeir finnaz verdr orosta hörd; þadan flydi Gandalfr konungr, oc let mestan luta lids síns, oc komz vid sva búit í ríki sitt. Oc er þessi tídindi spyria synir Eysteins konungs á Heidmörc, vænto þeir ser skiótt hers; þeir gera ord Högna Károsyni, oc Gudbrandi hersi, oc leggia stefno sína á Heidmörk, á Ríngisakri.

## CAP. II.

## HARALLDR KONUNGR VINNR FIM HÖFDINGIA.

Eptir þessar orostor ferr Haralldr konungr oc Guthormr hertogi, oc allt lid þat er þeir fá, oc venda til Upplanda oc fara miök markleidir: þeir spyria hvar Upplendinga konungar hafa lagt stefnu sína, oc koma þar um midnætti: oc verda eigi vardmenn fyrr varir vid, enn lidit var komit fyrir þá stofu, er inni var Högni Káruson, oc sva þá er Gudbrandr svaf í, oc lögdo elld í hvaratveggio: enn Eysteins synir komuz út med menn sína, oc bördur of hríd, oc fellu þar bádir Högni oc Fródi. Eptir

fall þessara IV höfdingia, eignadiz Haralldr konungr med krapt oc framkvæmd Guthorms frænda síns Hríngaríki oc Heidmörk, Gudbrandsdali oc Hadalands, Þotn oc Raumaríki, Vingulmörk allan hinn nordra lut. Eptir þat höfdo þeir Haralldr konungr oc Guthormr hertogi úfrid oc orostor vid Gandálf konung, oc lauk med því, at Gandálfr konungr fell í hinni sídustu orusto; enn Haralldr konungr eignadiz ríki allt sudr til Raum-elfar.

## CAP. III.

## FRÁ GYDU EIRÍKS DÓTTUR.

Haralldr konungr sendi menn sína eptir meyo einni, er Gyda het, dóttir Eiríks konungs af Hödalandi; hun var at fóstri á Valldresi, med ríkum bóanda. Villdi konungr hana hafa til fridlo ser; þviat hun var alfríd mær, oc helldr stórlát. Enn er sendimenn komu þar, þá baro þeir upp erindi sín fyrir meyna; hun svarar á þessa lund: at eigi vill hon spilla meydómi sínom til þess, at taka til manns þann konung, er eigi hefir meira ríki enn nockor fylki til forráda; enn þat þicki mer undarligt, segir hun, er engi er sá konungr, sva vili eignaz Noreg, oc vera einvalldi yfir, sem Gormr konungr at Danmörku, edr Eiríkr konungr at Uppsölum. Sendimönnom þickir hun svara furdu stórliga, oc spyria hana máls um, hvar til svör þessi skulu koma? segia, at Haralldr er kon-

ungr sva ríkr, at henni er fullrædi í; enn þó at hun svari á annan veg þeirra eyrindum, enn þeir mundo vilia, þá siá þeir eingan sinn kost til þess at sinni, at þeir mundo hana í brott hafa, nema hennar vili væri till þess; oc búaz þeir þá ferdar sinnar. Enn er þeir ero búnir, leida menn þá út; þá mællti Gyda vid sendimenn: segit þau mín ord Haralldi konungi, at ec mun því at eins iáta, at geraz eigin-kona hans, ef hann vill þat gera fyrir mínar sakir ádr, at leggia undir sic allan Noreg, oc ráda því ríki iafnfriálsliga, sem Eiríkr konungr Svíavelldi, edr Gormr konungr Danmörk: þvíat eino þicki mer, segir hon, hann mega heita Þiódkonungr.

## CAP. IV.
## HEITSTRENGING HARALLDS KONUNGS.

Sendimenn fara nú aptr til Harallds konungs, oc segia hanom þessi ord meyiarinnar, oc segia at hon væri furdu diörf oc úvitr; oc telia þat makligt, at konungr sendi eptir henni med fiölmenni, oc göra til hennar nockura ósæmd. Þá svarar Haralldr konungr, at eigi hefdi þessi mær illa mællt, edr gert, sva at hefnda vóri fyrir verdt, oc bad hana hafa mikla þöck fyrir ord sín, hún hefir mint mik þeirra luta, segir hann, er mer þickir nú undarligt, er ec hefi þetta eigi fyrr hugleitt. Oc enn mællti hann: þess streingi ec heit, oc því skyt ec til Guds þess er mic skóp, oc öllo rædr, at alldri skal skera hár mitt ne kemba, fyrr enn ec hefi eignaz allan Noreg,

med sköttum oc skylldum oc forrádi, enn deya at ödrum kosti. Þessi ord þackadi hönum miök Guthormr hertogi, oc let þat vera konunglict verk at efna ord sín.

## CAP. V.

## OROSTA Í ORKADAL.

Eptir þetta samna þeir frændur lidi miklo, oc búa ferd sína á Upplönd, oc sva nordr um dali, oc þadan nordr um Dofrafiall, oc þá er hann kom ofan í bygdina, þá let hann drepa menn alla, enn brenna bygdina. Enn er fólkit vard þessa víst, þá flýdi undan hverr er mátti; sumir ofan til Orkadals, sumir til Gaulardals, sumir á markir, sumir leitudu grida; oc þat fengo allir þeir er á konungs fund komu, oc gerduz hans menn. Þeir fengu enga mótstödu, fyrr enn þeir komu til Orkadals; þar var samnadr fyrir þeim, oc þar átto þeir ena fyrsto orosto vid konung þann er Grytingr het: Haralldr konungr feck sigr, enn Grytingr vard handtekinn, oc drepit mikit lid af hanom, enn hann geck til handa Haralldi konungi, oc svardi hönum trunadar eida: Eptir þat geck allt fólk undir Haralld konung í Orkdæla-fylki, oc gerduz hans menn.

## CAP. VI.

## LANDS-RETTR HARALLDS KONUNGS.

Haralldr konungr setti þann rett allt þar er hann

vann ríki undir sic, at hann eignadiz ódol öll, oc let alla bóendar giallda ser landskylldir, bædi ríka oc úríka; hann setti Jarl i hverio fylki, þann er dæma skylldi lög oc landsrett, oc heimta sakeyri oc landskylldir, oc skylldi Jarl hafa þridiung skatta oc skyllda, til bords ser oc kostnadar: Jarl hverr skylldi hafa undir ser IV hersa edr fleiri, oc skylldi hverr þeirra hafa XX marka veizlo. Jarl hver skylldi fá konungi í her LX hermanna af sínum einom kostnadi; enn hersir hver XX manna. Enn sva mikit hafdi Haralldr konungr aukit á lögor oc landskylldir, at Jarlar hans höfdu meira ríki enn konungar höfdo fyrrom. Enn er þetta spurdiz um þrándheim, þá sóttu til Haralld konungs margir ríkis menn, oc gerdoz hans menn.

## CAP. VII.

## OROSTA Í GAULARDAL.

Þat er sagt, at Hákon Jarl Griótgards son kom til Haralld konungs utan af Yrium, oc hafdi lid mikit til fulltíngis vid Haralld konung. Eptir þat fór Haralldr konungr inn í Gaulardal, oc átti þar orosto, oc felldi þar tva konunga; oc eignadiz sídan ríki þeirra: enn þat var Gauldæla-fylki oc Strinda-fylki. Þá gaf hann Hákoni Jarli yfir-sókn um Strinda-fylki. Eptir þat fór Haralldr konungr inn í Stióradal, oc átti þar ena þridio orosto, oc hafdi sigr,

oc

oc eignadiz þat fylki. Eptir þat sömnuduz saman Inn-þrændir, oc voro komnir saman IV konungar med her sinn: sá einn er red fyrir Veradal; annar fyrir Skön; þridi á Sparbyggia fylki; fiórdi af Eynni idri; sá átti Eyna fylki. Þessir IV konungar fóru med her sinn móti Haralldi konungi; enn hann hellt orostu vid þá, oc feck sigr: enn þessir konungar fellu sumir, enn sumir flydu. Haralldr konungr átti allz í Þrándheimi VIII orostor edr fleiri, oc at felldom VIII konungom eignadiz hann allan Þrándheim.

## CAP. VIII.

## HARALLDR VANN NAUMDÆLA-FYLKI.

Nordr í Naumudal voro brædur tveir konungar, Herlaugr oc Hrollaugr; þeir höfdu verit at þriú sumur at gera haug einn: sá haugr var hladinn med grióti oc limi, oc vidum gör; enn er haugrinn var algörr, þá spurdu þeir brædur þau tídindi, at Haralldr konungr fór á hendur þeim med her. Þá let Herlaugr konungr aka til haugsins vist mikla oc dryck; eptir þat geck Herlaugr konungr í hauginn med tolfta mann; sídan let hann kasta aptr hauginn. Hrollaugr konungr fór upp á haug þann, er konungar voru vanir at sittia á, oc let þar búa konungs hásæti, oc settiz þar í: þá let hann leggia dynur á fótpallinn, þar er Jarlar voru vanir at sitia á; þá velltiz hann or hásætinu oc í Jarls-sæti, oc gaf ser

siálfr Jarlsnafn. Eptir þat fór Hrollaugr móti Haralldi konungi, oc gaf hönum allt ríki sitt, oc baud at göraz hans madr, oc segir hönum alla sína medferd. Þá tók Haralldr konungr sverd, oc festi á linda hönum. Þá festi hann skiölld á háls hönum, oc gerdi hann Jarl sinn, oc leiddi hann í hásæti: þá gaf hann hönum Naumdæla-fylki, oc setti hann þar Jarl yfir.

## CAP. IX.

## FRÁ SKIPAN HARALLDS KONUNGS.

Haralldr konungr fór þá aptr til Þrandheims, oc dvalldiz þar um vetrinn, oc kalladi heimili sitt iafnan sídan; þar setti hann hinn mesta höfutbæ sinn, er Ladir heita. Þann vetr feck hann Asu dóttur Hákonar Jarls Griótgards sonar, oc hafdi Hákon þá mestan metnad af konunginum. Um varit red Haralldr konungr ser til skipa. Hann hafdi gera látit um vetrinn dreka mikinn, oc búinn hit vegligsta: þar skipadi hann á hird sinni oc berserkium. Stafn-búar voru mest vandadir; þvíat þeir höfdo merki konungs: aptr frá stafninum till austrúms, var kallat á rausn; þat var skipat berserkiom. Þeir einir nádu hirdvist med Haralldi konungi, er afreksmenn voru, bædi at afli oc hreysti, oc allsconar atgörvi: þeim einom var skipat hans skip, þvíat hann átti þá gód völ at kiósa ser hirdmenn or hveriu fylki. Haralldr konungr hafdi her mikinn oc mörg stór

skip, oc margir ríkismenn fylgdo hanom. Þess getr Hornklofi í Glymdrapu, at Haralldr konungr hafdi fyrr bariz á Uppdals skogi vid Orkndælinga, enn hann hafdi leidángr þenna úti.

Hilmir red á hæidi
hialldr seíds þrumu galldra
ódr vid æski meidi
ey vebrantar heya.
Adr gnapsalar grímnis
gnystærandi færi
rausnar samr til rimmo
rídvígs lagar skídum.
Gerdi glamma ferdar
gnyþrottr í orusto dróttar
hel kannandi hlenna
hlym ræks um trud glymia.
Adr út á mar mætir
mannsceædr lagar tanna
ræsi nadr oc rausnar
rak vebrautar nöckva.

## CAP. X.

## OROSTA VID SOLSKEL.

Haralldr konungr hellt lidi sino út or Þrandheimi, oc sneri sudr á Mæri. Hunþiófr er nefndr konungr, sá er red fyrir Mæra-fylki; Sölfi Klofi het sonr hans; þeir voru hermenn miklir. Enn sá konungr er red fyrir Raumsdal, er nefndr Nöckvi; hann var módurfadir Sölfa. Þessir höfdingiar drógu saman her mikinn, er þeir spyria til Harallds konungs, oc fara móti hönum, oc hittaz þeir vid Sólskel; vard þar

orosta mikil, oc hafdi Haralldr konungr sigr. Þessarar orosto getr Hornklofi:

þar sva at bars at bordi
bord Hölkvis rak nordan
hlífar valldr til hilldar
hreggs döglinga tveggia.
Oc allsnæfrir iöfrar
ordalaust at mordi,
endiz raudra randa
rödd dynscotum kvöddnz.

Bádir konungar fello, enn Söllvi komz vid flótta undan; lagdi Haralldr konungr þá undir sic þessi tvö fylki, oc dvalldiz þar lengi um sumarit, oc skipadi þar rettum med mönnom, oc setti þar forráda menn, oc treysti ser fólk. Enn um haustit bióz hann at fara nordr til Þrandheims. Rögnvalldr Mæra Jarl, sonr Eysteins Glumru, hafdi þá of sumarit görz madr Harallds konungs. Haralldr konungr setti hann höfdingia yfir þessi tvö fylki, Nordmæri oc Raumsdal, oc feck hönum þar styrk til, bædi af ríkismönnum oc bóndum, sva oc skipa-kost, at veria landit fyrir ófridi: hann var kalladr Rögnvalldr enn Riki, edr inn Rádsvinni; oc segia menn at hvartveggia væri sann-nefni. Haralldr konungr var um vetrinn eptir í Þrándheimi.

## CAP. XI.

## FALL ARNVIDS OC AUDBIARNAR KONUNGA.

Eptir um varit bió Haralldr konungr her mikinn

or þrándheimi, oc segir, at hann mundi þeim her stefna á Sunnmæri. Söllfi Klofi hafdi um vetrinn legit úti á herscipom, oc heriat á Nordmæri, oc drepit þar marga menn Harallds konungs, enn suma ræenta, enn brent fyrir sumum, oc gert hit mesta hervirki; Enn stundum um vetrinn hafdi hann verit á Sunnmæri med Arnvidi konungi, frænda sínum. Enn er þeir spyria at Haralldr konungr var á scip kominn, oc hafdi her mikinn, þá samna þeir lidi, oc verda fiölmennir; þvíat margir þóttuz eiga Haralldi konungi heiptir at giallda. Sölfi Klofi fór sudr í Fiördo á fund Audbiarnar konungs, er þar red fyrir, oc bad hann lids, at hann skylldi fara med her sínum til styrks vid þá Arnvid konung, segir han sva: Öllum oss er nú siá kostr audsærr, at ver rísim allir upp í móti Haralldi konungi; manom ver þá hafa nógan styrk, oc man þá audna ráda sigri. Enn hinn er annar kostr, oc er þat þó engi kostr þeim mönnom, er eigi ero ótignari at nafni enn Haralldr, at geraz þrælar hans. þótti födur mínom sá kostr betri, at falla í bardaga í konungdómi sínom, enn gánga siálfkrafa í þiónustu vid Haralld konung; edr þola eigi vapn, sem Naumdæla konungar gerdo; kom Sölfi sva rædom sinom, at Audbiörn konungr het ferdinni; oc dro hann þá her saman, oc fór nordr til fundar vid Arnvid konung; höfdo þeir þá allmikinn her. þeir spurdu þá til Haralds konungs, at hann var þá nordan kominn; þeir hittuz fyrir innan Sólskel. þat var þá sidvani,

er menn börduz á skipom, at tengia skylldi skipin, oc beriaz um stafna; var þar sva gert; lagdi Haralldr konungr skip sitt móti skipi Arnvidar konungs: vard sú orosta en snarpasta, oc fell mikitt fólk af hvarom tveggiom. Oc at lyktum vard Haralldr konungr sva ódr oc reidr, at hann geck fram á rausn á skipi síno, oc bardiz þá sva snarpliga, at allir frambyggvar á skipi Arnvids hrucko aptr till siglu, enn sumir fellu: geck Haralldr konungr þá upp á skipit, leitudu þá menn Arnvids konungs á flótta; enn hann siálfr fell á skipi síno. Þar fell oc Audbiörn konungr; enn Sölfi flydi. Sva segir Hornklofi:

Hádi gramr þar er gnúdu
geira hregg vid seggi
raud fnysti ben blódi
brun gögl, í dyn sköglar:
þá er á rausn fyrir ræsi
red egglitudr seggir
æfr gall hiörr vid hlífar
hnigo fiörvanir sigri.

Þar fell or lidi Haralllds konungs Asgautr, oc Asbiörn Jarlar konungs, oc Griótgardr oc Hrollaugr, mágar hans, synir Hákonar Hlada Jarls. Sölfi var sídan víkingr mikill lánga hrid, oc gerdi opt mikinn skada á ríki Harallds konungs.

## CAP. XII.

## BRENNA VEMUNDAR KONUNGS.

Eptir þat lagdi Haralldr konungr undir sic Sunnmæri. Vemundr bródir Audbiarnar konungs hellt

Fyrda-fylki. Þetta var sidla um haust, oc gera menn þat rád med Haralldi konungi, at han skylldi eigi fara sudr um Stad. Þá setti Haralldr konungr Rögnvalld Jarl yfir Mæri hvaratveggio oc hafdi hann þá um sic mikit fiölmenni. Haralldr konungr sneri þá nordr aptr til Þrándheims. Þann sama vetr fór Rögnvalldr Jarl hit idra um Eid, oc sva sudr um Fiördo. Hann hafdi niósn af Vemundi konungi, oc kom um nótt þar sem heitir Naustdalr; var Vemundr konungr þar á veizlo. Rögnvalldr Jarl tók hús á þeim, oc brendi konung inni, med XC manna. Eptir þat kom Berdlu-Kári till Rögnvallds Jarls med lángscip alskipat, oc fóru þeir bádir nordr á Mæri. Tók Rögnvalldr Jarl skip þau, er átt hafdi Vemundr konungr, oc allt lausa fe þat er hann feck. Berdlu-Kári fór nordr til Þrándheims á fund Harallds konungs, oc gerdiz hans madr; han var berserkr mikill.

## CAP. XIII.

## FALL HÁKONAR JARLS OC ATLA JARLS HINS MIÓVA.

Um varit eptir fór Haralldr konungr sudr med landi med skipa her, oc lagdi undir sic Firdafylki; sidan sigldi hann austr med landi, oc kom fram í Vik austr. Enn hann setti eptir Hákon Jarl Griótgards son, oc feck hönum yfirsókn i Firda-fylki. Þá sendi Hákon Jarl ord Atla Jarli hinum Mióva,

att hann skyldi fara brott or Sogni, oc vera Jarl á Gaulom, sem hann hafdi fyrr verit, en kvad Haralld konung hafa veitt ser Sygna-fylki. Atli Jarl sendi þau ord í móti, at hann mun hallda Sygnafylki; oc sva Gaulum, þar til er hann finnr Haralld konung. Jarlarnir þreytto þetta med ser, þar til er bádir samna her: þeir hittaz á Fiölum í Stafanessvagi, oc áttu þar orostu mikla. Þar fell Hákon Jarl, enn Atli Jarl vard sárr til ólifis, oc fóro menn hans til Atleyar med hann, oc andadiz hann þar. Sva segir Eyvindr Skálldaspillir:

Vard Hákon
högna meyar
vidr vapnberr
er vega skylldi,
Oc sinn alldr
í odda gny
Freys áttungr
at Fiölum lagdi.
Oc þar vard
er vinir fello,
mágar Hallgardz
manna blódi
Stafaness
vid stóran gny
vinar lödurs
vagr of blandinn.

## CAP. XIV.

## FRÁ HARALLDI KONUNGI OC EIRÍKI SVÍA KONUNGI.

Haraldr konungr kom lidi sínu austr í Vík, oc

lagdi inn til Tunsbergs; þar var þá kaupstadr: hann hafdi þá dvaliz í þrándheimi IV vetur, oc komit eigi á þeirri stundu í Víkina. Hann spurdi þar þau tidindi, at Eiríkr Svía konungr, Eymundar son, hafdi lagt undir sic Vermaland, oc tók þar skatta af öllum mark-bygdum: oc hann kalladi Vestra Gautland allt nordr til Svínasunds, oc it vestra allt med hafi, þá kalladi Svía konungr þat allt sitt ríki, oc tók skatta af. Hann hafdi þar sett yfir Jarl, er kalladr var Hrani Gauzki; hann hafdi ríki milli Svínasunds ok Gautelfar; hann var ríkr Jarl. Haralldi konungi var sva sagt frá ordom Svía konungs, at hann skylldi eigi fyrr af láta, enn hann hefdi iammikit ríki í Víkinni, sem fyrr hafdi Sigurdr, edr Ragnar Lodbrók son hans; enn þat var Raumaríki oc Vestfolld, allt út til Grenmars; sva Vingulmörk, oc allt sudr þadan. Hafdi þá um þessi fylki snúiz til hlydni vid Svía konung margir höfdingiar, oc mikit fólk annat. Þetta líkadi Haralldi konungi stór-illa, oc stefndi þegar þing vid bændor þar á Folldinni, oc bar sakar á hendur þeim um landrád vid sic. Bændor qvamo þar sumir syn fyrir sic; sumir gulldu fe; sumir sættu refsingum. Fór hann sva um sumarit of þat fylki. Um haustit fór hann upp á Raumaríki, oc fór þar allt at sama hætti, at hann lagdi undir sic þat fylki. Þá spurdi hann öndverdan vetr, at Eiríkr Svía konungr reid um Vermaland at veizlum med hird sína.

## CAP. XV.

## KONUNGAR ÞIGGIA VEIZLO AT ÁKA, OC UM DRÁP HANS.

Haralldr konungr byr ferd sína austr um Eydaskóg, oc kom fram í Vermalandi; let hann þar búa veizlor fyrir ser. Aki het madr, hann var ríkastr bóndi á Vermalandi, stóraudigr, oc þá gamall at alldri. Hann sendi menn til Haralldz konungs, oc baud hönum til veizlo. Konungr het ferdinni at áqvednum degi. Aki baud oc Eiríki konungi til veizlo, oc lagdi hönum inn sama stefnodag. Aki átti mikinn veizloscála, oc var þá forn; hann let þá gera annan nyan veizloscála, eigi minna, oc vanda sem mest; hann let þann scála tiallda allan nyum búnadi; enn hinn forna scála med fornodom búnadi. Enn er konungar komo till veizlunnar, þá var skipat Eiríki konungi med sinni hird í inn forna scála, enn Haralldi í inn nya scala med sínu lidi. Þannog var skipt bordbúnadi öllum, at Eiríkr konungr oc hans menn höfdo forn ker oc horn, oc þó gyllt oc allvel búinn; enn Haralldr konungr oc hans menn höfdo öll ny ker oc horn, oc búinn öll med gulli: þau voru öll líkud, oc skygd sem gler; enn dryckr var hvartveggi inn besti. Aki bóndi hafdi fyrr verit madr Hálfdanar konungs Svarta. Enn er sá dágr kom, er veizlan var öll, þá biugguz konungar til brottferdar, voro þá reidsciótar búnir; þá geck Aki fyrir Haralld konung, oc leiddi med ser

son sinn XII vetra gamlan, sá het Ubbi. Aki mælti: Ef ydur þickir, herra, vinattu vert fyrir gódvilia minn, er ec hefi lyst vid ydr i heimbodi mino, þá launi þer syni mínum; hann gef ec þer til þiónostomans. Konungr þackadi hanom med mörgum fögrum ordum sinn fagnad, oc het hanom þar í mót fullkominni sinni vinatto. Sídan greiddi Aki fram stórar giafir, er hann gaf konungi. Sídan mintiz Aki vid konung. Eptir þat geck Aki til Svía konungs, var þá Eiríkr konungr klæddr, oc búinn til ferdar, oc var hann helldr úkátr. Aki tók þá góda gripi, oc gaf konungi. Konungr svarar fá, oc steig á hest sinn. Aki geck á leid med konungi, oc taladi vid hann. Skógr lá nær bænum, oc lá þar vegrinn yfir. Enn er Aki kom á skóginn, þá spurdi konungr hann: hví skiptir þú sva fagnadi med ockur Harralldi konungi, at hann skylldi hafa af öllu inn betra lut, oc veiztu at þú ert minn madr. Ec hugda, segir Aki, at ydr, konungr, oc ydra menn, mundi engan fagnat skort hafa at þessi veizlo; enn at þar var forn búnadr, er þer druckut, þá velldr þat því, at þer erut nú gamlir; enn Haralldr konungr er nú í blóma alldurs: feck ec hönum af því nyan búnat: Enn þar er þú mintir mic, at ec væri þinn madr, þá veit ek hitt eigi sidr, at þú ert minn madr; þá brá konungr sverdi oc hió hann banahögg: reid braut sídan. Enn er Haralldr konungr var búinn at stíga á hest sinn, bad han kalla til sín Aka bóanda; enn er menn leitodo hans, þá runno

sumir þannog sem Eiríkr konungr hafdi ridit: fundu þeir þar Aka daudan. Fóro þeir aptr, oc sögdo Haralldi konungi. Enn er hann spyr þetta, heitir hann á menn sína at þeir skuli hefna Aka bóanda; rídr þá Haralldr konungr oc menn hans þannog, er ádr hafdi ridit Eiríkr konungr, til þess er hvarir verda varir vid adra; þá rída hvarir sem mest mego, til þess er Eiríkr konungr kemr á skóg þann, er skilr Gautland oc Vermaland: þá snyr Haralld konungr aptr á Vermaland, leggr hann þá land allt undir sic, enn drap menn Eiríks konungs, hvar sem hann stód þá. Fór Haralldr konungr um vetrinn aptr á Raumaríki oc dvalldiz þar um hríd.

## CAP. XVI.
## FERD HARALLDS KONUNGS TIL TUNSBERGS.

Haralldr konungr fór um vetrinn út til Tunsbergs til skipa sinna; byr hann þá skipinn, oc helldr austr yfir fiördinn, leggr þá undir sic alla Vingulmörc; hann er úti á herscipum allan vetrinn, oc heriar á Ránríki. Sva segir Þórbiörn Hornklofi:

> Úti vill jól drecka,
> ef skal einn ráda,
> fylkir inn frammlyndi,
> oc Freys leik heya.
> Ungr leiddiz elldvelli
> oc inni at sitia,
> varma dyngio
> eda vöttu dúns fulla.

Gautar höfdu samnat fyrir allt um landi.

## CAP. XVII.

## OROSTA Á GAUTLANDI.

Enn um varit er ísa leysti, stikudu Gautar Gautelfi, at Haralldr konungr skylldi eigi mega leggia skipom sínom upp í landit. Haralldr konungr lagdi skipom sínom upp í elfina, oc lagdiz vid stikin, heriadı þá á bædi lönd, oc brendi bygdina. Sva segir Hornklofi:

Grennir þraung at gunni
gunnmás fyrir haf sunnan
sá var gramr oc gumnum
gedvördr, und sic jördo;
oc hiálm tamidr hilmir
hólm reidar let ólman
lindi hiört fyrir landi
lund prúdr vid stic bundinn.

Sídan rido Gautar ofan med her mikinn, oc helldu orostu vid Haralld konung, oc vard þar allmikit mannfall, oc lauk sva, at Haralldr konungr hafdi sigr. Sva sigr Hornklofi:

Ríki þreifz reiddra eyxa
rymr, knátto spior glymia
svart skygd bito seggi
sverd þiód konungs ferdar;
þá er hugfylldra höllda
hlaut annscoti Gauta
hár var saungr of svírum
sigr flugbeiddra vigra.

## CAP. XVIII.

## FALL RANA GAUTSKA.

Haralldr konungr fór vida um Gautland herskilldi,

oc átti þar margar orostor, tveim megin elfarinnar; oc feck hann optaz sigr. Enn í einhverri orosto fell Rani Gauzci. Sídan lagdi Haralldr konungr land allt undir sic fyrir nordan elfina, oc fyrir vestan Væni, oc Vermaland allt. Enn er hann sneriz þadan í brott, þá setti hann þar eptir til landgæzlo Guthorm hertuga, oc lid mikit med hanom; enn Haralldr konungr sneriz þá til Upplanda, oc dvalldiz þar um hrid; fór sidan nord um Dofra fiall til Þrándheims, oc var þar enn lángar hridir. Haralldr konungr tók þá at eiga börn; þau Asa atto IV syni: Guthormr var ellztr; Hálfdan Svarti oc Hálfdan Hviti voru tvíburar; Sigfrödr hinn fiórdi. Þeir voru allir uppfæddir í Þrándheimi med miklum sóma.

## CAP. XIX.

## OROSTA Í HAFURSFIRDI.

Þau tídindi spurduz sunnan or landi, at Hördar oc Rygir, Egdir oc Þilir sömnuduz saman, oc gerdo uppreist bædi at skipom oc vapnom, oc fiölmenni: Voru þeir upphafsmenn Eiríkr Hördalands konungr, Sulki konungr af Rogalandi, oc Sóti Jarl bródir hans, Kiötvi hinn Audgi, konungr af Ögdom, oc Þórir Haklángr sonr hans; af Þelamörk brædur tveir Róalldr Hryggr, oc Haddr hinn Hardi. Enn er Haralldr konungr vard þessa tídenda víss, þá dró hann her saman, oc skaut skipom á vatn, bióz sidan med lidit oc fer med landi sudr, oc hafdi mart manna or

hverio fylki. Enn er hann kemr sudr um Stad, þá spyr þat Eiríkr konungr; hafdi hann þá oc sammankomit því lidi, er hanom var ván. Fer hann þá sudr í móti því lidi, er hann vissi at austan mundi koma til fulltingis vid hann: mættiz þá herinn allr fyrir nordan Jadar, oc leggia þá inn til Hafursfiardar; þar lá fyrir Haralldr konungr med her sinn. Tókz þegar orosta mikil; var sú bædi hörd oc laung: Enn at lyktom vard þat at Haralldr konungr hafdi sigr, enn þar fello þeir Eiríkr konungr oc Sulki konungr, oc Sóti Jarl bródir hans: Þórir Haklángr hafdi lagt skip sit í móti skipi Harallds konungs; var Þórir berserkr mikill; var þar allhörd atsókn, ádr Þórir Haklangr fell; var þá rodit allt skip hans. Þá flydi Kiötvi konungr út í hólma nockorn, þar er vígi var gott. Sidan flydi allt lid þeirra; sumt á skipum, enn sumt lióp á land upp, oc sva it efra sudr um Jadar. Sva segir Hornklofi:

Heyrdir þú í Hafursfirdi
hve hizig bardiz
konungr hinn kynstóri
vid Kiötva hinn Audga:
Knerrir komo austan
kapps of lystir
med gínondom höfdom
oc gröfnom tínglom:
Hladnir voro þeir hölda
oc hvítra skillda
vígra Vestrænna
oc Valsera sverda:

greniodo berserkir
gudr var þeim á sinnom'
emiado ulfhednar
oc isarn gullo.
Freistodo hins framráda
er þeim flya kendi
allvalldz austmanna
er byrr at Utsteini:
stödom nöckva brá stillir
er hönum var styriar væni:
hlömmon var á hlífom
ádr Haklángr felli.
Leiddiz þá fyrir Lúfo
landi at hallda
hilmi inom háls-digra
hólm let ser at skialldi:
slógoz und sess þilior
er sárir voro,
leto upp stiölo stupa,
stungu í kiöl höfdom.
A baki leto blikia
bardir voru grióti
svafnis salnefrar
seggir hyggiandi:
Æstoz audkylfor
oc of Jadar liópo
heim or Hafursfirdi
oc hugdo á miöddryckio.

## CAP. XX.
## HARALLDR KONUNGR VERDR EINVALLDR AT NOREGI, OC UM EYDILANDA BYGGING.

Eptir orosto þessa feck Haralldr konungr enga mót-

mótstödo í Noregi; voro þá fallnir allir mótstödomenn oc hinir mesto fiandmenn hans; enn sumir flydo or landi; oc var þat almikill mannfiölldi: þvíat þá bygdoz stór eydilönd: þá bygdiz Jamtaland oc Helsingialand, oc var þó ádr hvartveggia nockot bygt af Nordmönnom. I þeim úfridi, er Haralldr konungr geck til landz i Noregi, þá funnuz oc bygduz útlönd, Færeyar oc Island: þá var oc mikil ferd af Nordmönnum til Hialltlands, oc margir ríkismenn af Noregi flydo útlaga fyrir Haralldi konungi, oc fóro í vestrvíking: voru í Orkneyum eda Sudreyum á vetrom, enn á sumrom heriado þeir í Noregi, oc gerdo þar mikin landzskada. Margir voru þeir oc ríkismenn, er gengu til handa Haralldi konungi oc gerdoz hans menn, oc bygdo lönd med hanom.

## CAP. XXI.
## FRA BÖRNUM HARALLDS KONUNGS OC KVANFÖNGUM.

Haralldr konungr var nú einvalldi ordinn alls Noregs, þá minntiz hann þess er mærin sú hin mikilláta hafdi mælt til hans: hann sendi þá menn eptir henni, oc let hana hafa til sín, oc lagdi hana hiá ser; þessi voro börn þeirra: Alof var ellzt, þá var Hrærekr, þá Sigtryggr, Fródi oc þórgills. Haralldr konungr átti margar konur oc mörg börn: hann feck þeirrar kono er Ragnhilldr het, dóttir

Eiríks konungs af Jotlandi; hun var köllot Ragnhilldr hin Ríka: þeirra son var Eiríkr Blódöx. Enn átti hann Svanhilldi dóttur Eysteins Jarls; þessir voru synir þeirra: Olafr Geirstada-Alfr, Biörn oc Ragnar Ryckill. Enn átti Haralldr konungr Ashilldi, dóttur Hríngs Dags sonar ofan af Hríngariki; þeirra börn voro: Dagr oc Hríngr, Gudrödr Skiria oc Ingigerdr. Sva segia menn, at þá er Haralldr konungr feck Ragnhilldar Ríko, at hann leti þá af IX konum sínum. Þess getr Hornklofi:

Hafnadi Holmrygiom
oc Hörda meyom
hverri hinni Heinversku
oc Hölga ættar
konungr hinn kynstóri
er tók konuna Dönsko.

Börn Harallds konungs voru þar hver uppfædd, sem móderni áttu. Guthormr hertogi hafdi vatni ausit hinn ellzta son Harallds konungs, oc gaf nafn sitt; hann knesetti þann svein oc fóstradi, oc hafdi med ser í vík austr: fæddiz hann þar upp med Guthormi hertoga. Guthormr hertogi hafdi alla stiórn landsins um vikina, oc um Upplönd, þá er Haralldr konungr var eigi nær.

## CAP XXII.

## VESTRFERD HARALLDS KONUNGS.

Haralldr konungr spurdi at vída um mitt-landit heriado víkingar, þeir er á vetrum voru fyrir vest-

an haf; hann hafdi þá leidangr úti hvert sumar, oc kannadi eyar oc útscer. Enn hvar sem víkingar urdu varir vid her hans, þá flydo allir, oc flestir á haf út. Enn er konungi leiddiz þetta starf, þá vard þat á einu sumri, at Haralldr konungr sigldi med her sinn vestr um haf; kom hann fyrst vid Hialltland, oc drap þar alla víkinga þá er eigi flydo undan. Sídan siglir Haralldr konungr sudr til Orkneya, oc reinsadi þar allt af víkingom. Eptir þat fer hann allt í Sudreyar, oc heriar þar: hann drap þar marga víkinga, þá er fyrir lidi redo ádr. Hann átti þar margar orostur, oc hafdi iafnan sigr. Þá heriadi hann á Skotland, oc átti þar orostur. Enn er hann kom vestr í Mön þá höfdo þeir ádr spurt hvern hernad hann hafdi giört fyrrum þar í landi, þá flydi allt fólk inn á Skotland, oc var þar aleyda af mönnom: braut var oc flutt allt fe þat er mátti. Enn er þeir Haralldr konungr gengu á land, þá fengu þeir ecki herfang. Sva segir Hornklofi:

Menfergir bar margar
ma-gspakr nidar varga
lundr vann sókn á sandi
sandmens í by randir;
ádr fyrir ælian fródom
allr her scota þverri
lögdis æids af ládi
læbrautar vard flæia.

I þessom orostom fell Ivar son Rögnvallds Mæra Jarls, enn í bætur þess gaf Haralldr konungr Rögnvalldi Jarli, er hann sigldi vestan, Orkneyar oc

Hialltland; enn Rögnvalldr gaf þegar Sigurdi brodur sínom bædi löndin, oc var hann vestr eptir. Haralldr konungr gaf Sigurdi Jarldom, ádr konungr sigldi austr. Þá þom til lags vid hann Þórsteinn Raudi, sonr Olafs Hvíta oc Audar hinnar Diúpaudgu; þeir heriado á Skotland, oc eignuduz Katanes, oc Sudrland allt til Eckialsbacka. Sigurdr Jarl drap Melbrigda Tönn, Jarl skotskan, oc batt höfut hans vid slagálar ser, oc laust kycqva vödva sínom á tönnina, er skagdi or höfdino, kom þar í blástr í fótinn, oc feck hann af því bana, oc er hann heygdr á Eckialsbacka; þá red löndom Guthormr sonr hans einn vetr, oc dó hann barnlaus. Sídan settuz í löndin víkingar margir Danir oc Nordmenn.

## CAP. XXIII.

## SKORIT HÁR HARALLDS KONUNGS.

Haralldr konungr var á veizlo á Mæri, at Rögnvalldar Jarls; hafdi hann þá eignaz land allt; þá tók Haralldr konungr laugar, oc þá let hann greida hár sitt, oc þá skar Rögnvalldr Jarl hár hans, enn ádr hafdi verit úskorit oc úkembt X vetur; var hann ádr kalladr lúfa, enn sídan gaf Rögnvalldr hönum Kenningar-nafn, oc kalladi hann Haralld hinn Hárfagra, oc sögdo allir, er sá, at þat var et mesta sann-nefni; þvíat hann hafdi hár bædi mikit oc fagrt.

## CAP. XXIV.

## GAUNGU-ROLFR ÚTLÆGR GIÖRR.

Rögnvalldr Mæra Jarl var hinn mesti ástvin Haralds konungs, oc konungr virdi hann mikils. Rögnvalldr Jarl átti Hilldi, dóttur Rólfs Nefiu: synir þeirra voru þeir Rolfr oc Þórir. Rögnvalldr Jarl átti oc frillo syni þriá; het einn Halladr, annar Einar, hinn þridi Hrollaugr; þeir voru rosknir, þá er hinir skírborno brædur þeirra voro börn. Rolfr var víkingr mikill: hann var sva mikill madr vexti, at engi hestr mátti bera hann, oc geck hann hvargi sem hann fór: hann var kalladr Gaungo Rolfr. Hann heriadi miök í Austrvegu. A eino sumri, er hann kom or víking austan í víkina, þá hió hann þar strandhögg. Haralldr konungr var þá í víkinni; hann vard miök reidr, þá er hann spurdi þetta, þvíat hann hafdi mikit bann álagt, at ræna innanlandz. Konungr lysti því á þingi, at hann gerdi Rolf útlaga of allan Noreg. Enn er þat spurdi Hilldr módir Rolfs, þá fór hun á fund konungs, oc bad fridar Rolfi; konungr var sva reidr, at henni tydi ecki at bidia. Þá kvad Hilldr þetta:

Hafnit Nefio nafna
nú rekit gand or landi.
horscan höllda barma.
hví bellit því stillir?
Illt er vid úlf at ylfaz
yggs val-bríkar slíkan
muna vid hilmis hiardir
hógr ef hann rennr til scógar.

Gaungu-Rolfr fór sidan vestr um haf í Sudreyar, oc þadan fór hann vestr í Valland, oc heriadi þar, oc eignadiz þar Jarls ríki mikit, oc bygdi þar miök Nordmönum oc er þar sidan kallat Nordmandi. Sonr Gaungu-Rolfs var Vilialmr, fadir Ríkardar, födur annars Ríkardar, födur Rodberts Laungu-spada, födur Vilialms Bastardar Engla konungs; frá hönom ero sidan komnir Engla konungar allir. Af Rolfs ætt ero oc komnir Jarlar í Nordmandi. Ragnhilldr drotning hin Ríka lifdi III vetur sidan er hun kom í Noreg. Enn eptir dauda hennar, fór Eiríkr sonr þeirra Haralldś konungs til fósturs í Fiördo til Þóris hersis Hroalldssonar, oc fæddiz hann þar upp.

## CAP. XXV.

## FRA SVASA JÖTNI OC HARALLDI KONUNGI.

Haralldr konungr fór einn vetr at veizlom um Upplönd, oc let búa ser til jóla veizlo á Þoptum. Jóla aptan kom Svasi fyrir dyr, þá er konungr sat yfir bordum; hann sendi konungi bod, at hann scylldi útganga til hans; enn konungr bráz reidr vid þessom sendibodum, oc bar hinn sami madr reidi konungs út, sem hönum hafdi borit bodin inn. Enn Svasi bad bera eigi at sidr annat sínn erindit, oc qvad sic vera þann Finnin, er konungr hafdi iátat at sækia gamma sinn þar annan veg breckunnar. Enn konungr geck út, oc vard hönum þess játsi at

fara heim med hönum, oc geck yfir breckuna í gamma hans, med áeggian sumra sinna manna, þótt sumir letti. Þar stód upp Snæfrídr, dóttir Svasa, qvenna fríduzt, oc byrladi konungi ker fullt miadar, enn hann tók allt saman kerit oc hönd hennar, oc þegar var sem elldz hiti qvæmi í hörund hönum, oc villdi þegar hafa samrædi vid hana á þeirri nótt: Enn Svasi segir, at þat mundi eigi vera, nema at hönum naudgum, nema konungr festi hana, oc fengi at lögum; Enn Haralldr konungr festi Snæfrídi, oc feck hennar; oc unni sva med ærslom, at ríki sit fyrirlet hann, oc allt þat er konungs tign byriadi. Þau áttu IV sonu; einn var Sigurdr Rísi, Halfdan Háleggr, Gudrödr Liómi, Rögnvalldr Rettilbeini. Sídan dó Snæfrídr, enn litr hennar skipadiz á engan veg; var hun þá iamriód, sem þá er hun var kvik. Konungr sat æ yfir henni, oc hugdi at hun mundi lifna: fór sva fram III vetur, at hann syrgdi hana dauda; enn allr landz lydr syrgdi hann villtan. Enn þessa villo at lægia kom til læknar Þorleifr Spaki, er med viti lægdi þá villo; fyrst med eptirmæli, sva mælandi: Eigi er, konungr, kynlict, at þú munir sva frída kono oc kynstóra, oc tignir hana á dúni, oc á gudvefi, sem hun bad þic: enn tign þín er þó minni enn hæfir, oc hennar í því, at hun liggr ofrlengi í sama fatnadi, oc er miklo sannligra, at hun se hrærd, oc se skipt undir henni klædom. Enn þegar er hun var hrærd or reckionni, þá slær ylldo oc óþefan oc hverskyns

illum fnyk af likamanom; var þá hvatat at báli, oc var hon brend; blánadi ádr allr hennar búkr, oc ullu út or ormar oc edlor, froscar oc pöddor, oc allzkyns illyrmi; seig hun sva í ösko, enn konungrinn steig til vitsko, oc hugdi af heimsco; styrdi sídan ríki síno, oc styrktiz oc gladdiz hann af þegnom sínom, enn þegnar af hánom, ríkit af hvarotveggia.

## CAP. XXVI.

## FRÁ ÞIÓDOLFI OR HVINI.

Eptir þat er Haralldr konungr hafdi reynt svik Finnunnar, þá vard hann sva reidr, at hann rak frá ser sono sína oc finnurnar, oc villdi eigi siá þá. Enn Gudrödr Lióini fór á fund Þiódolfs hins Hvinversca, fóstrfödor síns, oc bad hann fara med ser til konungs; þvíat Þiódolfr var ástvin Haralldskonungs, enn konungr var þá á Upplöndum. Þeir fóro sidan: Enn þeir komo til konungs síd aptans, oc settoz nidr utarliga, oc dulldoz. Konungr geck á gólfinu, oc sá á beckina; enn hann hafdi veitzlo nockura, oc var miödr blandinn; þá qvad hann þetta yrir munni ser:

Miök ero mínir reckar
til miöd giarnir fornir,
oc her komnir hárir
hví erut æfar margir?

Þá svarar Þiódolfr:

Höfdom ver í höfdi
högg at eggia leiki
med vell-brota vitrom,
varom at þá til margir.

Þiódolfr tók þá ofan höttinn af höfdi ser, oc kendi konungr hann þá, oc fagnadi hönum vel. Þá bad Þiódolfr konung, at hann skylldi eigi fyrirlíta sonu sína; þvíat fúsir mundi þeir at eiga betra móderni, ef þu hefdir þeim þat fengit. Konungr iátadi hönom því, oc bad hann hafa Gudröd heim med ser, sva sem hann hafdi fyrr verit; enn Sigurd oc Hálfdan bad hann fara á Hríngaríki, enn Rögnvalld bad hann fara á Hadaland. Þeir gera sva sem konungr baud. Gerduz þeir allvascligir menn, oc vel búnir at íþróttum. Haralldr konungr sat þá um kyrt innan lands, oc var fridr gódr oc árferd.

## CAP. XXVII.

## UPPHAF TORF-EINARS JARLS Í ORKNEYUM.

Rögnvalldr Jarl á Mæri spurdi fall Sigurdar bródur síns, oc þat at þá sáto í löndonom víkingar; þá sendi hann vestr Hallad son sinn, oc tók hann ádr Jarls nafn, oc hafdi lid mikit. Enn er hann kom til Orkneya, þá settiz hann í löndin; enn bædi á haust oc um vetr, oc um vár, fóro víkingar um eyarnar, oc námo nesnám oc hioggo strandhögg. Þá leiddiz Halladi Jarli at sitia í eyonom, velltiz

hann þá or Jarldóminom, oc tók höllds rett; fór hann sídan austr i Noreg. Enn er Rögnvalldr Jarl spurdi þetta, let hann illa yfir ferd Halladar, segir at synir hans mundi verda úlikir forellri sino. Þá svarar Einar: Ek hefi litin metnad af þer; á ec vid litla ást her at skiliaz: mun ec fara vestr til eya, ef þú villt fá mer styrk nockuru; mun ec því heita þer, er þer mun allmikill fagnadr á vera, at ec mun eigi aptr koma til Noregs. Rögnvalldr Jarl svarar, at þat likadi hönum vel, at hann qvæmi eigi aptr; þvíat mer er lítils ván, at frændom þínom se sæmd at þer; þvíat módurætt þin öll er þrælborin. Rögnvalldr Jarl feck Einari eitt lángscip alscipat. Sigldi Einar um hausti vestr um haf. Enn er hann kom til Orkneya, þá lágu þar fyrir víkingar tveim skipum, Þórir Treskegg oc Kalfr Skurfa. Einar lagdi þegar til orosto vid þá, oc sigradiz, enn þeir fello bádir. Þá var þetta qvedit:

Þá gaf hann Trescegg tröllom
Torf-Einar drap Scurfo.

Hann var fyrir því kalladr Torf-Einar, at hann let skera torf, oc hafdi þat fyrir elldi-vid, þvíat engi var skógr ì Orkneyom. Sídan gerdiz Einar Jarl yfir Eyonom, oc var hann ríkr madr: hann var liótr madr oc einsynn, oc þó manna scygnastr.

## CAP. XXVIII.

## ANDLÁT EIRÍKS KONUNGS EYMUNDAR SONAR.

Guthormr hertogi sat optaz i Tunsbergi, oc hafdi

ysir-sókn allt um víkina, þá er konungr var eigi nær, oc hafdi þar landvörn; var þar þá miök herscátt af víkingom; enn úfridr var upp á Gautland, medan Eirikr konungr lifdi, Eymundarson; hann andadiz þá er Haralldr konungr hinn Hárfagri hafdi verit X vetur konungr í Noregi.

## CAP. XXIX.
## DAUDI GUTHORMS HERTOGA.

Eptir Eirík var konungr í Svíþiód Biörn sonr hans L vetra; hann var fadir þeirra Eiriks ens Sigrsæla, oc Olafs födur Styrbiarnar. Guthormr hertogi vard sóttdaudr í Tunsbergi. Þá gaf Haralldr konungr yfir-sókn rikis þess alls Guthormi syni sínum; oc setti hann þar höfdingia yfir.

## CAP. XXX.
## BRENNA RÖGNVALLDS MÆRA JARLS

Þá er Haralldr konungr var XL at alldri, þá voro margir synir hans vel á legg komnir; þeir voru allir brádgorvir: kom þá sva, at þeir undo illa vid, er konungr gaf þeim eigi ríki, enn setti Jarl í hverio fylki, oc þótti þeim Jarlar vera smá-bornari enn þeir voro. Þá fóro þeir til á eino vári, Hálfdan Háleggr ok Gudrödr Liómi, vid mikla sveit manna, oc komo á úvart Rögnvalldi Mæra Jarli, oc tóku hús á hönom, oc brendo hann inni vid LX manna. Þá tók Hálfdan lángscip III oc skipadi, oc siglir

sídan vestr um haf; enn Gudrödr settiz þar at löndum sem ádr hafdi haft Rögnvalldr Jarl. Enn er Haralldr konungr spurdi þetta, þá fór hann þegar med lidi miklo á hendur Gudrödi, oc sá Gudrödr engan annan sinn kost, enn gefaz upp á valld Harallds konungs, oc sendi konungr hann austr á Agdir. Enn Haralldr konungr setti þá yfir Mæri Þóri son Rögnvallds Jarls, oc gipti hönom Alöfo dóttur sína, er köllut var Arbót. Þórir Jarl þegiandi hafdi þá ríki því likt, sem haft hafdi Rögnvalldr Jarl fadir hans.

## CAP XXXI.

## DAUDI HÁLFDANAR HÁLEGGS.

Hálfdan Háleggr kom vestr til Orkneya, oc miök á úvart; oc flydi Einar Jarl þegar or eyonom, oc kom aptr þegar um haustit, oc kom þá á úvart Hálfdani. Þeir hittuz, oc vard skómm orosta, oc flydi Hálfdan, oc var þat vid nótt siálfa; lágu þeir Einar tialldalausir um nóttina. Enn um morguninn er lysa tók, fóro þeir at leita flóttamanna um eyarnar, oc var hverr drepinn þar er stadinn vard. Þá mællti Einar Jarl: Eigi veit ec, segir hann, hvert ec se út á Rinans ey, mann edr fugl, stundum hefz upp, stundum leggz nidr. Sídan fóro þeir þannog til, oc fundo þar Hálfdan Hálegg, oc tóko hann höndom. Einar Jarl kvad víso þessa um aptaninn, ádr hann lagdi til orosto:.

Sekat ek Hrólfs or hendi,
ne Hrollaugi fliúga
dörr á dólga mengi,
dugir oss födor hefna:
enn í qvölld þar er knyom
at kerstranmi rómo
þegiandi sitr þetta
Þórir Jarl á Mæri.

Þá geck Einar Jarl til Hálfdanar; hann reist örn á bak hönom vid þeima hætti, at hann lagdi sverdi á hol vid hrygginn, oc reist rifin öll ofan allt á lendar, oc dró þar út lúngun; var þat bani Hálfdanar. Þá qvad Einar:

Rekit hefi ec Rögnvallds dauda,
enn redo því Nornir;
nú er fólk-studill fallinn
at fiordungi mínom.
Verpit snarpir sveinar!
þvíat sigri ver rádumk,
skatt vel ec hönom hardan,
at háfæto grióti.

Sídan tók Einar Jarl at ser Orkneyar sem fyrr hafdi hann haft. Enn er tídindi þessi spyriaz í Noreg, þá kunna þesso stórilla brædor Hálfdanar, oc köllodo hefnda fyrir vert, oc margir sönnudu þat adrir. Enn er Einar Jarl spyrr þetta, þá qvad hann:

Eru til míns fiörs margir
menn of sannar deilldir
or ymissom áttom,
ó-smábornir giarnir.
Enn þó vito þeigi
þat ádr mic hafa felldan
hverr ilþorna arnar
undir hlytr at lúta.

## CAP. XXXII.

## SÆTT HARALLDS KONUNGS OC EINARS JARLS.

Haralldr konungr baud lidi út, oc dró saman her mikinn, oc fór sídan vestr til Orkneya. Enn er Einar Jarl spurdi, at Haralldr konungr var austan kominn; þá ferr hann yfir á nes. þá kvad hann víso þessa:

Margr verdr sekr of saudi
seggr med fögro skeggi;
enn ec at úngs í eyom
allvallds sonar falli.
Hætt segia mer hölldar
vid hugfullan stilli;
Harallds hefi ec skard í skilldi,
scalat ugga þat, höggvit.

þá fóro menn oc ordsendingar millom konungs oc Jarls; kom þá sva, at þar vard á komit stefnulagi, oc finnaz þeir siálfir, oc festi þá Jarl allt i konungs dóm. Haralldr konungr dæmdi á hendur Einari Jarl, oc öllom Orkneyingom, at giallda LX marka gulls. Bondum þótti gialld ofmikit. þá baud Jarl þeim at hann mundi einn saman giallda, oc skylldi hann eignaz þá ódol öll i eyonom. þessu iátudo þeir allir, mest fyrir þá sök, at hinir snaudu áttu litlar iardir, enn hinir audgu hugduz mundu leysa sin ódol, þegar er þeir villdu; leysti Jarl allt giall-dit vid konung; Fór konungr þá austr aptr um haustit; Var þat lengi sidan i Orkneyom, at Jarlar

átto ódol öll, allt þar til er Sigurdr Lödvisson gaf aptr ódulin.

## CAP. XXXIII.

## FALL GUTHORMS OC HÁLFDANAR HVÍTA, SONA HARALLDS KONUNGS.

Guthormr sonr Harallds konungs hafdi landvörn fyrir víkinni, oc fór hann med herscipom et ytra; enn er hann lá í Elfvar-kvíslom, þá kom þar Sölvi Klofi, oc lagdi þegar til orosto vid hann; þar fell Guthormr. Hálfdan Svarti oc Hálfdan Hvíti lágo í hernadi, oc heriado um austrveg. Þeir átto orosto mikla á Eistlandi. Þar fell Hálfdan Hvíti.

## CAP. XXXIV.

## QVANFÁNG EIRÍKS KONUNGS.

Eiríkr Harallds son var at fóstri med Þóri Hersi Hroallds syni í Fiördum; hanom unni Halldr konungr mest sona sinna, oc virdi hann mest. Þá er Eiríkr var XII vetra gamall, feck Haralldr konungr hönom V lángscip, oc fór hann í hernad, fyrst í Austrveg, oc þá sudr um Danmörk, oc um Frisland oc Saxland, oc dvalldiz í þeirri ferd IV vetur. Eptir þat fór hann vestr um haf, oc heriadi um Skotland, Bretland, Irland oc Valland, oc dvalldiz þar adra IV vetur. Eptir þat fór hann nordr á Finnmörk,

oc allt til Biarmalands, oc átti hann þar orostu mikla, oc hafdi sigr. Þá er hann kom aptr á Finnmörk, þá fundo menn hans í gamma einom kono eina, þá er þeir höfdo einga sed jamvæna; hun nefndiz fyrir þeim Gunnhilldr, oc sagdi at fadir hennar bió á Hálogalandi, er het Ötzorr Tóti. Ec hefi her verit til þess, segir hon, at nema kunnosto af Finnom tveim, er her ero fródastir á mörkinni: nú ero þeir farnir á veidar; enn bádir þeir vilia eiga mic; enn þeir ero sva vísir, at þeir rekia spor sem hundar, bædi á þá oc á hiarni. Þeir kunna oc sva vel á skidom, at eigi má fordaz þá hvarki menn ne dyr; hvatki er þeir skióta til þá hæfa þeir; Sva hafa þeir fyrir komit hveriom manni, er her hefr komit í nánd; oc ef þeir verda reidir, snyz iord um fyrir siónom þeirra; enn ef nockot qvict verdr fyrir siónum þeirra, þá fellr dautt nidr. Nú megut þer fyrir engan mun verda á veg þeirra; mun ec fela ydr her í gammanom; skulut þer þá freista, ef ver fám drepit þá; þeir þecktuz þetta. Sídan fal hon þá; hon tók línseck einn, oc hugdo þeir at asca væri í; hon tók þat í hendi ser, oc seri því um gamman utan oc innan. Litlu sídar koma Finnar heim: þeir spyria hvat þar er komit; hon segir, at þar er ecki komit. Finnom þickir þat undarligt, þar er þeir höfdo rakit spor allt at gammanom, enn sídan finna þeir ecki. Þá gera þeir ser elld oc matbúa; enn er þeir voro mettir, þá byr Gunnhilldr reckio sína.

Enn sva hafdi ádr farit III nætur, at Gunnhilldr hefir sofit, enn hverr þeirra hefir vakat yfir ödrum, fyrir abrydis sakir. Þá mællti hon til Finna: farit nú hegat, oc liggi á sína hlid mer hvarr yckarr. Þeir urdu þesso fegnir, oe gerdo sva: hun helt sinni hendi um háls hvarum þeirra; þeir sofna þegar, enn hun vekr þá; oc enn brálliga sofna þeir, oe sva fast, at hun fær varliga vakit þá; oc enn fofna þeir; oc fær hon þá fyrir engan mun vakit þá; oe þá setr hon þá upp, oe enn sofa þeir; hun tekr þá selbelgi tva mikla, oc steypir yfir höfut þeim, oc bindr at sterkliga fyrir nedan hendurnar: þá gerir hon bendiug konongs monnom, laupa þeir þá fram, oc bera vapn á Finna oc fá hladit þeim, draga þá út or gammanom. Um nóttina eptir voro reidar-þrumur sva stórar, at þeir mátto hvergi fara. Enn at morni fóro þeir til skips, oc höfdo Gunnhilldi med ser, oc færdu hana Eiríki. Fóro þeir Eiríkr þá sudr til Hálogalandz; hann stefndi þá til sín Ötzori Tóta; Eiríkr segir, at hann vill fá dóttur hans; Ötzor iátti því: fær þá Eiríkr Gunnhilldar, oc hefir med ser sudr í land.

## CAP. XXXV.

## HARALLDR SKIPTIR RÍKI MED SONUM SÍNUM.

Haralldr konungr var þá fimmtogr at alldri, er synir hans voru margir rosenir, enn sumir daudir:

þeir gerdoz þá margir ofstopa menn miklir innanlands, oc voro siálfir ósáttir. Þeir ráku af eignum Jarla konungs, enn suma drápu þeir. Haralldr konungr stefnir þá þíng fiolment sudr í landi, oc baud til öllom Upplendingum: þá gaf hann sonom sínom öllom konunga nöfn, oc setti þat í lögom, at hans ættmenn skylldo hverir konungdóm taka eptir födur sinn; enn Jarldóm sá er kvennsifr væri af hans ætt kominn. Hann skipti landi med þeim: Vingulmörk, Raumaríki, Vestfolld, Þelamörk, þat gaf hann Olafi, Sigtryggvi, Fróda, Þórgilsi; enn Heidmörk oc Gudbrandzdali gaf hann Dag oc Hríng oc Ragnari; Snæfridar sonum gaf han Hríngaríki, Hadaland, Þotn, oc þat er þar liggr til. Guthormi hafdi hann gefit til yfir-sócnar frá Elfi til Svínasunds, oc Ránríki; hann hafdi hann sett til landvarnar austr vid landsenda, sem fyrr er ritat. Haralldr Konungr siálfr var optaz um mitt land. Rærekr oc Gudrödr voro iafnan innan hirdar med konungi, oc höfdo veizlor stórar um Hördaland oc Sogn. Eiríkr konungr var med Haralldi konungi fedr sínom; honum unni hann mest sona sinna, oc virdi hann mest; hönom gaf hann Hálogaland, oc Nordmæri oc Raumsdal. Nordr i Þrándheimi gaf hann yfir-sócn Hálfdani Svarta oc Halfdani Hvíta oc Sigrödi; hann gaf sonom sínom í hverio þesso fylki hálfar tekior vid sic, oc þat med, at þeir skylldo sitia í hásæti, skör hærra enn Jarlar, enn skör lægra enn hann siálfr. Enn þat sæti ætladi ser hverr sona hans eptir hans dag, enn hann

siálfr ætladi þat Eiríki; enn þrændur ætlodo þat Hálfdani Svarta; enn Víkverir oc Upplendingar unnu þeim best ríkis er þeim voro undir hendi. Af þesso vard mikit sundrþycki enn af nyo millom þeirra brædra. Enn med því at þeir þóttuz hafa lítit ríki, þá fóro þeir i hernad; sva sem sagt er, at Guthormr fell í Elfarqvíslom fyrir Sölva Klofa. Eptir þat tók Olafr vid því ríki er hann hafdi haft. Hálfdan Hvíti fell á Eistlandi. Hálfdan Háleggr fell í Orkneyom. Þeim Þórgilsi oc Fróda gaf Haralldr konungr herscip, oc fóro þeir í Vestrvíking, oc heriado um Scotland oc Bretland oc Irland: þeir eignodoz fyrst Nordmanna Dyflinni. Sva er sagt, at Fróda væri gefinn banadryckr; enn Þórgils var lengi konungr yfir Dyflinni, oc var svikinn af Irom, oc fell þar

## CAP. XXXVI.

## DAUDI RÖGNVALDS RETTILBEINA.

Eiríkr Blódöx ætladi at vera yfir-konungr allra brædra sinna, oc sva villdi Haralldr konungr vera láta; voro þeir fedgar laungom á samt. Rögnvalldr Rettilbeini átti Hadaland; hann nam fiölkyngi, oc gerdiz seidmadr. Haralldi konungi þótto illir seidmenn. A Hördalandi var sá seidmadr, er het Vitgeirr; Konungr sendi hanom ord, oc bad hann hætta seid: hann segir, oc qvad víso þessa:

Þat er vá lítil
þótt ver sídim

karla börn
oc kerlinga;
er Rögnvalldr sídr
Rettilbeini
hródmögr Haralldz
á Hadalandi.

Enn er Haralldr konungr heyrdi þetta sagt, þá fór at hans rádi Eiríkr Blódöx til Upplanda, oc kom á Hadaland: hann brendi inni Rögnvalld bródur sinn med LXXX seidmanna, oc var þat verk lofat miök.

## CAP. XXXVII.

## FEIGD GUDRÖDAR HARALLDS SONAR.

Gudröda Lióini var um vetrinn med þiódolfi í Hvini fóstorfödor sínom, á kynnis sócn, oc hafdi skúto alscipada, oc villdi hann fara nordr á Rogaland. þá lögduz á stormar miklir, enn Gudrödi var ant um ferd sína, oc let hann illa um dvölina. þá qvad þiódólfr:

Farit er ádr fleya
flatvöllr hedan batnar,
verpr geitis vegr grióti,
Gudrödr, um siá stóran:
vindbysna skalltu vísi
vídfrægr hedan bída,
verit med oss uns verdi
vedr, nú er brim fyrir Jadri.

Gudrödr fór sem hann ætladi, hvat sem þiódolfr mællti. Enn er þeir komo fyrir Jadar, þá kafdi skipit undir þeim, oc letoz þar allir.

## CAP. XXXVIII.

### FALL BIARNAR KAUPMANS.

Biörn sonr Haralids konungs red þá fyrir Vestfolld, oc sat optaz i Tunsbergi, enn var lítt í hernadi. Til Tunsbergs sóttu miök kaupscip, bædi þar um víkina, oc nordan or landi, oc sunnan or Danmörk oc af Saxlandi. Biörn konungr átti oc kaupscip í ferdum til annara landa, oc afladi ser sva dyrgripa, eda annara fanga þeirra er hann þóttiz hafa þurfa. Brædur hans kölludo hann farmann eda kaupmann. Biörn var vitr madr ok vel stilltr, oc þótti vænn til höfdingia; hann feck ser gott kvanfang oc maklict; hann gat son er Gudrödr het. Eiríkr Blódöx kom or austrvegi med herscip oc lid mikit; hann beiddiz af Birni bródur sínum at taka vid sköttum ok skylldum þeim er Haralldr konungr átti á Vestfolld; enn hinn var ádr vandi, at Biörn færdi sialfr konungi skatt, edr sendi menn med; villdi hann enn sva vera láta, oc villdi eigi af höndum greida; Enn Eiríkr þóttiz vista þurfa, oc tiallda oc dryckiar. Þeir brædor þreytto þetta med kappmælum, oc feck Eiríkr eigi at helldr, oc fór brott or bænom. Biörn fór oc brott or bænum um qvelldit, oc upp á Sæheim: Eiríkr hvarf aptr um nóttina eptir Birni, oc kom á Sæheim, er þeir Biörn sáto yfir dryckio. Eiríkr tók hús á þeim, enn þeir Biörn gengo út oc bördus. Þar fell Biörn oc mart manna med hönom. Eiríkr tók þar herfang mikit,

oc fór nordr í land. Þetta verk líkadi stórilla Víkverium, oc var Eiríkr þar miök úþockadr. Fóru þau ord um, at Oláfr konungr mundi hefna Biarnar brodur síns, ef hönom giæfi færi á. Biörn konungr liggr í Farmanshaugi á Sæimi.

## CAP. XXXIX.
## SÆTT KONUNGA.

Eiríkr konungr fór um vetrinn eptir nordr á Mæri, oc tók veizlo í Sölva, fyrir innan Agdanes. Enn er þat spurdi Halfdan Suarti, fór hann til med her, oc tók hús á þeim. Eiríkr svaf í útiscemmo, oc komz til scógar vid fimta mann; enn þeir Hálfdan brendo upp bæinn, oc lid allt þat er inni var; kom Eiríkr á fund Harallds konungs med þessom tídindom. Konungr vard þessu ákafliga reidr, oc samnadi her saman, oc fór á hendur þrændom; enn er þat spyr Halfdan Svarti, þá bydr hann út lidi oc scipom, oc verdr allfiölmennr, oc lagdi út til Stads, fyrir innan Þórsbiörg. Haralldr konungr lá þá lidi síno út vid Reinsletto. Fóro þá menn milli þeirra. Guthormr Sindri het einn göfigr madr; hann var þá í lidi med Hálfdani Svarta, enn fyrr hafdi hann verit med Haralldi konungi, oc var hann ástvinr beggia þeirra. Guthormr var scálld mikill; hann hafdi ort sitt qvædi um hvern þeirra fedga; þeir höfdo honom bodit laun fyrir, enn hann neitti, oc beiddiz at þeir skylldu veita hanom bæn eina; oc höfdo þeir því heitit. Hann fór þá á

fund Haralllds konungs, oc bar sættarord millum þeirra, oc bad þá hvarntveggia þeirra bænar, oc þess at þeir skylldo sættaz. Enn konungar gerdo sva mikinn metnad hans, at af hans bæn sættoz þeir. Margir adrir göfgir menn fluttu þetta mál med hanom. Var þat at sætt, at Hálfdan skylldi hallda ríki öllu því er ádr hafdi hann haft; skylldi hann oc láta óhætt vid Eirik bródur sinn. Eptir þessi sögu orti Jorunn scálldmær nockur erendi í sendibit:

Haralldr frá ec Hálfdan spyria
herdi brögd en lögdiz;
syniz svart-leikr reyni
siá bragr hinn Hárfagra.

## CAP. XL.

## FÆDDR HÁKON GÓDI.

Hákon Griótgardsson Hlada Jarl hafdi alla yfir-sócn í þrándheimi, þá er Haralldr konungr var annarstadar í landi, oc hafdi Hákon mestan metnad í þrændalögom af konungi. Eptir fall Hákonar tók Sigurdr sonr hans ríki, oc gerdiz Jarl í þrandheimi; hann hafdi atseto á Hlödom. Med hanom fædduz upp synir Haralllds konungs Hálfdan Svarti oc Sigrödr; enn ádr voro þeir undir hendi Hákonar Jarls födur hans: þeir voro miök iafnalldrar synir Haralllds oc Sigurdr. Sigurdr Jarl feck Bergliótar, dóttur þóris Jarls þegianda; módir hennar var Alöf Arbót, dóttir Haralllds Hárfagra: Sigurdr Jarl var allra manna vitrastr. Enn er Haralldr konungr tók at

elldaz þá settiz hann optliga at stórbúum, er hann átti á Hördalandi, á Alrekstödom, edr á Sæimi, á Fitiom, edr á Utsteini, edr á Ögvalldsnesi i Körmt· Þá er Haralldr konungr var nær siöræduin, gat hann son vid kono þeirri er Þóra er nefnd Morstrstaung; hun var æscod ur Morstr; hun átti góda frændor, oc var í frændsemis tolo vid Hörda Kára; hun var kvinna mest oc hin fridasta: hun var köllut konungs ambátt. Voro þá margir þeir konongi lydscylldir, er vel voro ættbornir, bædi karlar oc konor. Sá var þá sidr um göfigra manna börn, at vanda menn miök til at ausa vatni, oc gefa nafn. Enn er at þeirri stundo kom, er Þóro var ván, at hun mundi barn ala, þá villdi hun fara á fund Haralldş konungs; han var þá nordr á Sæimi, enn hun var í Morstr; hun fór þá nordr á skipi Sigurdar Jarls. Þau lágo um nóttina vid land, þar ól Þóra barn upp á hellunni vid bryggiusporð; þat var sveinbarn. Sigurdr Jarl iós sveininn vatni oc kalladi Hákon eptir fedur sínom Hákoni Hlada Jarli. Sá sveinn var snimma fridr oc mikill vexti, oc miök likr födur sínom. Haralldr konungr let sveininn fylgia módur sinni, oc voro þau at konungs búum medan sveininn var úngr

## CAP. XLI.

## ORDSENDING ADALSTEINS KONUNGS.

Adalsteinn hét þá konungr í Englandi, er þá hafdi

nytekit vid konungdómi; hann var kalladr hinn sigrsæli oc hinn trúfasti. Han sendi menn til Noregs á fund Haralldz konungs, med þesskonar sending, at sendimadr geck fyrir konung; hann selr konungi sverd gullbúit med hiölltum oc medalkafla, oc öll umgerd var búinn med gulli oc silfri, oc sett dyrligum gimsteinum. Sendimadrinn vendi sverds-hiölltunum til konungsins, oc mællti: her er sverd, er Adalsteinn konungr sendi þer oc mællti, at þú skylldir vid taka; Tok konungr medalkaflann; oc þegar mællti sendimadrinn: Nú toktu vid sverdino, sem varr konungr villdi, oc nú skalltu vera þegn hans, er þú tokt vid sverdi hans. Haralldr konungr skildi nú at þetta var med spotti gert; enn hann villdi einskis manns þegn vera; enn þó minntiz hann þess, sem hans háttr var, at hvert sinn er skiót ædi edr reidi lióp á hann, at hann stillti sik fyrst, oc let sva renna af ser reidina, oc leit á sakar úreidr. Nú gerir hann enn sva, oc bar þetta fyrir vini sina, oc finna þeir allir saman her rád til, þat et fyrsta, at láta sendimenn heimfara úspillta.

## CAP. XLII.
## FERD HAUKS TIL ENGLANDS.

Annat sumar eptir sendi Haralldr konungr scip vestr til Englands á fund Adalsteins konungs, oc feck til styrimann Hauk Hábróc; hann var kappi mikill, oc hinn kiærtsi konungi: han feck í hönd

hönom Hákon son sinn. Haukr fór þá vestr til Englands, oc fann konung í Lundunom. Þar var þá bod fyrir oc veizla virdulig. Haukr sagdi sínom mönnom, þá er þeir koma at höllinni, hvernog þeir skolo hátta inngongonni; segir, at sá skal sídarst útganga, er fyrst gengr inn, oc allir standa jamnfram fyrir bordinu, oc hverr þeirra hafa sverd á vinstri hlid, oc festa sva yfirhöfnina at eigi siái sverdit. Sídan gánga þeir inn í höllina; þeir voro XXX manna. Geck Haukr fyrir konung, och qvaddi hann; konungr bidr hann vel kominn. Þá tók Haukr sveininn Hákon, oc setr á kne Adalsteini konungi; konungr ser á sveininn, oc spyr Hauk, hví hann fer sva. Haukr segir: Haralldr konungr bad þik fóstra hönom ambáttar barn. Konungr vard reidr miök, oc greip til sverds, er var hiá hönom, oc brá, sva sem hann villdi drepa sveininn. Haukr mællti: knesett hefir þú hann nú, oc máttu myrda hann, ef þú vill; enn eigi muntu med því eyda öllom sonom Harallds konungs. Geck Haukr sídan út, oc allir hans menn, oc fara leid sína til scips, oc hallda í haf, er þeir voro at því búnir, oc komo aptr til Noregs á fund Harallds konungs, oc líkadi hönom nú vel; þvíat þat er mál manna, at sá væri útignari, er ödrom fóstradi barn. I þvílíkum vidsciptum konunga fannz þat á, at hvarr þeirra vill vera meiri enn annarr, oc vard eigi misdeili gert tignar þeirra at helldr, fyrir þessar sakir; hvartveggi var yfirkonungr sins ríkis til daudadags.

## CAP. XLIII.

## SKÍRDR HÁKON ADALSTEINS FÓSTRI.

Adalsteinn konungr let skíra Hákon, oc kenna retta trú, oc góda sido med allscoinar íþróttom. Adalsteinn konungr unni hönom sva mikit meira enn öllom frændom sinum; oc út í frá unni honom hver madr er hann kunni: hann var sídan kalladr adalsteins Fóstri. Hann var hinn mesti íþróttamadr, meiri oc sterkari oc frídari, enn hver madr annara; hann var vitr madr oc ordsniallr, oc vel cristinn. Adalsteinn konungr gaf Hákoni sverd þat er hiölltin voro or gulli, oc medalkaflinn; enn brandrinn var þó betri: þar hió Hákon med kvernstein einn til augans; þat var sídan kallat kvernbítr. Þat sverd hefir best komit til Noregs; þat átti Hákon til daudadags.

## CAP. XLIV.

## LEIDDR EIRÍKR TIL RÍKIS.

Haralldr konungr var þá áttrædr at alldri; gerdiz hann þá þúngfær, sva at hann þóttiz eigi mega fara yfir land, edr stiórna konungs málom. Þá leiddi hann Eirík son sinn til hásætis sins, oc gaf hönom valld yfir landi öllo. Enn er þat spurdo adrir synir Haralldş konungs, þá settiz Hálfdan Svarti í konungs hásæti; tók hann þá til forráda allan Þrándheim; hurfo at þvi rádi allir Þrændir med hönom.

Eptir fall Biarnar kaupmans tók Olafr bródir hans ríki yfir Vestfolld, oc til fósturs Gudröd son Biarnar. Tryggvi het sonr Olafs, oc voro þeir Gudrödr fóstbrædur, oc miök jamnalldra, oc bádir hinir efniligsto, oc atgervimenn miklir. Tryggvi var hveriom manní meiri oc sterkari. Enn er Víkveriar spurdo, at Hördar höfdo tekit til yfirkonungs Eirík, þá tóko þeir Olaf til yfirkonungs í Víkinni, oc hellt hann því ríki; þetta líkadi Eiríki stórilla. Tveim vetrom sídar vard Hálfdan Svarti brád daudr inn í Þrándheimi at veizlo nockorri, oc var þat mál manna, at Gunnhilldr konunga módir hefdi keypt at fiölkunnigri kono, at gera hönom bana-dryck. Eptir þat tóko Þrændir Sigröd til konungs.

## CAP. XLV.

## DAUDI HARALLDS KONUNGS.

Haralldr konungr lifdi III vetur sídan er hann hafdi gefit Eiríki einvalld ríkis síns; var hann þá á Rogalandi, edr á Hördalandi, at stórbúum er hann átti. Eiríkr ok Gunnhilldr átto son er Haralldr konungr iós vatni, oc gaf nafn sitt; segir sva, at sá skylldi konungr vera eptir Eirík födur sinn. Haralldr konungr gipti flestar dætur sínar innanlands Jörlom sínom, oc ero þadan komnar miklar kynkvíslir. Haralldr konungr vard sóttdaudr á Rogalandi, oc er hann heygdr á Haugum vid Karmtsund. I Haugasundi stendr nú kirkia, enn vid siálfan kír-

kiugardinn í útnordr er haugr Harallds konungs ens Hárfagra; enn fyrir vestan kirkiuna liggr legsteinn Harallds konungs, sá er lá yfir legi hans i hauginum, oc er steinninn hálfs fiórtanda fets lángr, oc nær II álna breidr. I midiom hauginom var leg Harallds konungs; þar var settr steinn annarr at höfdi, enn annarr at fótom, oc lögd þar hellan á ofan; enn hladit grióti tveim megin utan undir. Þeir steinar standa nú þar i kyrkiugardinom, er þá voro í hauginom, oc nú var frá sagt. Sva segia fródir menn, at Haralldr hinn Hárfagri hafi verit allra manna fridastr synom, oc sterkastr oc mestr, hinn örvasti af fe, oc allvinsæll vid sína menn; hann var hermadr mikill öndverda æfi; oc þyda menn þat nú at vitat hafi um tre þat et mikla, er módur hans syndiz í draumi, fyrir burds hans, er hinn nedsti lutr tresins var raudr sem blód; enn þá var leggrinn upp frá fagr oc grænn, at þat iartegndi blóma ríkis hans; enn at ofanverdo var hvítt treit, þá syndiz þat, at hann mundi fá elli oc hæro; kvistir oc limar tresins bododo afqvæmi hans, er um allt land dreifdiz; oc af hans ætt hafa verit iafnan sídan konungar í Noregi.

## CAP. XLVI.

## FALL OLAFS OC SIGRÖDAR.

Eiríkr konungr tók allar tekior þær sem konungr átti um mitt land, inn næsta vetr eptir audlát Harallds konungs; enn Olafr austr um Vikina; enn Sigrödr bródir þeirra hafdi allt um Þrændalög. Eiríki

líkadi þetta stórilla, oc fóro þau ord um, at hann mundi med styrk eptirleita vid brædur sína ef hann mætti fá einvalldsríki yfir landi öllo, sva sem fadir hans hafdi gefit hönom. Enn er Olafr oc Sigrödr spyria þetta, þá fara sendimenn milli þeirra; þvi næst gera þeir stefnolag sitt, oc ferr Sigrödr um várit austr til Víkur, oc finnaz þeir Olafr brædur í Tunsbergi, oc dvöllduz þar um hríd. Þat sama vár bydr Eiríkr út lidi miklu, oc scipom, oc snyr austr til Víkur. Eiríkr konungr feck radbyri sva mikit, at hann sigldi dag oc nótt, oc fór engi niósn fyrir hönom. Oc er hann kom til Tunsbergs, þá gengo þeir Olafr oc Sigrödr med lid sitt austr or bænum á breckuna, oc fylkto þar. Eiríkr hafdi lid miklu meira, oc feck hann sigr; enn þeir Olafr oc Sigrödr fello þar bádir, oc er þar haugr hvarstveggia þeirra á breckunni, sem þeir lágo fallnir. Eiríkr konungr fór þá um Víkina, oc lagdi undir sic, oc dvalldiz þar lengi um sumarit. Tryggvi oc Gudrödr flydo þá til Upplanda. Eiríkr var mikill madr oc frídr, sterkr oc hreystimadr mikill, hermadr mikill oc sigrsæll, ákafamadr í scapi, grimmr, úþydr oc fálátr. Gunnhilldr kona hans var kvenna fegrst; vitr oc margkunnig, gladmællt oc undirhyggiumadr mikill, oc hin grimmasta. Þau voro börn þeirra Eiríks konungs oc Gunnhilldar: Gamli var ellstr, þá Guthormr, Haralldr, Ragnfrödr, Ragnhilldr, Erlingr, Gudrödr, Sigurdr Sleva. Öll voro börn þeirra Eiríks fríd oc mannvæn.

---

# IV.

# SAGA HAKONAR GODA.

## CAP. I.

## HÁKON TIL KONUNGS TEKINN.

Hákon Adalsteins fóstri var þá á Englandi, er hann spurdi andlát Harallds konungs födur síns; bióz hann þá þegar til ferdar: feck Adalsteinn konungr hönom þá lid, oc gódan skipa kost, oc bió hans för allvegliga; oc kom hann um haustit til Noregs. Þá spurdi hann fall brædra sinna, oc þat med, at Eiríkr konungr var þá í Víkinni. Sigldi þá Hâkon nordr til Þrándheims, oc fór á fund Sigurdar Hlada Jarls, er allra spekinga var mestr í Noregi, oc feck þar gódar vidtökur, oc bundo þeir lag sitt saman. Het Hákon hönom miklo ríki, ef hann yrdi konungr. Þá leto þeir stefna þíng fiölmennt, oc á þíngino taladi Sigurdr Jarl af hendi Hákonar, oc baud bóndom hann til konungs. Eptir þat stód Hákon siálfr upp oc taladi; mællto þá tveir oc tveir sín í milli, at þar væri þá kominn Haralldr hinn Hárfagri, oc ordinn úngr í annat sinn. Hákon hafdi þat upphaf síns máls, at hann beiddi bændor vidtöko oc gefa ser konungs nafn; oc þat med, at veita ser fullting oc styrk til at hallda konungdóminom. Enn þar í mót baud hann þeim at gera alla bændur ódalborna,

oc gefa þeim ódol sín, er byggia. At þessu eyrindi vard rómr sva mikill, at allr bónda múgrinn æpti oc kalladi, at þeir villdo hann til konungs taka, oc var sva gert, at Þrændir tóku Hákon til konungs um allt land, oc var þá Hákon XV vetra: tók hann ser þá hird, oc fór yfir land. Þau tídindi spurduz á Upplönd, at Þrændir höfdo ser konung tekit slíkan at öllo sem Haralldr hinn Hárfagri var, nema þat skilldi, at Haralldr hafdi allan lyd í landi áþiád, enn þessi Hákon villdi hveriom manni gott, oc baud aptr at gefa bændom ódol sín, þau er Haralldr konungr hafdi af þeim tekit. Vid þau tídindi urdo allir gladir, oc sagdi hverr ödrom: flaug þat sem sino elldr allt austr til lands enda. Margir bændur fóro af Upplöndon, at hitta Hákon konung; sumir sendu menn; sumir gerdu ordsendingar oc iartegnir; enn allir til þess, at hans menn villdo geraz. Konungr tók því þacksamliga.

## CAP II.

## YFIRFERD HÁKONAR KONUNGS.

Hákon konungr fór öndordan vetr á Upplönd, stefndi þar þing, oc dreif allt fólk á hans fund, þat er komaz mátti. Var hann þá till konungs tekinn á öllom þingom: fór hann þá austr til Víkur: þar komu til hans Tryggvi oc Gudrödr brædra-synir hans, oc margir adrir er upptölldu harma sína, er

hlotiz

hlotiz höfdo af Eiríki konungi bródor hans. Eiríks úvinsælld óx æ því meir, sem allir menn gerdo ser kærra vid Hákon konung, oc helldr höfdo ser traust til at mæla sem þótti. Hákon konungr gaf konungs nafn Tryggva oc Gudrödi, oc ríki þat sem Haralldr konungr hafdi gefit fedrum þeirra: Tryggva gaf hann Ránríki oc Vingulmörk; enn Gudrödi Vestfolld. Enn fyrir því at þeir voro úngir oc bernscir, þá setti hann til gösga menn oc vitra, at ráda landi med þeim. Gaf hann þeim land med þeim scildaga, sem fyrr hafdi verit, at þeir scylldi hafa helming scylldna oc scatta vid hann. Fór Hákon konungr nordr til Þrándheims er varadi et efra um Upplönd.

## CAP. III.

## FERD EIRÍKS OR LANDI.

Hákon konungr dró saman her mikinn í Þrándheimi, er varadi, oc red til scipa. Víkveriar höfdo oc her mikinn úti, oc ætlodo til mótz vid Hákon. Eiríkr konungr baud oc lidi út um mittland, oc vard hanom íllt til lids, þvíat ríkismenn margir scutoz hönom, oc fóro til Hákonar. Enn er hann sá engi efni til mótstödo í móti her Hákonar, þá sigldi hann vestr um haf, med því lidi er hönom villdi fylgia. Fór hann fyrst til Orkneya, oc hafdi þadan med ser lid mikit. Sidan sigldi han sudr til Englandz, oc heriadi um Scotland, hvar sem hann

kom vid land; hann heriadi oc allt nordr um England. Adalsteinn Engla konungr sendi ord Eirìki, oc baud hanom at taka af ser ríki í Englandi; sagdi sva, at Haralldr konungr fadir hans var mikill vin Adalsteins konungs, sva at hann villdi þat virda vid son hans. Fóro þá menn í millom þeirra konunganna, oc sættuz á þat med einka málum, at Eirìkr konungr tók Nordimbraland at hallda af Adalsteini konungi; skylldi hann veria þar landit fyrir Dönom oc ödrom víkingom. Eirìkr scylldi þá láta scíraz, oc kona hans, oc börn þeirra, oc allt lid hans, þat er hönom hafdi fylgt þángat. Tók Eirìkr þenna kost: var hann þá scírdr, oc tók retta trú. Nordimbraland er kallat fimtungr Englands. Eirìkr hafdi atsetu í Jorvík, þar sem menn segia at fyrr hafi setit Lodbrókar synir. Nordimbraland var mest bygt af Nordmönnom. Sidan er Lodbrókar synir unno landit, heriadu Danir oc Nordmenn optliga þángat, sídan er valld landsins hafdi undan þeim gengit. Mörg heiti landsins ero þar gefin á Norræna túngo, Grimsbær oc Hauksfliót oc mörg önnor.

## CAP. IV.

## FALL EIRÍKS KONUNGS.

Eirìkr konungr hafdi fiölmenni mikit um sic; hellt hann þàr fiöllda Nordmanna, er austan hafdi farit med hanom, oc enn komo margir vinir hans sídan af Noregi. Enn er hann hafdi land lítit, þá fór

hann iafnan í hernad á sumrom: hann heriadi um Scotland oc Sudreyar, Irland oc Bretland, oc afladi ser sva fiár. Adalsteinn konungr vard sóttdaudr, þá hann hafdi verit konungr XIV vetur, oc VIII vikur oc III daga. Sídan var konungr í Englandi Jatmundr bródir hans, var hönom ecki um Nordmenn; var Eiríkr konungr eigi í kærleikom vid hann; oc fóro þá þau ord um af Jatmundi konungi, at hann mundi annan höfdingia setia yfir Nordimbraland. Enn er þat spurdi Eiríkr konungr, þá fór hann í Vestrvíking, oc hafdi or Orkneyum med ser Arnkel oc Erlend Jarla, sono Torf-Einars. Sídan fór hann í Sudreyar, oc voro þar margir víkingar oc herkonungar, oc reduz til lids med Eiríkr konungi: hellt hann þá öllo lidino fyrst till Irlandz, oc hafdi þadan lid slikt er hann feck. Sídan fór hann til Bretlands, oc heriadi þar. Eptir þat sigldi hann sudr undir England, oc heriadi þar sem í ödrom stödom; enn allt lid flydi undan þar sem hann fór. Oc med því at Eiríkr var hreystimadr mikill, oc hafdi her mikinn, þá treystiz hann sva vel lidi sino, at hann geck lángt á land upp, oc heriadi, oc leitadi eptir mönnom. Olafr het konungr sá, er Jatmundr konungr hafdi þar sett til landvarnar; hann dró saman her úvígan, oc fór á hendur Eiríki konungi, oc vard þar orosta mikil; fello miök Enscir menn; enn þar er einn fell, komo III af landi ofan í stadinn; oc hinn efra luta dagsins snyr mannfallinu á hendur Nordmönnom, oc fellr þar mikit fólk.

Oc at lyctom þess dags fell Eiríkr konungr, oc V konungar med hanom. Þessir ero nefndir: Guthormr oc synir hans II, Ivar oc Hárekr: þar fell oc Sigurdr oc Rögnvalldr; þar fell oc Arnkell oc Erlendr, synir Torf-Einars. Þar vard oc allmikit mannfall af Nordmönnom, enn þeir er undan komuz, fóro til Nordimbralands, oc sögdo Gunnhilldi oc sonom hennar þessi tídindi.

## CAP. V.

## FERD GUNNHILLDAR SONA.

Enn er þau Gunnhilldr urdo þessa vör, at Eiríkr konungr var fallinn, oc hann hafdi ádr heriat land Englakonungs, þá þyckiaz þau vita, at þeim mun þar vera eigi fridvænt. Búaz þau þá þegar í brott af Nordimbralandi, oc hafa scip þau öll, er Eiríkr konungr hafdi átt, oc lid þat allt er þeim villdi fylgia, oc of lausafiár, er þar hafdi samandregiz í scöttom á Englandi; enn sumt hafdi fengiz í hernadi. Þau hallda lidi síno fyrst nordr til Orkneya, oc stadfestoz þar um hrid; þá var þar Jarl Þorfidr Hausakliúfr, son Torf-Einars. Tóko þá synir Eiríks undir sic Orkneyar oc Hialltland, oc höfdo scatta af, oc sáto þar of vetrom, enn fóro í Vestrvíking á sumrom, oc heriodo um Scotland oc Irland. Þess getr Glumr Geirason:

Hafdi för til ferio
fródr scáneyar góda

black rídandi backa
barnungr þadan farna.
Rógeiso vann ræsir
rádvandr á Scotlandi;
sendi seggia kindar
sverd bautin her gauti.
Dólgeiso rak dísar
drott kom mörg á flótta
gumna vinr at gamni
giódom Irscrar þiódar.
Folldar raud oc felldi
Freyr í manna dreyra
sunnr á sigr of hlinninn
seggi mækis eggiar.

## CAP. VI.

## OROSTA Á JOTLANDI.

Hákon konungr, Adalsteins fóstri lagdi, undir sic allan Noreg, þá er Eiríkr konungr brodir hans hafdi brott stockit. Hákon konungr sótti inn fyrsta vetr vestr í landi, eptir þat nordr í þrándheim, oc sat þar. Enn fyrir þær sakir at eigi þótti fridvænlict, ef Eiríkr konungr leitadi vestan um haf med her sinn, sat hann fyrir því med lid sitt um mitt land, í Firdafylki, eda Sogni, edr Hördalandi, eda Rogalandi. Hákon setti Sigurd Hlada-Jarl yfir öll þrændalög, sva sem hann hafdi fyrr haft, oc Hákon fadir hans, af Haralldi konungi enum Hárfagra. Enn er Hákon konungr spurdi fall Eiríks bródur sins, oc þat med, at synir hans höfdo eigi traust í Englandi, þá þótti hönum lítil ógn af þeim standa;

fór þá med lidi sínu á einu sumri austr í Vík. I þann tíma heriodo Danir miök í Víkina, oc gerdu þar opt mikinn scada; Enn er þeir spurdu, at Hákon konungr var þar kominn med her mikinn, þá flydu allir undan, sumir sudr til Jotlands edr Hallands; enn þeir er nær meir voro Hákoni konungi stefndu út á hafit, oc sva sudr til Jotlands. Enn er Hákon konungr vard þessa var, þá sigldi hann eptir þeim öllum herinum. Enn er hann kom til Jotlands, heriar hann þar, enn er landsmenn urdu vid þat varir, þá draga þeir her saman, oc vilia veria land sitt, oc ráda til orosta vid Hákon konung. Vard þar orosta mikil; bardiz Hákon konungr sva diarfliga, at hann geck fyrir framan merki, oc hafdi hverki hialm ne brynio. Hákon konungr hafdi sigr, oc rak flótta lángt á land upp. Sva segir Guthormr Sindri í Hákonar drápo:

Bifröknum trad beckiar
blá röst konungr árom
mætr hlód milldingr jótom
mistar nifs í drífo.
Svan gædir rak sídan
sciótt iálfadar flotta
hrot gilia þar hylia
hramn víns at mun sínom.

## CAP. VII.

## OROSTA Í EYRARSUNDI.

Sidan hellt Hákon konungr lidi síno sunnan til Selundar, oc leitadi víkinga; hann reri med II snec-

kium fram í Eyrarsund: þar hitti hann XI víkingasneckior, oc lagdi þegar til orostu vid þá, oc lauk sva, at hann hafdi sigr, oc raud öll víkingascipin. Sva segir Guthormr Sindri:

Almdrósar fór eisu
el runnr mörom sunnan
trióno tíngls á græna
tveim cinum sel meina
þá er ellifu allar
allreidr Dana sceidar
val sendir raud vandar
vídfrægr at þat sídan.

## CAP. VIII.

## HERNADR HÁKONAR KONUNGS Í DANMÖRK.

Eptir þat heriadi Hákon konungr vida um Selund oc rænti mart fólk, enn drap sumt, enn sumt hertók hann, oc tók giölld stór af sumum; feck þá enga mótstödu. Sídan fór Hákon konungr austr fyrir Scáneyar sído, oc heriadi allt, oc tók giölld oc scatta af landino, oc drap alla víkinga, hvar sem hann fann, bædi Dani oc Vindur. Fór hann allt austr fyrir Gautland, oc heriadi þar, oc feck þar stór giölld af landino. Sva segir Guthormr Sindri:

Selund nádi þá sídan
sócn heggr und sic leggia
vals oc Vinda frelsi
vid Scáneyar sído.
Scattgillda vann scylldir
scant Jalfadar Gauta

gullskyflir vann giöflaztr
geir vedr í för þeirri.

Hákon konungr fór aptr um haustit med lid sitt oc hafdi fengit úgrynni fiár; hann sat um vetrinn í Vikinni vid áhlaupom, ef Danír edr Gautar gerdi þar.

## CAP. IX.

## FRÁ TRYGGVA KONUNGI.

Þat sama haust kom Tryggvi konungr, Olafs sonþ or vestrviking; hafdi hann þá ádr heriat um Irland oc Scotland. Um várit fór Hákon konungr nordr í land, oc setti Tryggva konung bródur sinn yfir Víkina, at veria fyrir úfridi, oc eignaz slíkt er hann mætti, af þeim löndom í Danmörko, er Hákon konungr hafdi et fyrra sumarit scattgyllt. Sva segir Guthormr Sindri:

Oc sóen hattar setti
svellriódr at því fliódi
Onars eiki græno
austr gedbæti hraustan:
þann er ádr frá Irom
idvandr of kom scídom
salbrygdandi svegdis
svan vángs lidi þángat.

## CAP. X.

## FRÁ GUNNHILLDAR SONOM.

Haralldr konungr Gormsson red þá fyrir Danmörko; hönom likadi stórilla þat er Hákon konungr hafdi heriat i ríki hans, oc fóro þau ord um, at

Dana konungr mundi hefnaz vilia; enn þat vard þó ecki sva brádliga. Enn er þetta spurdo Gunnhilldr oc synir hennar at úfridr var millom Danmerkor oc Noregs, þá byria þau ferd sína vestan; þau gipto Ragnhilldi dóttur Eiríks konungs Arnfinni, syni Þorfids Hausakliúfs. Settiz þá enn Þórfidr Jarl at Orkneyom, er Eiríks synir fóro í brott. Gamli Eiríksson var þeirra nockoro ellri, oc var hann þó eigi roscinn madr. Enn er Gunnhilldr kom til Danmerkur med sonom sínom, þá fór hun á fund Harallds konungs, oc feck þar gódar vidtekiur. Feck Haralldr konungr þeim veizlor í ríki sino, sva miklar, at þau fengo vel halldit sic, oc menn sína; Enn hann tók til fósturs Haralld Eiríksson oc knesetti hann; fæddiz hann þar upp í hird Danakonungs. Sumir Eiríks synir fóro í hernad, þegar er þeir höfdo alldr til, oc öflodo ser fiár; þeir heriado um austrveg; þeir voro snemma menn fridir, oc fyrr roscnir at afli oc atgervi, enn vetra tali. Þess getr Glúmr Geira son í Gráfelldardrápo:

> Austr-löndom fekz undir
> allvalldr, sá er gaf skalldom,
> hann feck gagn at gunni
> gunn hörga lög mörgom;
> slídr túngr let syngia,
> sverdleiks regin ferdir
> sendi gramr at grundo
> gullvarpadr snarpar.

Eiríks synir sneroz þá oc med her sinn nordr í Víkina, oc heriado þar, enn Tryggvi konungr haf-

di her úti, oc helst til mótz vid þá, oc áttu þeir orostor margar, oc höfdo ymsir sigr; heriado Eiriks synir stundom í Víkina; enn Tryggvi stundom um Siáland oc Halland.

## CAP. XI.

## LUND OC LAGASETNING HÁKONAR KONUNGS.

Þá er Hákon var konungr í Noregi, var fridr gódr med bændom oc kaupmönnom, svą at engi grandadi ödrom ne annars fe; þá var oc ár mikit bædi á siá oc á landi. Hákon konungr var allra manna gladastr oc málsniallastr oc lítillátaztr; hann var madr stórvitr, oc lagdi mikinn hug á lagasetning. Hann setti Gulaþings lög med rádi Þórleifs Spaka; hann setti oc Frostoþings lög, med rádi Sigurdar Jarls, oc annara þrænda, þeirra er vitrastir voro. Enn Heidsævis lög hafdi fyrst sett Hálfdan Svarti, sem fyrr er ritit.

## CAP. XII.

## FÆDDR HÁKON JARL HINN RÍKI.

Hákon konungr hafdi Jólaveizlo í Þrándheimi; þessa veizlo hafdi Sigurdr Jarl búit fyrir hanom á Lödom. Hina fyrsto Jóla-nótt ól Bergliót kona Jarls sveinbarn; Eptir um daginn iós Hákon konungr sveinn þann vatni, oc gaf nafn sitt, oc óx sveinn sá upp,

oc vard sídan ríkr madr oc göfigr, oc vard Jarl eptir Sigurd födor sinn. Sigurdr Jarl var hinn kærsti vin Hákonar konungs.

## CAP. XIII.

## FRÁ EYSTEINI ILLA.

Eysteinn Upplendinga konungr, er sumir kalla hinn Ríka, enn sumir hinn Illa, hann heriadi í Þrándheim, oc lagdi undir sic Eyna-fylki oc Sparbyggiafylki, oc setti þar yfir son sinn, er het Önundr, enn þrændir drápo hann. Eysteinn konungr fór annat sinn herför í Þrándheim, oc heriadi þá vída, oc lagdi undir sic. Þá baud hann Þrændom, hvert þeir villdo helldr hafa at konungi þræl hans, er het Þórir Faxe, eda hund, er Saurr het; enn þeir kuro hundinn, þvíat þeir þóttoz þá mundo sialfráda vera. Þeir leto sída í hundinn þriggia manna vit, oc gó hann til tveggia orda, en mællti et þridia. Helsi var hanom gert oc vidiar af gulli oc silfri. Enn þegar er saurugt var, báro hirdmenn hans hann á höndom ser. Hásæti var hanom búit, oc hann sat á haugi sem konungr, oc bió í Eyonni ídri, oc hafdi atseto, þar sem heitir Saurs haugr. Þat er sagt at hönom vard at bana, at vargar lögdoz á hiörd hans, enn hirdmenn eggiodo hann at veria fe sitt; hann lióp af haugiom, oc fór móti vörgonom; enn þeir rifo hann þegar í sundr. Mörg undor önnor gerdi Eysteinn konungr vid þrændi. Af þeim hernadi oc

úfrid flydo margir höfdingiar, oc mart fólk flydi ódol sin.

## CAP. XIV.

## BYGGING JAMTALANDS OC HELSINGIALANDS.

Ketill Jamti, sonr Önundar Jarls or Sparabúi, fór austr um Kiöl oc mikill mannfiölldi med hönom, oc höfdo búferli sin med ser. Þeir ruddo markir, oc bygdo þar stór heröd; þat var sidan kallat Jamtaland. Sonarson Ketils var Þórir Helsingr; hann fór fyrir viga sakir af Jamtalandi, oc austr yfir markir þær er þar verda, oc bygdi þar, oc sótti þannog fiölldi manna med hanom; var þat kallat Helsingialand; gengr þat allt austr til siávar. Helsingialand bygdo Svíar allt hit eystra med hafino. Enn er Haralldr konungr hinn Hárfagri ruddi riki fyrir ser, þá stöck enn fyrir hanom fiölldi manna or landi, Þrændir oc Naumdælir, oc gerdoz þá enn bygdir austr um Jamtaland, oc sumir fóro allt í Helsingialand. Helsingiar höfdo kaupferdir sinar til Svíþiódar, oc voro þannog lydscylldir at öllo; enn Jamtur voro miök alls i millom, oc gaf þeim engi gaum, fyrr enn Hákon setti frid oc kaupferdir til Jamtaland, oc vingæddiz þar vid ríkismenn. Þeir sótto sídan austan á hans fund, oc iátodo hanom hlydni sinni oc scattgiöfom, oc gerdoz hans þegnar; þvíat þeir spurdo gott til hans; villdo þeir helldr þydaz

undir hans konungdóm, enn undir Svíakonung, þvíat þeir voro af Nordmanna æt komnir; enn hann setti þeim lög oc landsrett. Sva gerdo oc allir Helsingiar, þeir er æscadir voro um kiöl nordan.

## CAP. XV.

## KRISTNI-HALLD OC BODAN HÁKONAR KONUNGS.

Hákon konungr var vel kristinn er hann kom í Noreg; enn fyrir því at þar var land allt heidit, oc blótscapr mikill, oc stórmenni mart, en hann þóttiz lids þurfa miök, oc alþydo vinsælld, þá tók hann þat rád, at fara leyniliga med kristninni, hellt sunnodaga oc friádaga fösto, oc minning hinna stærsto hátida; hann setti þat í lögom, at hefia Jólahalld þann tíma sem kristnir menn, oc scylldi þá hverr madr eiga mælis öl, enn giallda fe ella, enn hallda heilact medan jólin ynniz; Enn ádr var Jolahalld heft Höggu nótt, þat var mids vetrar nótt, oc halldin þriggia nátta jól. Hann ætladi sva, er hann festiz í landino, oc hann hefdi friálsliga undir sic lagt allt land, at hafa þá fram kristnibod. Hann gerdi sva fyrst, at hann lockadi þá menn, er hanom varo kærstir til kristni; kom sva med vinsælld hans, at miök margir leto scíraz, enn sumir leto af blótom. Hann sat laungom í þrándheimi, þvíat þar var mestr styrkr landsins. Enn er Hákon konungr þóttiz fengit hafa styrk af nockorom ríkismönnom at hallda

upp kristninni, þá sendi hann til Englands eptir biscupi oc ödrom kennimönnom; oc er þeir komo í Noreg, þá gerdi Hákon konungr þat bert, at hann villdi bióda kristni of land allt; enn Mærir oc Raumdælir scuto þannog sino máli sem þrændir voro. Hákon konungr let þá vígia kirkior nockorar, oc setti þar presta til. Enn er hann kom í þrándheim, þá stefndi hann þíng vid bændur, oc baud þeim kristni. þeir svara sva, at þeir vilia þesso máli scióta til Frosto-þings, oc vilia þá at þar komi menn or öllom fylkiom, þeim sem ero í þrændalögom; segia at þá mano þeir svara þesso vandmæli.

## CAP. XVI.

## FRÁ BLÓTOM.

Sigurdr Hlada Jarl var hinn mesti blót-madr, oc sva var Hákon fadir hans; hellt Sigurdr Jarl upp blót-veizlom öllom af hendi konungs, þar í þrændalögom. þat var forn-sidr, þá er blót scylldi vera, at allir bændur scylldo þar koma sem hof var, oc flytia þannog föng sín, þau er þeir scylldo hafa medan blótveizlan stód. At veizlo þeirri scylldo allir menn öl eiga: þar var oc drepinn allsconar smali, oc sva hross; enn blót þat allt, er þar kom af, þat var kallat hlaut, enn hlautbollar þat er blód þat stód í; enn hlaut-teinar, þat var sva gert sem stöklar; med því scylldi rióda stallana öllo saman, oc sva veggi hofsins utan oc innan, oc sva stöckva

hlautino á mennina; enn slátrit scylldi sióda til mannfagnadar. Elldar scylldo vera á midio golfi í hofino, oc þar katlar yfir, oc scylldi full of elld bera. Enn sá er gerdi veizlona oc höfdingi var, þá scylldi hann signa fullit, oc allan blót-matinn; scylldi fyrst Odins full drecka til sigurs oc ríkis konungi sínom; enn sídan Niardar full oc Freys full til árs oc fridar. þá var mörgom mönnom titt at drecka þar næst Bragafull. Menn drucko oc full frænda sinna, þeirra er göfgir höfdo verit, oc voro þat minni köllot. Sigurdr Jarl var manna örvastr; hann gerdi þat verk, er frægt var miök, at hann gerdi mikla blótveizlo at Lödom, oc hellt einn upp öllom kostnadi. þess getr Kormakr Ögmundar son í Sigurdar-drápo:

Hafit madr asc ne esci
afspríng med ser þíngat
fe fæı nda at færa
fæz veıto god þiaza.
Hver mani vess vid valldi
vægia kind of bægiaz
þvíat fun rögni fagnar
fens vá gramr til menia.

## CAP. XVII.

## ÞÍNG Á FROSTO.

Hákon konungr kom til Frostoþíngs, oc var þar komit allfiölmennt af bændom. Enn er þíng var sett, þá taladi Hákon konungr; hefir þar fyrst, at þat væri bod hans oc bæn vid bændur oc búþegna,

ríka oc uríka, oc þar med vid alla alþydo, únga menn oc gamla, sælan oc vesælan, konor sem karla, at allir menn scylldo cristnaz láta, oc trúa á einn Gud, Christ Marioson, enn hafna blótom öllom, oc heidnom Godom, hallda heilact hinn VII hvern dag, vid vinnom öllom, fasta oc hinn VII:da hvern dag. Enn þegar er konungr hafdi þetta uppborit fyrir alþydo, þá var þegar kur mikill, oc kurrudo bændor um þat, er konungr villdi vinnor taka af þeim, oc sva átrúnad, oc sogdo at vid þat mátti landit ecki byggia, enn verka-lydr oc þrælar kölludo þat, at þeir mætti eigi vinna, ef þeir scylldo eigi mat hafa. Sögdo oc at þat var scaplöstr Hákonar konungs, oc födor hans, oc þeirra frænda, at þeir voro illir af mat sinom, þótt þeir væri milldir af gulli. Asbiörn af Medalhúsom or Gaulardal stód upp, oc svarar örendi konungs, oc mællti: þát hugdo ver bændor, Hákon konungr, segir hann, at þá er þú hafdir it fyrsta þíng haft her í Þrándheimi, oc hófom þic til konungs, oc þágom af þer ódol vor, at ver hefdim þá himin höndom tekit; enn nú vito ver eigi hvert helldr er, at ver munom frelsi þegit hafa, eda munto nú vilia þrælka oss af nyo med undarligom hætti, at ver manom hafna átrúnadi vorom, þeim er fedor vorir hafa haft fyrir oss, oc allt forellri, fyrst um Bruna-ölld, oc nú um Hauga-ölld, oc hafa þeir verit miklo göfgari enn ver, oc hefir oss þó dugat þessi átrúnadr. Ver höfom lagt til ydar

sva

sva mikla ástúd, at ver höfom þic ráda látit med oss öllom lögom í landino, oc landsrett. Nú er þat vili var oc samþycki bondanna, at hallda þau lög sem þú settir oss her á Frostaþingi, oc ver iátadom þer; viliom ver allir þer fylgia, oc þic til konungs hallda medan einnhverr vor er lífs bóndanna, þeirra er her ero nú á þíngino, ef þú konungr villt nockot hóf vid hafa, at beida oss þess eins, er ver megom veita þer, oc oss se eigi ógeranda. Enn ef þu villt þetta mál taka med sva mikilli freko, at deila afli oc ofríki vid oss, þá höfom ver bændur gert rád vort, at sciliaz allir vid þic, oc taka oss annan höfdingia, þann er oss halldi til þess, at ver munim í frelsi hafa þann átrúnad sem oss er at scapi. Nú scalltu, konungr, kiósa of kosti þessa, ádr þíng se slitit. At erindi þesso gerdo bændor róm mikinn, oc segia at þeir vilia sva vera láta, sem nu er sagt. Enn er hliód feckz, þá svarar Sigurdr Jarl: þat er vili Hákonar konungs, at samþyckia vid ydor, bændor, oc lata alldri scilia ydra vinatto. Bændor segia, at þeir vilia at konungr blóti til árs þeim oc fridar, sva sem fadir hans gerdi; stadnar þá kurrin, oc slita þeir þíngino. Sídan taladi Sigurdr Jarl vid konung, oc bad hann ej nemaz med öllu at geri sem bændor villdo, segir at eigi mundi annat lyda, enn svegia til nockot vid bændor; er þetta, konungr, sem siálfir þer mattot heyra, vili oc ákafi höfdingia, oc þar med alls fólks. Sculo ver, konungr,

her finna til gott rád nockot; oc samdiz þat med þeim konungi oc Jarli.

## CAP. XVIII.

## BÆNDOR ÞREYNGIA HÁKONI TIL BLÓTA

Um haustit at vetri var blótveizla á Lödom, oc sótti þar till konungr; hann hafdi iafnan fyrr verit vanr, ef hann var staddr þar er blót voro, at mataz í litlo húsi vid fá menn; enn bændor töldo at því, er hann sat eigi í hásæti síno, þá er mestr var mann-fagnadr. Sagdi Jarl, att hann scylldi eigi þá sva gera. Var þá sva, at konungr sat í hasæti síno. Enn er it fyrsta full var skeinkt, þá mællti Sigurdr Jarl fyrir minni, oc signadi Odni, oc drack af hornino till konungs. Konungr tók vid, oc gerdi kross-marc yfir; þá mællti Kár af Gritingi: Hví fer konungrinn nú sva; vill hann eigi enn blóta? Sigurdr Jarl svarar: Konungr gerir sva sem þeir gera allir er trúa á mátt sinn oc megin, oc signa full sitt Þór, hann gerdi hamars-marc yfir ádr hann drack; Var þar þá kyrt um qvelldit. Eptir um daginn er menn gengo til borda, þá þusto bændor at konungi, sögdo at hann scylldi eta þá hrossa-slátr. Konungr villdi þat fyri engan mun: þá bádu þeir hann drecka sodit; hann villdi þat eigi: þá badu þeir hann eta flotit; hann villdi þat oc eigi: oc hellt þà vid atgöngo. Sigurdr Jarl villdi sætta þá, oc bad

þá letta storminom: oc bad hann konung gína yfir Ketil-höddona, er sodreykinn hafdi lagt upp af hrossa-slátrino, oc var smiörog haddan. þá geck konungr till, oc brá lindúk um ketilhöddona, oc gein yfir, oc geck sídan til hásætis, oc líkadi hvarigom vel.

## CAP. XIX.

## BLÓTVEIZLA Á MÆRI.

Um vetrinn eptir var búit til Jóla-veizlo konungi inn á Mærinni. Enn er at leid jólonom, þá lögdo þeir stefno med ser VIII höfdingiar, er mest redo fyrir blótom i öllom þrændalögom. þeir voro IV utan or þrándheimi: Kár af Grytingi, Asbiörn af Medalhúsom, þórbergr af Varnesi, Ormr af Lioxo. Enn af Innþrændom: Blotólfr af Ölvishaugi, Narfi af Staf or Veradal, þrandr Haka af Eggio, þórir Skegg af Húsabæ i Eynni idri. þessir VIII menn bundoz í því, at þeir IV af Utþrændom scylldo eyda kristindominom i Noregi, enn þeir IV af Innþrændom scylldo neyda konung til blóta. Utþrændir fóro IV scipom sudr á Mæri, oc drápo þar presta III oc brendo kirkior III, fóro aptr sídan. Enn er Hákon konungr oc Sigurdr Jarl komo inn á Mæri med hird sina, þá voro bændor þar komnir allfiölmennt. Hinn fyrsta dag at veizlonni þegar herdo bændor at konungi, oc bádo hann blóta, enn heto hanom afarkostom ella. Sigurdr Jarl bar þá sáttmál í millom þeirra, oc kemr

þá sva at Hákon konungr át nockora bita af hrosslifor, drack hann oc þá öll minni krossalaust, þau er bændor skenkto hanom. Enn er veizlo þessari var lokit, fór konungr oc Jarl þegar út á Hladir. Var konungr allúkátr, oc bióz þegar í brott med öllo lidi síno or Þrándheimi, oc mællti sva, at hann scylldi fiölmennari koma í annat sinn í Þrándheim, oc giallda þá bændom þenna fiàndscap, er þeir höfdo til hans gert. Sigurdr Jarl bad konung gefa Þrændom þetta eigi at söc, segir sva, at konungi muni eigi þat duga at heitaz, edr heria á innanlandz fólk, þar sem mestr styrkr er landsins, sem í Þrándheimi var. Konungr var þá sva reidr, at ecki máttti ordom vid hann koma. Fór hann í brott or Þrándheimi, oc sudr á Mæri, dvalldiz þar um vetrinn, oc á vorit fram. Enn er sumradi, dró hann lid at ser: Voro þau ord á, at hann mundi fara med her þann á hendor Þrændom.

## CAP. XX.

## OROSTA Á ÖGVALLDSNESI.

Enn er Hákon konungr var á scip kominn, oc hafdi lid mikit; þá komo hanom þau tidindi sunnan or landi, at synir Eiriks konungs væro komnir sunnan af Danmörk í Víkina, oc þat med, at þeir höfdo ellt af scipom Tryggva konung Olafsson austr vid Sótanes; höfdo þeir þá vída heriat í Víkinni, oc höfdo margir menn undir þá gengit. Enn er Hákon

konungr spurdi þessi tídindi, þá þóttiz hann lids þurfa; sendi hann þá ord Sigurdi Jarli at koma til sín, oc sva ödrom höfdingiom, þeim er hanom var lids at ván. Sigurdr Jarl kom til Hákonar konungs oc hafdi allmikit lid: voro þar þá allir Þrændir, þeir er um vetrinn höfdo mest gengit at konunginom, at pinda hann til blóta. Voro þeir þá allir í sætt teknir, af fortölom Sigurdar Jarls. Fór Hákon konungr þá sudr med landi. Enn er hann kom sudr um Stad, þá spurdi hann at Eiriks synir voro komnir á Nordr-Agdir; fóro þá hvarir í moti ödrom; vard fundr þeirra á Körmt: gengo þá hvarir tveggio af scipom, oc bördoz á Ögvalldsnesi: voro hvarirtveggio þá allfiölmennir; var þar orosta mikil. Sótti Hákon konungr hart fram, oc var þar fyrir Guthormr konungr Eiriks son, med sína sveit, oc eigaz þeir höggva scipti vid; þar fell Guthormr konungr, oc var merki hans nidrhöggvit; fell þar þá mart lid um hann. Því næst kom flótti í lid Eiriks-sona, flydo þeir til scipanna, oc rero í brótt, oc höfdo látit mikit lid. Þess getr Guthormr Sindri:

Valþögnir let vegnom
víg nest saman bresta
handar nafs of höfdom
hlym milldingom gilldir.
þar geck niördr af nirdi
nadds há mána raddar
valbrandz vidra landa -
vapnundadom sunda.

Hákon konungr fór til scipa sinna, oc hellt austr eptir Gunnhilldar sonom: fóro þá hvarirtveggio sem

mest mátto, þar til er þeir komo á austr-Agdir. Þadan sigldo Eiríks synir á haf, oc sudr til Jotlands. Þess getr Guthormr Sindri:

Alm drogar var ægis
opt sinn þess ec minnunz
barma ölld fyrir balldri
bensíes vita ríkis.
Bödsækir hellt bricar
brædur síns oc rac flæda
undan allar kindir
Eirecks á haf sneckiom.

Sídan fór Hákon konungr nordr aptr till Noregs: enn Eiríks synir dvölldoz þá enn í Danmörk lánga hríd.

## CAP. XXI.

## LAGASETNING HAKONÁR KONUNGS.

Eptir þessa orosto setti Hákon konungr þat í lögom um allt land med siá, oc sva lángt á land upp, sem lax gengr ofarst í vatn, at hann scipadi allri bygd, oc scipti í scipreidor; enn hann scipti scipreidom í fylki. I hverio fylki var þá áqvedit, hverso mörg scip voro, edr hverso stór scylldi útgera or fylki hverio, þá er almenningr væri úti: oc scylldi almenningr vera scylldr út at gera, þegar er útlendr her væri í landi. Þat scylldi oc fylgia útbodi þvi, at vita scylldi gera á hám fiöllom, sva at hvern mætti siá frá ödrom. Segia menn sva, at á VII nóttom fór herbodit frá enom synzta vita, í ena nörzto þínghá á Hálogalandi.

## CAP. XXII.

## FRÁ EIRÍKS SONOM.

Eiriks synir voro miök í hernadi í Austrvegi, enn stundom heriado þeir i Noregi, sva sem fyrr er ritat. Enn er Hákon konungr red Noregi, var þà oc árferd gód í landi, oc gódr fridr; hann var oc hinn vinsælazti. Þá er Hákon hafdi verit konungr i Noregi XX vetur, komo sunnan or Danmörko synir Eiriks, oc höfdo allmikit lid. Þat var mikit lid er þeim hafdi fylgt í hernadi, enn þó var miklo meiri Dana her, er Haralldr konungr Gormson hafdi fengit þeim í hendor; þeir fengo radbyri mikit oc sigldo út af Vendli, oc komo utan at Ögdom; helldo sidan nordr med landi dag oc nótt. Enn vitom var eigi uppscotit fyrir þá söc, at sú var sidvenia at vitar fóro austan eptir landi; enn austr þar hafdi ecki ordit vart vid ferd þeirra. Þat bar oc enn til, at konungr hafdi vidrlög mikil, ef vitar væri rángt uppbornir, þeim mönnom er kunnir oc sannir urdo at þvi: fyrir þá söc, at herscip oc víkingar fóro um úteyar oc hugdo landsmenn, at þar mundo fara synir Eiriks; Vár þá vitom rángt uppscotit, oc vard herlaup um land allt; Enn Eiríks synir fóro aptr til Danmörkor, oc höfdo engan Dana her haft, nema sitt lid. Enn stundom voro þat annarskonar víkingar. Vard Hákon konungr þesso miök reidr, er starf oc fekostnadr vard af þesso, enn ecki gagn. Bændor töldo oc at því fyrir sína hönd, er sva fór; oc var þessi

söc til, er engi niósn fór fyrir um ferd Eirikssona, fyrr enn þeir komo nordr i Ulfasund; þeir lágo þar VII nætor, fór þá niósn et efra um eydit, oc nordr um Mæri. Enn Hákon konungr var þá á Sunnmæri, í ey þeirri er Frædi heitir, þar sem heitir Birkiströnd, at búi síno, oc hafdi eigi lid nema hird sína oc bændor, þá er verit höfdo i bodi hans.

## CAP. XXIII.

## FRÁ AGLI ULLSERC.

Niósnar-menn komo til Hákonar konungs, oc sögdo hanom at Eiríks synir voro med her mikinn fyrir sunnan Stad. Þá let hann kalla til sín þá menn er þar voro vitrastir, oc leitadi ráds vid þá, hvert hann scylldi beriaz vid sono Eiríks, þótt lidsmunr se mikill, edr scyldi hann fara nordr undan, oc fá ser lid meira. Egill Ullserkr er nefndr bóndi einn er þar var; hann var þá gamladr miök, enn hafdi verit meiri oc sterkari hvariom manni, oc hinn mesti orosto madr; hann hafdi lengi borit merki Haralldis konungs hins Hárfagra. Egill svarar rædo konungs: var ec í nockorom orostom med Haralldi konungi fedor ydrom; bardiz hann stundom vid meira lidi, stundom vid minna; hafdi hann iafnan sigr. Alldregi heyrda ec hann leita þess ráds, at vinir hans scylldo kenna hönom at flya: manom ver oc eigi þer þat rád kenna, konungr, þvíat ver þiekiomz eiga höfdingia röscvan: þer sculot oc eiga tra-

usta fylgdina af oss. Margir adrir studdo oc þá þetta mál. Konungr segir oc sva, at hann var þess fúsari, at beriaz med lid þat er tilfengiz. Var þat þá rádit; let konungr þá scera upp herör, oc senda alla vega frá ser, feck hann brátt mikit lid. Þá mællti Egill Ullserer: þat óttudunz ec of hríd, er fridr þessi hinn mikli var, at ec mundi verda ellidaudr inni á pall-strám minom, enn ec villda helldr falla í orosto, oc fylgia höfdingia minom: kann nú oc vera, at sva megi verda, um þat er lykr.

## CAP. XXIV.

## OROSTA VID FRÆDARBERG.

Synir Eiríks helldo nordr um Stad, þegar er leidi gaf. Enn er þeir komo nordr um Stad, þá spyria þeir hvar Hákon konungr var, oc hallda til móts vid hann. Hákon konungr hafdi IX scip; hann lagdiz nordr undir Frædarberg í Freyarsundi; enn Eiríks synir lögdo at fyrir sunnan bergit; þeir höfdo meir enn XX scip. Hákon konungr sendi þeim ord, oc bad þá á land gánga, segir at hann hafdi þeim völl haslat á Rastar-kálfi; þar ero slettir vellir oc miklir, enn fyrir ofan gengr brecka laung oc helldr lág. Gengo Eiríks synir þá af scipom sinom, oc nordr yfir hálsinn, fyrir innan Frædarberg, oc sva fram á Rastarkálf. Þá mællti Egill til Hákonar konungs, bad hann fá ser X menn oc X merki. Konungr gordi sva. Gangr þá Egill med menn sína

upp undir breckuna; enn Hákon konungr geck upp á völlinn med lid sitt, setti upp merki, oc fylkti, oc segir sva: Ver sculom hafa fylking lánga, sva at þeir kríngi eigi um oss, þótt þeir hafi lid meira; gerdo þeir oc sva: vard þar orosta mikil, oc en snarpasta sócn. Egill Ullserkr let þá setia upp merki þau X er hann hafdi, oc scipadi sva mönnom þeim er baro, at þeir scylldo gánga sem næstir breckonni, oc láta stundarhríd í millom hvars þeirra. Þeir gerdo sva, oc gengo fram med breckonni sem næst, sva sem þeir mundo vilia koma á bak þeim Eiríks sonom. Þat sá þeir er efstír stódo í fylking Eiríkssona, at merki mörg fóro ódfluga, oc gnæfo fyrir ofan breckuna, oc hugdo at þar mundi fylgia lid mikit, oc mundi vilia koma á bak þeim, oc milli scipanna. Gerdiz þar þá kall mikit, sagdi hverr ödrom hvat títt var: þvi næst kom flótti í lid þeirra. Enn er þat sá konungarnir þá flydo þeir. Hákon konungr sótti þá hart fram med sínom mönnom, oc ráko þeir flóttann oc felldo lid mikit.

## CAP. XXV.

## FRÁ GAMLA KONUNGI.

Gamli Eiríksson þá er hann kom upp á hálsinn fyrir ofan bergit, þá sneriz hann aptr, oc sá þá at ecki lid fór eptir þeim meira, enn þat er þeir höfdo ádr bariz vidr, oc þetta var prettr einn; þá let Gamli konungr blása herblástr, oc setia upp merki

sitt, oc scaut á fylking: hurfo at því allir Nordmenn, enn Danir flydo til scipanna. Enn er Hákon konungr oc hans lid kom þar at, þá vard þar orosta en snarpasta í annat sinn. Hafdi þá Hákon konungr meira lid; lauk sva at Eiriks synir flydo: sótto þeir þá sudr af hálsinom, enn sumt lid þeirra opadi sudr á bergit, oc fylgdi Hákon konungr þeim. Völlr slettr er austan af hálsinom, oc vestr á bergit, oc þá hamrar brattir vestr af. Þá opodo menn Gamla upp undan á bergit, enn Hákon konungr sótti at þeim sva snarpliga, at hann drap suma, enn sumir hlópo vestr af bergino, oc voro hvarirtveggio drepnir: oc scildiz Hákon konungr sva fremi vid, er hverr madr var drepinn.

## CAP. XXVI.

## FALL GAMLA KONUNGS OC ULLSERCS.

Gamli Eiriksson flydi af hálsinom ofan á iöfno, fyrir sunnan bergit. Þá sneriz Gamli konungr enn í mót, oc hellt upp orosto: kom þá enn lid til hans. Þá komo oc allir brædor hans med miklar sveitir. Egill Ullsercr var þá fyrir Hákonar mönnom, oc veitti harda atgaungo, oc sciptoz þeir Gamli konungr höggom vid; feck Gamli konungr sár stór, enn Egill fell, oc mart lid med hanom. Þá kom at Hákon konungr med þær sveitir er hönom höfdo fylgt; vard þá enn ny orosta. Sótti þá enn Hákon konungr hart fram, oc hió menn til beggia handa

ser, oc felldi hvern yfir annan. Sva segir Guthormr Sindri:

> Hræddr fór hiörva raddar
> her fyrir málma þverri,
> rógeyso geck ræsir
> rádsterer framar. merkiom.
> Gerra gramr í snerro
> geir vífa ser hlífa
> himu er yfrinn gat jöfra
> óds kvánar byr mána.

Eiríks synir sá menn sína alla vega falla fyrir ser, þá snúaz þeir á flótta til scipa sinna; enn þeir er fyrri höfdo flyit á scipin, þá höfdo þeir úthrundit sciponom, enn sum scipin voro þá uppi fiörot. Þá hliópo allir Eiriks synir á sund, oc þat lid er þeim fylgdi. Þar fell Gamli Eiríksson, enn adrir brædor hans nádo sciponom, oc helldo brott sídan med þat lid er eptir var, oc helldo sídan sudr til Danmörkor, oc dvölldoz þar um hríd, oc undo illa vid sína ferd.

## CAP. XXVII.
## HEYGDR EGILL ULLSERCR.

Hákon konungr tók þar scíp þau öll er uppi höfdo fiarat, er átt höfdo Eiriks synir, oc let draga á land upp; þar let Hákon konungr leggia Egill Ullserc í scip, oc med hanom alla þá menn, er af þeirra lidi höfdo fallit, let bera þar at iörd oc griót. Hákon konungr let oc fleiri scip uppsetia, oc bera á valinn, oc ser þá hauga enn fyrir sunnan Frædar-

berg. Eyvindr Skáldaspillir orti viso þessa, þá er Glumr Geirason hældiz í sinni viso um fall Hákonar konungs:

Fyrr rand Fenris varra
flugvarr konungr sparra,
málmhrídar svall meidom
módr í Gamla blódi.
þá er ústirfin arfa
Eirics oc rac geira
nú tregr gæti gauta
grams fall á siá alla.

Háver bautasteinar standa hiá haugi Egils Ullsercs.

## CAP. XXVIII.

## HERSAGA TIL HÁKONAR KONUNGS.

Þá er Hákon konungr Adalsteins fóstri hafdi verit konungr í Noregi XXVI vetor, sídan er Eiríkr bródir hans fór or landi, þá vard þat til tídinda, at Hákon konungr var staddr á Hördalandi, oc tók veizlo í Stord á Fitiom; hafdi hann þar hird sína oc bændor marga í bodi sino. Enn er konungr sat yfir Dagverdar bordi, þá sá vardmenn, er úti voro, at scip mörg sigldo sunnan, oc átto eigi lángt til eyarinnar. Þá mællti hverr vid annan, at segia scylldi konungi, at þeir hugdo, at her mundi at þeim fara; enn þat þótti engom dælt, at segia konungi hersögo; þviat hann hafdi þar mikit vidlagt, hveriom er þat gerdi. Enn þat þótti þo úgeranda, at konungr vissi eigi þetta. Þà gengr einnhverr

þeirra inn í stofona, oc bad Eyvind Finnsson gánga út med ser sciótt, segir at hin mesta naudsyn var á. Eyvindr geck þegar þannig, er siá mátti til scipanna; þá sá hann þegar, at þar fór her mikill; Geck aptr þegar í stofono, oc fyrir konung oc mællti: lítil er lídandi stund, enn laung matmáls stund. Konungr leit móti hanom, oc mællti: hvat ferr? Eyvindr qvad:

Blódöxar tiá ec beida
bryn þíngs fetil stínga
oss geraz hnept ens hvassa
hefnendr seto efni:
helldr er vant, enn ec villda
veg þinn, konungr, segia,
farom til fornra vapna
fliótt hersögo drottni.

Konungr segir: Erto sva gódr drengr, Eyvindr, at þú mant eigi hersögo segia, nema sönn se. Þá segia margir, at sú saga se sönn. Let þá konungr taka ofan bordin; geck hann þá út oc sá til scipanna, sá þeir þá at þat voro herscip. Konungr spyr þá menn sína, hvert rád taka scylldi; hvert beriaz skuli med lid þar er þeir hafa, eda gánga til scipa, oc sigla nordr undan. Er oss þat audsætt, segir hann, at ver munom nú beriaz vid lidsmon miklo meira, enn fyrr höfom ver átt, oc hefir oss þó iafnan þótt mikill misiafnadr lids vars þá er ver höfom orosto átt vid sono Gunnhilldar. Menn veitto her eigi sciótan orscurd; þá svarar Eyvindr máli konungs:

Samira niördr enn nordar
naddregns hvötom þegni
ver getom bili at bölva
bordmærar skæ fiera:
nú er þat er rekr á rakna
rymleid flota breidan
grípom ver í greipar
gunnbord Haralldr sunnan.

Konungr svarar: Raustliga er þetta mællt, Eyvindr, oc nær scaplyndi mino; enn þó vil ec heyra fleiri manna úrscurd of þetta mál. Enn er menn þóttoz skilia hverso konungr villdi vera láta, þá svörudo margir, at helldr villdo falla med drengscap, enn flya fyrir Dönom, at úreyndo; sögdo at opt höfdo þeir sigr fengit, þá er þeir höfdo bariz vid minna lid. Konungr þackadi þeim vel ord sín, oc bad þá vapnaz; oc sva gera menn. Konungr steypir brynio á sic, oc gyrdir sic med sverdino kvernbít, setr á höfot ser hiálm gullrodinn, tekr kesio í hönd ser, oc sciölld á hlid. Þá scipar hann hirdinni í eina fylking, oc böndom þar med, oc setti upp merki sín.

## CAP. XXIX.

## FRÁ FYLKINGU EIRÍKSSONA.

Haralldr konungr Eiríksson var þá höfdingi yfir þeim brædrom eptir fall Gamla: þeir brædur höfdo þar her mikinn sunnan af Danmörk. Þar voro þá í lidi med þeim módorbrædor þeirra, Eyvindr Screya oc Alfr Ascmadr; þeir voro sterkir menn oc raustir, oc hinir mesto manndrápa menn. Eiriks

synir helldo scipom sínom til eyarinnar, oc gengo á land upp, oc fylkto, oc er sva sagt, at eigi væri minni lidsmunr, enn VI menn mundo vera um einn, at Eiriks synir mundo fiölmennari.

## CAP XXX.

## FRÁ FYLKINGO HÁKONAR KONUNGS.

Hákon konungr hafdi þá fylkt lidi síno, oc segia menn sva, at hann steypti af ser brynionni, ádr orostan tókz. Sva segir Eyvindr Scálldaspillir í Hákonar málom (vid. vers. II. III. IV. Cap. XXXIII). Hákon konungr valdi menn miök i hird med ser, at afli oc reysti, sva sem gört hafdi Haralldr konungr fadir hans. Þórálfr inn sterki Skolmsson var þar, oc geck á adra hlid konungi; hann hafdi hiálm oc sciölld, kesio oc sverd, þat er kallat var Fetbreidr. Þat var kallat, at þeir Hákon væri jamsterkir: þess getr Þordr Siáreksson, í drápo þeirri, er hann orti um Þórálf:

Þar er bödhardir bördoz
bandz ió draugar landa,
lystr geck her til hiörva
hnitz, í Stord á Fitiom:
Oc gymsleyngvir ganga
gifrs hlemána drífo
nausta blacs et næsta
Nordmanna gram þordi.

Enn er Fylkingar gengo saman, vard þar orosta hörd oc mannscæd. Enn er menn höfdo scotit spió-

tom

tom, þá brugdo menn sverdom, geck þá Hákon konungr, oc Þóralfr med hanom, fram um merkin, oc hiuggo til beggia handa. Sva segir Eyvindr Skállda-spillir í Hakonar málom. (vid. vers. V. VI. Cap. XXXIII).

## CAP. XXXI.

## FALL EYVINDAR SKREYO OC ALFS ASKMANNS.

Hákon konungr var audkendr, meir enn adrir menn; lysti oc af hiálminom, er sólin skein á: var vapnaburdr mikill at hanom. Þá tók Eyvindr Finnsson hött, oc setti yfir hiálm konungs. Eyvindr Skreya kalladi þá hátt: leyniz Nordmanna konungr nú? edr hefir hann flyit, edr hvar er nú gullhiálmrinn? Eyvindr geck þá fram, oc Alfr bródir hans med hanom, oc hioggo til beggia handa, oc léto sem ódir eda galnir væri. Hákon konungr mællti hátt til Eyvindar: hallto sva fram stefnunni ef þú villt finna Nordmanna konung. Sva segir Eyvindr Skálldaspillir:

Badat valgrindar vinda
vedr beyandi Skreyo
gumnom hollr ne galli
gefnar sinni stefno.
Ef svipkenni svinnan
sigr minnigr villt finna,
fram hallto niótr at nytom
Nordmanna gram þannig.

Var þá oc scamt at bída, ádr Eyvindr kom þar oc reiddi upp sverdit, oc hió til konungs. Þórálfr scaut vid hanom scildinom, oc stakradi Eyvindi vid: enn konungr tók sverdit kvernbít tveim höndom, oc hió til Eyvin-

dar ofan í hiálminn, oc klauf hiálminn oc höfudit allt í herdar nidr. Þá drap Þórálfr Alf Ásemann. Sva segir Eyvindr Skalldaspillir:

Veit ec at beit hinn bitri
byggving medal dyggvan
búlca scíds or bádom
benvöndr konungs höndom.
Ufælinn klauf ála
eldraugr scarar hauga
gullhiölltodom galltar
grandrádr Dana brandi.

Eptir fall þeirra brædra geck Hákon konungr sva hart fram, at þá hröck allt fólk fyrir hanom. Slær þá í lid Eiríks sona felmt oc flótta því næst: enn Hákon konungr var í öndverdri sinni fylkingo, oc fylgdi fast flóttamönnom, oc hió titt oc hart: þá flaug ör ein, er fleinn er kalldr, oc kom í handlegg Hákoni konungi, upp í músina, fyrir nedan öxl. Oc er þat margra manna sögn, at scósveinn Gunnhilldar, sá er Kispingr er nefndr, lióp fram í þysinom, oc kalladi: gefit rúm konungs bananom, oc scaut fleininom til Hákonar konungs. Enn sumir segia, at engi viti hverr scaut: má þat oc vel vera, þvíat örvar oc spiót oc allskonar scotvopn flugo sva þyckt, sem drífa. Fiölldi manns fell af Eiríks sonom, bædi á vigvellinom, oc á leid til scipanna, oc sva í fiörunni; oc fiölldi lióp á kaf. Margt komz á scipin, allir Eiríks synir, oc rero þegar undar, enn Hákonar menn eptir þeim. Sva segir Þordr Siáreksson:

Vardi varga myrdir
vítt, sva skal frid slíta

iöfor villdot þann elldaz,
öndvert fólk at löndom.
Starf hófz upp þar er aifi
ótta vanr á flótta
gulls, enn gramr var fallinn,
Gunnhilldar kom sunnan.

Þrótt var synt þar er settoz
sinn ródrs vid þröm stinnan,
madr let önd oc annarr,
ófár búendr sárir.
Afreks veit þat er iöfri
allríkr í styr slíkom
göndlar niördr sá er gerdi
geck næst, hugins drecko.

## CAP. XXXII.

## DAUDI HÁKONAR KONUNGS.

Hákon konungr geck út á skeid sína, let þá binda sár sitt, enn þar rann blód sva mikit, at eigi feck stödvat. Oc er áleid dag, þá úmætti konung. Segir hann þá mönnom sínom, at hann vill fara nordr á Alrekstadi, til bús síns. Enn er þeir komo nordr at Hákonarhello, þá lögdo þeir þar at, oc var þá konungr nær lifláti; kalladi hann þá til sín viní sina, oc segir þeim skipan þá er hann vill gera of ríkit; hann átti dóttor eina barna, er Þóra er nefnd, oc eingan son; hann bad þá senda þau ord Eiriks sonom, at þeir scylldo konungar vera yfir landi; enn hann bad af þeim vireta vinom sínom oc frændom. Enn þótt mer verdi lífs audit, segir hann, þá man ec af landi fara til kristinna manna, oc

bæta þat er ec hefi brotit vid Gud: Enn ef ec dey her í heidni, þá veiti mer her gröpt þann er ydr syniz. Littlo sídar andadiz Hákon konungr, þar á hellunni, sem hann hafdi fæddr verit. Hákon konungr var sva miök harmadr, at bædi vinir oc úvinir greto dauda hans, oc kölludo at eigi mundi iafngódr konungr koma aptr í Noreg. Vinir hans flutto lík hans nordr á Sæheim á Nordrhördaland, oc urpo þar haug mikinn, oc lögdo þar í konung med alvæpni sitt, oc hinn besta búnad sinn, enn ecki fe annat. Mællto þeir sva fyrir grepti hans, sem heidinna manna var sidr til; oc vísodo honom til Valhallar.

## CAP. XXXIII.

## HÁKONAR-MÁL.

Eyvindr Skalldaspillir orti qvædi eitt um fall Hákonar konungs, oc sva þat, hverso hönom var fagnat í Valhöll; þat ero köllot Hákonar-mál, oc er þetta Upphaf:

I. Göndol oc Scögol
sendi Gauta Tyr
at kiósa of konunga,
hverr Yngva ættar
scylldi med Odni fara,
í Valhöll at vera.

II. Bródor fundo þar Biarnar
í bryuio fara,
konung hinn kóstsama
komimn und gunnfána;

drupdo dólgar,
enn darrar hristiz,
upp var þá
hilldr of hafin.
III. Het á Hólmrygi,
sá er her kallar,
Jarla einbani,
fór til orosto.
Gott hafdi hinn giöfli
gengi Nordmanna,
ægigir Ey-dana,
stód und ár hiálmi.
IV. Hrandz or hervádom,
hratt á völl brynio,
vísi verdungar,
ádr til vígs tæki.
Lek vid liódmögo,
scylldi land veria,
gramr hinn gladværi
stód und gull-hiálmi.
V. Sva beit þá sverd
or Siklings hendi
vadir vafadar
sem í vatn brygdi.
Brökodo broddar,
brotnodo scildir,
glumrudo glym-ríngar
í gotna hausom.
VI Tröddoz törgor
fyrir tys oc bauga
hiallta hardfótom
hausar Nordmanna.
Róma vard í eyo,
rudo konungar
seírar scialldborgir
í scatna blódi.

VII. Brunno ben-elldar
í blódgom undom;
luto laugbardar
at lyda fiörvi.
Svarradi sár gymir
á sverdanesi;
fell flód fleina
í fiöro Stordar.
VIII. Blendoz vid rodnar
und randar himni,
Scöglar vedr leko
vid scys um bauga;
umdo odd-lár
í Odins vedri,
hneig mart manna
fyrir mækis straumi.
IX. Sáto þá döglingar
med sverd um togin,
med scarda sciölldo
oc scotnar brynior;
vara sá her í hugom
er átti til Val-hallar vega.
X. Gondol þat mælti,
studdiz geir scapti:
vex nú gengi Goda,
er Hákoni hafa
med her mikinn
heim bönd of bodit.
XI. Vísir þat heyrdi
hvat Valkyrior mæltò
mærar af mars baki:
hyggiliga leto,
oc hiálmadar sáto
oc höfdoz hlífar fyrir.
XII. Hví þú sva gunni (qvad Hákon)
sciptir Geirscögol,

værom þó verdir gagns fra Godom;
Ver því völldom (qvad Scögol)
er þú velli hellz,
enn þinir fiandr flugo.
XIII. Rída ver nu seulom,
(qvad hin ríka Scögol)
græna heima Góda,
Odni at segia
at nú mun allvalldr koma
oc hann siálfan at siá.
XIV. Hermódr oc Bragi
(qvad Hropta Tyr)
gángit í gögn grami;
þvíat konungr ferr,
sá er kappi þyckir,
til hallar hinnig.
XV. Ræsir þat mælti,
var frá rómo kominn,
stöd allr í dræra drifinn:
illúdigr miök
þickir oss Odinn vera
siám ver hans of hugi.
XVI. Einheria grid
skallt þú allra hafa,
þigg þú at Asom öl;
Jarla bægi,
þú átt inni her
átta brædor, (qvad Bragi.)
XVII. Gerdar várar
(qvad hinn gódi konungr)
viliom ver siálfir hafa:
hiálm oc brynio
skal hirda vel;
gott er til geirs at taka:
XVIII. Þá þat kyndiz;
hve sá konungr hafdi

vel of þyrmt veom,
er Hákon bádo
heilan koma
rád öll oc regin.
XIX. Gódo dægri verdr
sá gramr of borinn,
er ser getr slíkan sefa;
hans alldar
æ mun vera
at gódo getit.
XX. Man ó-bundinn
á yta siót
Fenris-úlfr of fara,
ádr jafn-gódr
á auda tröd
konung madr komi.
XXI. Deyr fe,
deya frændor,
eydiz land oc lád:
siti Hákon
med heidin god:
mörg er þiód of þiád.



V.

# SAGA AF HARALLDI KONUNGI GRAFELLD OC HAKONI JARLI SIGUDAR SYNI.

## CAP. I.

### FRÁ UPPHAFI EIRIKS SONA, OC EYVINDI SKALLDASPILLI.

Eiríks synir tóko þá konungdóm yfir Noregi, sídan er Hákon konungr var fallinn: var Haralldr mest fyrir þeim brædrom at virdingo, oc hann var ellztr þeirra er þá lifdo. Gunhilldr módir þeirra hafdi miök landrád med þeim; hon var köllot konungamódir. Þá voro höfdingiar í landino, Tryggvi Olafsson austr í landi, oc Gudrodr Biarnarson á Vestfolld, Sigurdr Hlada Jarl í Þrándheimi: enn Gunnhilldar synir höfdo mittland hinn fyrsta vetr. Þá fóro ord oc sendimenn milli Gunnhilldarsona, oc þeirra Tryggva oc Gudrodar, oc var þar allt mællt til sætta, at þeir scylldo hafa þvílikan lut ríkis af Gunhilldar sonom, sem þeir höfdo ádr haft af Há-

koni konungi. Glúmr Geirason er madr nefndr, hann var scálld Harallds konungs, oc reysti-madr mikill; hann orti víso þessa eptir fall Hákonar konungs:

Vel hefir hefnt, en hafna
hiörs ben draugar fiörvi
folkrackr of vant fylkir
framlict, Haralldr Gamla.
Er döckvalir drecka
dólg brands, fyrir ver handan
rodinn frá ec raudra benia
reyr, Hákonar dreyra.

þessi vísa vard allkær. Enn er þetta spyr Eyvindr Finnsson, qvad hann víso, er fyrr er ritin:

Fyrr raud Fenris varra &c. (Cap. XXVII. Sag. Hakon. God.)

Var sú vísa oc miök flutt. Enn er þat spyrr Haralldr konungr, þá gaf hann þat Eyvindi at dauda sök, allt til þess er vinir þeirra sætto þá, med því at Eyvindr scylldi geraz scálld hans, sva sem hann hafdi ádr verit scálld Hákonar konungs. Var frændsemi þeirri mikil, sva at Gunnhilldr var módir Eyvindar, dóttir Hálfdanar Jarls; enn módir hennar var Ingibiörg, dóttir Harallds konungs ens Hárfagra: þá orti Eyvindir viso um Haralld konung:

Lítt qvádo þic láta
landvöi dr er brast Hörda
brynio hágl í beniom
buggoz álmar, ged fálma.
þá er úfolginn ylgiar
endr or þinni hendi
Fetla svell til fyllar
full egg, Haralldr, gullo.

Gunnhilldar synir sáto mest um mitt land, þvíat bædi þótti þat eigi trúlict, at sitia undir hendi Þrændom, edr Vikveriom, er mestir höfdo verit vinir Hákonar konungs; enn Stórmenni mart var i hvaromtveggia stad. Þá fóro menn med sættarbodom í milli þeirra Gunhilldar sona oc Sigurdar Jarls; þvíat þeir fengo engar scylldir ádr or Þrándheimi, oc vard þat at lyktom, at þeir gerdo sætt sína konungar oc Jarl, oc bundo þat svardögom. Scylldi Sigurdr Jarl hafa ríki slíkt af þeim í Þrándheimi, sem hann hafdi fyrr haft af Hákoni konungi; voro þeir þá sáttir kalladir. Allir synir Gunnhilldar voro kalladir menn sínkír, oc var þat mællt, at þeir fæli lausa fe í iördo. Um þat orti Eyvindr Skalldaspillir víso:

Bárom ullr of alla
ímon lauks á hauka
fiöllom Fyrisvalla
fræ Hákonar æfi.
Nú hefir Fólk-strídir Fróda
fáglyadra þya
melldr í módor holldi
mello dólgs of fólginn.

Oc enn:

Fyllar scein á fiöllom
fallsól braa vallar
ullar kiöls of allan
alldr Hákonar scálldom.
Nú er álfrödoll elfar
jötna dólgs of fólginn,
rád ero ramrar þiódar
rík, í módor líki.

þá er Haralldr konungr spyurdi um vísor þessar satt, þá sendi hann ord Eyvindi at hann scylldi koma á sinn fund. Enn er Eyvindr kom á konungs fund, þá bar konungr sakar á hann, oc kalladi hann vera úvin sinn, oc samir þer þat illa, segir han, at veita mer útrúnat, þvíat þú hefir ádr gerzt minn madr. þá qvad Eyvindr víso:

Einn drottinn hefi ec áttan,
jöfr dyrr, enn þic fyrrí,
bellr bragningr elli,
bid ec eigi mer ens þridia.
Trúr var ec tiggia dyrom,
tveim sciölldom lek ec alldri,
fylli ec flock þinn stillir,
fellr á hönd mer elli.

Haralldr konungr let Eyvind festa ser fyrir mál þetta sinn dóm. Eyvindr átti gullhríng mikinn oc gódan, er kalladr var Molldi; hann hafdi verit tekinn laungo ádr or iördo; hring þann segir konungr at hann vill hafa, oc var þá eigi annarr kostr á. þá qvad Eyvindr:

Skyllda ec skeria folldar
scídrennandi sídan
þursa bæs fyrir þvísa
þinn gódan byr finna.
Er valiardar verdom
veliandi, þer selia
lyngva mens þat er lengi
láttr, minn fadir átti.

Fór þá Eyvindr heim, oc er eigi þess getit, at hann findi Haralld konung sídan.

## CAP. II.

## FRÁ GUNNHILLDAR SONOM OC CRISTNI-HALLDI ÞEIRRA.

Gunnhilldar synir tóko cristni á Englandi, sem fyrr var ritit; enn er þeir komo til forráda í Noregi, þá fengo þeir eigi áleidis komit at cristna menn í landino; enn allt þar er þeir komo því vid, þá bruto þeir nidr hof, oc spillto blótom, oc fengo af því mikla úvinátto. Var þat brátt á þeirra dögom, at árferd spilltiz í landino, þvíat konungar voro margir, oc hafdi hverr þeirra hird um sic; þurfto þeir mikils vid oc um kostnad, oc voro þeir inir fegiörnzto. Enn ecki helldo þeir miök lög þau er Hákon konungr hafdi sett, nema þat er þeim þótti fellt. Þeir voro allir hinir friduzto menn, sterkir oc stórir, íþróttamenn miklir. Sva segir Glúmr Geirason í drápo þeirri er hann orti um Haralld Gunnhilldarson:

Kunni XII sá er tanna
tídom halliu-scída
ógnar stafr of iöfra
íþróttir fram sótti.

Optliga fóro þeir brædor allir saman, enn stundom ser hverr: þeir voro menn grimmir oc raustir, orosto-menn miklir, oc miök sigrsælir.

## CAP. III.

## RÁÐAGIÖRD GUNNHILLDAR OC SONA HENNAR.

Gunnhilldr konungamódir oc synir hennar voro

opt á tali oc málstefnom, oc redo landrádom. Oc eitt sinn spyr Gunnhilldr sono sína: hvernig ætli þer at láta fara um ríki í Þrándheimi? þer berit konunga nöfn, sva sem fyrr höfdo haft lángfedgar ydrir, enn þer hafit litit lid oc land, oc erot margir til sciptis. Vikina austr hafa þeir Tryggvi oc Gudrödr, oc hafa þeir þar nockora tilltölo, fyrir ættar sakir. Enn Sigurdr Jarl rædr einn fyrir öllom Þrændalögom, oc veit ec eigi hver scyllda ber till þess, at láta Jarl einn ráda ríki sva mikio undan ydr. Þycki mer þat undarlict, er þer farit hvert sumar í víking á önnor lönd, enn látit Jarl innanlands taka af ydr födor-leifd ydra. Litit mundi Haralldi konungi þyckia, er þú ert eptir heitinn, födor-födor þinom, at setia Jarl einn af ríki oc lifi, er hann vann allan Noreg undir sie, oc red sidan til elli. Haralldr svarar: þat er eigi sva módir, sagdi hann, audvellt, at taka Sigurd Jarl af lifdögom, sem at skera kid eda kálf; Sigurdr Jarl er ættstór oc frændmargr, vinsæll oc vitr; vætti ec, ef hann spyrr at sönno, at hann á úfridar van af oss, þá ero þar allir Þrændir sem hann er. Eigo ver þar þá ecki erindi nema íllt eitt. Litz mer sva sem engom varom brædra þycki tryggt, at sitia undir hendi þeim Þrændom. Þá segir Gunnhilldr: ver skulom þá fara allt annan veg med varo rádi, gera oss minna fyrir. Haralldr oc Erlingr skulo sitia í haust á Nordmæri, má ec oc fara med ydr: skulo ver þá öll saman freista hvat atsysliz. Nú gera þau á þessa leid.

## CAP. IV.

## RÁDAGERD GUNNHILLDAR SONA OC GRIÓTGARDS.

Bródir Sigurdar Jarls het Griótgardr; hann var yngri miklo þeirra, oc virdr minna, hafdi hann oc eigi tignar-nafn; enn hann hellt þó sveit, oc var í víking á sumrom, oc feck ser fiár. Haralldr konungr sendi menn inn í Þrándheim á fund Sigurdar Jarls, med vingiöfom oc vinmælom. Sendimenn sögdo, at Haralldr konungr vill leggia vid hann þvilika vinátto, sem ádr hafdi Hákon konungr haft vid Sigurd Jarl. Þat fyllgdi oc ordsendingo, at Jarl scylldi koma á fund Harallds konungs, scylldo þeir þá binda at fullo vinátto sína. Sigurdr Jarl tók vel sendimönnom oc vinátto konungs, enn segir at hann mætti eigi fara á fund konungs fyrir fiölscylldom sínom: enn sendi konungi vingiafir oc ord gód oc blid í móti vinátto hans; Fóro sendimenn í brott. Þeir fóro oc á fund Griótgards, oc flutto til hans et sama erindi, vinátto Harallds konungs oc heimbod, oc þar med gódar giafir. Enn er sendimenn fóro heim, þá het Griótgardr ferd sinni: oc at áqvednom degi kemr Griótgardr á fund Harallds konungs oc Gunnhilldar; var þar vid hönom tekit allfeginsamliga. Var hann þar hafdr í enom mistom kærleikom, sva at Griótgardr var hafdr vid einka mál, oc marga leynda luti: kemr þar nidr, at sú ræda var uppi höfd til Sigurdar Jarls, sem þau höf-

do ádr samit konungr oc drottning: töldo þau fyrir Griótgardi, hverso Sigurdr Jarl hafdi hann lengi litinn mann gervan; edr hvert hann mundi vilia fara at Jarli med þeim brædrom. Enn ef hann villdi vera í þesso rádi med þeim, þá segir konungr, at Griótgardr scylldi vera Jarl hans, oc hafa ríki þat allt er ádr hafdi Sigurdr Jarl haft: kom sva, at þau sömdo þetta med einka málom, at Griótgardr scylldi hallda niósn til, nær likaz væri at veita atferdr Sigurdi Jarli, oc gera þá ord Haralldi konungi. Fór þá Griótgardr heim vid sva búit, oc þá gódar giafir af konungi.

## CAP. V.

## BRENNA SIGURDAR JARLS.

Sigurdr Jarl fór um haustit inn í Stióradal, oc var þar á veizlom; þadan fór hann út á Oglo, oc scylldi þar taka veizlor. Jarl hafdi iafnan mikit fiölmenni med ser, þviat hann trúdi illa konungom. Enn med því, at þá höfdo farit vinátto mál med þeim Haralldi konungi, þá hafdi hann nú ecki mikla sveit manna. Griótgardr gerdi þá niósn Harallds konungs, at eigi mundi í annat sinn vænna at fara at Jarli; oc þegar á sömo nótt fóro þeir konungarnir Haralldr oc Erlingr inn eptir Þrándheimi, oc höfdo scip IV oc lid mikit; sigla inn um nóttina vid stiörnoliós; kom þá Griótgardr til móts vid þá; komo

þeir

þeir ofanverda nótt á Oglo, þar sem sigurdr Jarl var á veizlo. Þeir lögdo þar elld í hús, oc brendo bæinn, oc Jarl inni, med öllo lidi sino; fóro braut þegar árdegis um morguninn, út eptir firdi, oc sva sudr á Mæri, oc dvölldoz þar lánga hríd.

## CAP. VI.
## UPPHAF HÁKONAR JARLS SIGURDAR SONAR.

Hákon sonr Sigurdar Jarls, var þá inn í Þrándheimi, er hann spurdi þessi tídindi. Var þegar herhlaup mikit um allan Þrándheim; var þar á vatn dregit hvert scip, er herfært var. Enn er her sá kom saman, þá tóko þeir til Jarls oc höfdingia yfir lidit Hákon, son Sigurdar Jarls: helldo þeir lidi því út eptir Þrándheimi. Enn er þetta spyria Gunnhilldar synir, þá fara þeir sudr í Raumsdal, oc á Sunnmæri; hallda þá hvarir niósnom til annara. Sigurdr Jarl var drepinn II vetrom eptir fall Hákonar konungs. Eyvindr Skalldaspillir segir sva í Háleygia-tali:

Oc Sigurd hinn
er svönom veitti
hróca biór
haddingia vals,
farma tys
fiörvi næmdo
jardrádendor
á Ogloe.

Oc ödlingr
í ölou iardar
álnar orms
ófælinn vard
lífs of lattr;
þar er landrecar
Tys áttung
í trygd sviko.

Hákon Jarl hellt þrándheimi med styrk frænda sinna þriá vetr, sva at Gunnhilldar synir fengo engar tekior í þrándheimi. Hákon átti margar orostor vid Gunnhilldar syni, oc drapoz marga menn fyrir hvaromtveggiom. þess getr Einar Skálaglam í Velleklo, er hann orti um Hákon Jarl:

Oc oddneytir úti
eidvandr flota breidan,
gladr í Göndlar vedrom
gamr svafdi bil, hafdi.
Oc raud mána reynir
rógsegl Hedins bóga
upphóf iöfra kappi
etio lund at setia.

Oc enn qvad hann:

Varat of byriar örva
odda vífs ne drífo
sverda sverri fiardar
svan glyadi at frya.
Brak-rögnir scók bogna
barg óþyrmir varga
hagl or Hlackar seglom
hiörs racliga fiörvi.
Mart vard el ádr ála
austr lönd at mun banda
randar lauks af ríki
ræki lundr of tæki.

Enn getr Einar, hvernog Hákon Jarl hefndi födor sins:

> Ber ec fvrir hefnd þá er hrafna
> hlióms lof toginn scióma
> þat nam vördr at vinna
> vann sins födor hranna.
> Rigudi hiörs af hersa
> hrídremmis fiör vida
> þrimlundr ofióc þundi
> þegns gnótt oc menn regni.
> Oc halldvidr höllda
> haf Faxa let vaxa
> lausa vedr at lifom
> lifkölld Hárs í drífo.

Eptir þetta fóro milli beggia vinir, oc báro sættarord milli þeirra, þvíat bændom leiddiz hernadr oc úfridr innanlands; oc kemr sva med rádi vitra manna, at sætt var görr milli þeirra, sva at Hákon Jarl scylldi hafa þvílict riki í þrándheimi, sem hafdi Sigurdr Jarl fadir hans; enn konungar scylldo hafa þvílict ríki, sem Hákon konungr hafdi haft fyrir þeim, oc var þat þá bundit fullom trúnadi. Þá gerdiz kærleikr mikill med þeim Hákoni Jarli, oc Gunnhilldi, oc stundom beittoz þau velrædom; leid sva fram adra III vetor; sat þá Hákon um kyrt í ríki síno.

## CAP. VII.

## FRÁ GRÁFELLD.

Haralldr konungr sat optaz á Hördalandi oc Rogalandi, oc sva þeir fleiri brædor; þeir sáto optliga

í Hardangri. Þat var á eino sumri, at hafscip kom af Islandi, er átto Islendskir menn; þat var hladit af varar-felldom, oc helldo þeir scipino til Hardangrs, þvíat þeir spurdo at þar var fiölmenni mest fyrir. Enn er menn komo til kaupa vid þá, þá villdi engi kaupa varar-felldina. Þá fer styrimadr á fund Harallds konungs, þvíat hönom var hann ádr málkunnigr, oc segir hanom til þessa vandræda. Konungr segir at hann mun koma til þeirra, oc hann gerir sva. Haralldr konungr var madr litillátr, oc gledimadr mikill; hann kom med scúto alscipa, oc leit á varning þeirra, oc mællti vid styrimann: villto gefa mer einn gráfelldinn? Giarna, segir styrimadr, þótt fleiri væri. Þá tók konungr einn gráfelldinn, oc scicti sic; sidan geck hann ofan í scutuna. Enn ádr þeir rero í brott, hafdi hver hans manna felld keyptan. Fám dögom sidar kom þar sva mart manna þeirra, er hver villdi felld kaupa, at eigi fengo hálfir þeir er hafa villdo. Sídan var hann kalladr Haralldr Gráfelldr.

## CAP. VIII.

## FÆDDR EIRÍKR JARL.

Hákon Jarl fór einn vetr til Upplanda, oc á nockora gisting; þá vard sá atburdr, at hann lagdiz med kono einni, oc var sú litillar ættar. Enn þá er þadan lido stundir, geck sú kona med barnir; enn er barn þat var alit, var þat sveinn, oc var

vatni ausinn, oc kalladr Eirikr. Módirin flutti sveininn til Hákonar Jarls, oc segir at hann var fadirinn. Jarl let sveininn uppfædaz med manni þeim er kalladr var Þórleifr hinn Spaki; hann bió upp í Medaldal; hann var ríkr madr oc audigr, oc vin mikill Jarls. Var Eirikr brátt mannvænn, hinn fridasti synom, mikill oc sterkr snemma. Jarl let fátt um til hans. Hákon Jarl var allra manna frídastr synom, ecki hárr madr, vel sterkr, oc íþróttamadr mikill, spakr at viti, oc hermadr hinn mesti.

## CAP. IX.

## DRÁP TRYGGVA KONUNGS.

Þat var á eino hausti at Hákon Jarl fór til Upplanda; enn er hann kom út á Heidmörk, þá kemr þar í móti hönom Tryggvi konungr Olafsson, oc Gudrödr konungr Biarnarson, þar kom oc Dala-Gudbrandr. Þeir átto stefnolag med ser, oc sáto lengi á einmæli, enn þat kom upp, at hverr þeirra scylldi vera vin annars, oc sciliaz sidan; fór hverr heim til sins ríkis. Þetta spyrr Gunnhilldr oc synir hennar, oc er þeim grunr á, at þeir muni hafa gert landrad nockor vid konungana; tala þau optliga sín á milli. Enn er varadi, þá lysa þeir Haralldr konungr oc Gudrödr konungr bródir hans því, at þeir mano fara í víking um sumarit vestr um haf, edr í austrveg, sem þeir voro vanir. Þá draga þeir lid at ser, oc hrinda scipom á vatn, oc búaz sidan. Enn er þeir drucko brottferdar-öl sitt, þá voro dryckior miklar, oc mart

mællt vid dryckinn; þá kom þar er mannjafnadr vard, oc þá var rætt um konunga siálfa. Mællti madr, at Haralldr konungr væri framastr þeirra brædra at öllom lutom. Því reiddiz Gudrödr konungr miök, segir sva, at hann scal í engo hafa minna lut, enn Haralldr; segir, at hann er búinn at þeir reyni þat. Var þá brátt hvarrtveggi þeirra reidr, sva at hvarr baud ödrom til vigs, oc hlióро til vapna. Enn þeir er vitrir voro, oc midr drucknir, stödvado þá, oc hlióро í milli þeirra; Fóro þá hvarir til scipa sinna, enn engi var van þá, at þeir mætti allir saman fara. Sigldi þá Gudrödr austr med landi, enn Haralldr stefndi til hafs út, oc sagdi at hann mundi sigla vestr um haf. Enn er hann kom út um eyar, þá stefndi hann austr med landi hafleid. Gudrödr konungr sigldi þiódleid austr til víkor, oc sva austr yfir Folldina. Þá sendi hann Tryggva konungi ord, at hann scylldi koma til móts vid hann oc færi þeir bádir um sumarit i austrveg at heria. Tryggvi konungr tok því vel oc likliga; hann spurdi at Gudrödr konungr hafdi litit lid; fór þá Tryggvi konungr á fund hans med eina scúto. Þeir funnoz fyrir austan Sótanes vid Veggina. Enn er þeir gengo á málstefno, þá hlióро at menn Gudrödar konungs, oc drápo Tryggva konung, oc XII menn med hanom; oc liggr hann þar sem nú er kallat Tryggva hrer.

## CAP. X.

## FALL GUDRÖDAR KONUNGS.

Haralldr konungr sigldi miök útleid; hann stefndi

inn í Víkina, oc kom um nótt til Tunsberg, þá spurdi hann at Gudrödr var á veizlo þar scamt upp á land. Fóro þeir Haralldr konungr upp þannog, komo þar um nottina, oc taka hús á þeim. Þeir Gudrödr konungr ganga út; vard þar skömm vidrtaka, ádr Gudrödr konungr fell, oc mart manna med hanom. Ferr þá Haralldr konungr í brott til fundar vid Gudröd konung bródir sinn, leggia þeir þá undir sic Víkina alla.

## CAP. XI.

## FRÁ HARALLDI GRENSKA.

Gudrödr konungr Biarnarson hafdi ser fengit gott qvanfáng oc maklict: þau átto son er Haralldr het; hann var sendr til fósturs upp á Grenland til Hróa ens Hvita, lendsmanns; son Hróa var Hrani hinn Vidförli; voro þeir Haralldr miök iafnalldrar oc fóstbrædor. Eptir fall Gudrödar födor síns flydi Haralldr, er kalladr var hinn Grensci, fyrst til Upplanda, oc med hönom Hrani fostbródir hans, oc fáir menn med þeim; dvalldiz Haralldr þar um hríd med frændom sínom. Eiríks synir leitodo miök eptir þeim mönnom, er í söcom voro bundnir vid þá, oc þeim öllom mest, er þeim var uppreistar af ván. Þat redo Haralldi frændor hans oc vinir, at hann færi or landi í brott. Haralldr Grensci fór þá austr til Svíþiódar, oc leitadi ser scipanar, at koma ser í sveit med þeim mönnom, er í hernad fóro at afla

ser fiár: Haralldr var hinn gerviligsti madr. Tosti het madr í Svíþiód, er einn var ríkastr oc göfgastr í því landi, þeirra, er eigi bæri tignarnafn. Hann var hinn mesti hermadr, oc var laungom í hernadi; hann var kalladr Scöglar-Tosti. Haralldr Grensci kom ser þar í sveit, oc var med Scöglar-Tosta um sumarit í víkingo, oc virdiz Haralldr hveriom manni vel. Haralldr var eptir um vetrinn med Tosta. Haralldr hafdi verit II vetor á Upplöndom, enn V vetor med Tosta. Sigrídr het dóttir Tosta, úng oc fríd, oc svarkr mikill; hun var sídan gipt Eiríki Svíakonungi inom Sigrsæla, oc var þeirra son Olafr Sænski, er sídan var konungr í Svíþiód. Eiríkr konungr vard sóttdaudr at Uppsölom, X vetrom sídar enn Styrbiörn fell.

## CAP. XII.

## HERNADR HÁKONAR JARLS.

Gunnhilldar synir budo út lidi miklo or Víkinni, fara sva nordr med landi, oc hafa lid oc scip or hverio fylki. Gera þeir þá bert, at þeir mano her þeim stefna nordr til þrándheims á hendor Hákoni Jarli. þessi tídindi spyr Jarlinn, oc samnar her saman, oc rædr til scipa. Enn er hann spyr til hers Gunnhilldar-sona, hverso mikinn þeir hafa, þá helldr hann lidi síno sudr á Mæri, oc heriar allt þar er hann fór, oc drap mikit mannfólk, bædi ríka oc úríka. Sídan sendi hann aptr til þrándheims

bóanda-lidit allt; enn hann fór herseilldi um Mæri hvaratveggio, oc Raumsdal, oc hafdi niósnir allt fyrir sunnan Stad um her Gunnhilldarsona; oc er hann spurdi, at þeir voro komnir í Fiördo, oc bido byriar at sigla nordr um Stad, þá sigldi Hákon Jarl nordan fyrir Stad útleid, sva at ecki sá af landi segl hans; let sva gánga hafleidis austr med landi, oc kom fram í Danmörk; sigldi þá í austrveg, oc heriadi þar um sumarit. Gunnhilldar synir helldo lidi sino nordr til Þrándheims, oc dvölldoz þar miök lengi um sumarit; tóko þar skatta alla oc skylldir. Enn er áleid sumarit þá settoz þar eptir Sigurdr Sleva oc Gudrödr, enn Haralldr oc adrir þeir brædor fóro austr í land, oc leidangurs lid þat er farit hafdi med þeim um sumarit.

## CAP. XIII.

## FRÁ HÁKONI JARLI OC GUNNHILLDAR SONOM

Hákon Jarl fór um haustit til Helsingialands, oc setti þar upp scip sín, fór sidan landveg um Helsingialand oc Jamtaland, oc sva austan um Kiöl ofan í Þrándheim: dreif þegar lid mikit til hans, oc red hann til scipa. Enn er þat spyria Gunnhilldar synir, þá stíga þeir á scip sín, oc hallda út eptir firdi; enn Hákon Jarl fer út á Hladir, oc sat þar um vetrinn; enn Gunnhilldar synir sáto á Mæri, oc veitto hvarir ödrom árásir, oc drápoz menn fyrir. Hákon Jarl hellt ríki sino í Þrándheimi, oc var þar optaz á vetrom, enn fór á sumrom stundom austr

á Helsingialand, oc tók þar scip sín, oc fór í austrveg, oc heriadi þar á sumrom. Enn stundom sat hann í Þrandheimi, oc hafdi her úti, oc helldoz þá Gunnhilldar synir eigi fyrir nordan Stad.

## CAP. XIV.

## DRÁP SIGURDAR SLEFO.

Haralldr Gráfelldr fór á eino sumri med her sinn nordr til Biarmalands, oc heriadi þar, oc átti orosto mikla vid Biarma á Vinobacka; þar hafdi Haralldr konungr sigr, oc drap mart fólk: heriadi þá vída um landit, oc feck ofa mikit fe. Þess getr Glúmr Geirason:

Austr rand iöfra þrystir
ordrackr fyrir by nordan
brànd, þar er Biarmscar kindir
brennanda sá ec renna.
Gott hlaut gumna sættir,
geirvedr í för þeirri
ödlingi fecz úngom,
ord á Vino bordi.

Sigurdr konungr Slefa kom til búss Klyps hersis, hann var son Þórdar Hörda-Kárasonar; hann var ríkr madr oc kynstór. Klyppr var þá eigi heima, enn Alof kona hans tók vel vid konungi, oc var þar veizla gód, oc dryckior miklar. Alof var Asbiarnar dóttir, systir Jarnsceggia, nordan af Yriom. Hreidar var bródir Asbiarnar, fadir Styrkars, födor Endrida, födor Einars Þambascelfis. Konungr geck um nóttina til hvilo Alofar, oc lá þar at úvilia hennar;

sidan fór konungr í brott. Eptir um haustit fóro þeir Haralldr konungr oc Sigurdr bródir hans upp á Vörs, oc stefndo þar þíng vid bændor. Enn á þíngino veitto bændor þeim atför, oc villdo drepa þá, enn þeir komoz undan, oc fóro í brott sidan. Fór Haralldr konungr í Hardángr, enn Sigurdr konungr fór á Alrecstadi. Enn er þat spyrr Klyppr hersir, þá heimtaz þeir saman frændor, oc veita atferd konungi, oc var höfdingi fyrir lidino Vemundr Völubriótr. Enn er þeir koma á bæinn, veita þeir konungi atsócn; er sva sagt, at Klyppr lagdi konung med sverdi í gögnom, oc vard þat bani hans. Enn þegar í stad drap Erlingr Gamli Klypp.

## CAP. XV.

## FALL GRIÓTGARDS.

Haralldr konungr Gráfelldr oc Gudrödr konungr bródir hans draga saman her mikinn austan or landi, oc helldo lidi því nordr til þrándheims. Enn er þat spyrr Hákon Jarl, samnadi hann lidi at ser, oc hellt sudr á Mæri oc heriar. Þá var þar Griótgardr födor-bródir hans, oc scylldi hafa landvörn af Gunnhilldar sonom; hann baud her út, sva sem konungar höfdo ord tilsent. Hákon Jarl hellt til fundar vid hann, oc til bardaga: þar fell Griótgardr, oc II Jarlar med hanom, oc mart lid annat. Þess getr Einar Scálaglamm:

Hialm grapi vann hilmir
hardr lopz vinar barda

Því kom vöxtr í Vino
Vínheims fiandor sína.
At forsniallir fello
furs íþrottar scúrom
þat fær þióðar snytri
þrír Jarls synir, tírar.

Sídan sigldi Hákon Jarl út til hafs, oc sva útleid, sudr med landi: hann kom fram sudr í Danmörk, oc fór á fund Haralllds Gormsonar Dana konungs, fær þar gódar vidtökor; dvalldiz med hanom um vetrinn. Þá var oc med Dana konungi madr sá er Haralldr het; hann var sonr Knúts Gormssonar, brodorson Harallds konungs: hann var kominn or víking, hafdi lengi heriat, oc fengit þar of lausafiár; hann var kalladr Gull-Haralldr; hann þótti vel til kominn at vera konungr í Danmörk.

## CAP. XVI.

## FALL ERLINGS KONUNGS.

Haralldr konungr Gráfelldr, oc þeir brædor helldo lidi síno nordr til Þrándheims, oc fengo þar einga mótstödo; tóko þar scatt oc scylld, oc allar konungs tekior, oc leto bændor giallda stór giölld; þvíat konungar höfdo þá lánga hríd litit fe fengit or Þrándheimi, er Hákon Jarl hafdi þar setit med fiölmenni miklo, oc átti úfrid vid konunga. Um haustit fór Haralldr konungr sudr í land, med þat lid flest, er þar átti heimili; enn Erlingr konungr sat eptir med síno lidi; hann hafdi þá enn miklar krafir vid bændor, oc gerdi hardan rett þeirra; enn

bændor kurrudo illa, oc báro eigi vel scada sinn. Oc um vetrinn somnodoz bændor saman, oc fá lid mikit; stefna sídan at Erlingi konungi, þar sem hann var á veizlo, oc hallda vid hann orosto: fell Erlingr konungr þar, oc mikil sveit manna med hanom.

## CAP. XVII.

## HALLÆRI Í NOREGI.

Þá er Gunnhilldar synir redo fyrir Noregi, gerdiz hallæri mikit, oc var því meira at, sem þeir höfdo lengr verit yfir landi; enn bændor kendo þat konungom, oc þat med, at konungar voro fegiarnir, oc vard hardr gerr rettr bænda. Sva kom um sídir, at náliga misti landsfólk vídazt korns oc fisca. A Hálogalandi var sva mikill sulltr oc seyra, at þar óx náliga ecki korn, enn sniár lá þar á öllo landi, at midio sumri, oc bú allt var inn bundit at midio sumri. Sva qvad Eyvindr Scálldaspillir; hann kom út, oc dreif miök:

Snyr á svölnis varo
sva höfom inn sem Finnar
birki hind of bundit
brums, at midio sumri.

## CAP. XVIII.

## FRÁ ISLENDINGOM OC EYVINDI SCALLDASPILLI.

Eyvindr orti drápo um alla Islendinga, enn þeir

launodo hanom sva, at hverr bóndi gaf hanom scatt-penning þann er stód III peninga silfrs vegna, oc hvítr í scör. Enn er silfrit kom fram á alþingi, þá redo menn þat af, at fá smida til at scira silfrit: sídan var gerr af felldardálkr; enn þar af var greitt smidarkaupit; þá stód dálkrinn L marca: hann sendo þeir Eyvindi. Enn Eyvindr let höggva í sundr dálkinn, oc keypti ser bú med. Þá kom oc þar um vár þat, vid útver nockor, broddr af silld. Eyvindr scipadi ródrarferio húscörlom sinom oc landsbúom, oc reri þannog til, sem silldin var rekin: hann qvad:

Látom lángra nóta
lög sóta ver fótom
at spá þernom sporna
spord fiödrodom nordan.
Vita ef akar mútor
elldgerdar falar verdi,
ít þær er upp um róta
unn svín vinom minom.

Oc sva vendiliga var uppgengit allt lausafe hans, at hann hafdi keypt til bords ser; hann keypti silldina med bogascoti síno; hann qvad:

Fengom Felldar stínga
fiörd oc gallt vid hiördo.
Þann er ál-himins utan
oss lendingar sendo
mest sellda ec minar
mæ vid örom sævar,
Hallærit velldr hvaro,
hlaupsílldr egils gaupna.

# VI.

# SAGA AF OLAFI KONUNGI TRYGGVASYNI.

## CAP I.

### FÆDDR OLAFR TRYGGVASON.

Astrídr het kona sú er átt hafdi Tryggvi konungr Olafsson; hun var dóttir Eiríks Biódaskalla er bió á Ofrostödom, ríks mans. Enn eptir fall Tryggva flydi Astrídr á brott, oc fór á launungo med lausafe þat er hun mátti med ser hafa. Henni fylgdi fostorfadir hennar, sá er Þorólfr lúsasceggr het; hann scilldiz alldregi vid hana, enn adrir trúnadarmenn hennar fóro á niósn, hvat er spurdiz af úvinom hennar, edr hvat þeir fóro. Astrídr geck med barni Tryggva konungs; hun let flytia sic út i vatn eitt, oc leyndiz þar i hólma nockurom vid fá menn. Þar fæddi hon barn; þat var sveinn; enn er hann var vatni ausinn, var hann kalladr Olafr, eptir födorfödor sínom. Þar leyndiz hon of sumarit. Enn er nótt myrcdi, oc dag tók at scemma, enn vedr at kólna, þá byriadi Astrídr ferd sína, oc Þóro fr med henni, oc fátt manna, fóro þat eina med bygdom, er þau leyndoz of nætor, oc funno enga menn. Þau komo fram einn dag at qvelldi, til Eiríks á

Oprostödom, födor Astrídar; þau fóro leyniliga; Sendi Astrídr menn til bæarins, at segia Eiriki, enn hann let fylgia þeim í eina scemmo, oc setia þeim bord vid enom bestom faungom. Enn er þau Astrídr höfdo þar dvaliz litla hríd, þá fór brott föruneyti hennar, enn hon vard eptir, oc II þiónustokonor hennar, oc sonr hennar Olafr, Þórolfr lúsaskegg oc Þórgils son hans, VI vetra gamall; voro þau þar um vetrinn.

## CAP. II.

## FRÁ GUNNHILLDAR SONOM.

Haralldr Gráfelldr oc Gudrödr bródir hans fóro, eptir dráp Tryggva Olafssonar, til bua þeirra, er hann hafdi átt; enn þá var Astrídr í brott, oc spurdo þeir eigi til hennar. Sá pati kom fyrir þá, at hon mundi vera med barni Tryggva konungs; fóro þeir of haustit nordr í land, sva sem fyrr er ritit. Enn er þeir funno Gunnhilldi módor sína, sögdo þeir alla atburdi um þessi tídindi, er þá höfdo gerz í för þeirra. Hon spurdi at vendiliga, þar sem var Astrídr; þeir segia slíkan qvitt þar af, sem þeir höfdo heyrt; enn fyrir þá söc, at þat haust et sama átto Gunnhilldar synir deilo vid Hákon Jarl, oc sva um vetrinn eptir, sem fyrr er ritit, vard þá engi eptirleitan höfd um Astrídi oc son henar, á þeim vetri.

CAP.

## CAP. III.

## FERD ÁSTRÍDAR.

Eptir um várit sendi Gunnhilldr niósnar-menn til Upplanda, oc allt í Víkina, at niósna um þat, hvat um hag Astrídar mundi vera. Enn er sendimenn koma aptr, þá kunno þeir þat hellzt at segia Gunnhilldi, at Astrídr mundi vera vid fedr sinom Eiríki; segia oc þess meiri van, at hon man þar uppfæda son þeirra Tryggva konungs. Þá gerir Gunnhilldr þegar sendimenn, oc byr þá vel at vapnom oc hestom, oc hafa þeir XXX manna, oc var þar til forráda ríkr madr, vin Gunnhilldar, er Hákon er nefndr; hon bad þá fara á Oprostadi til Eiríks, oc hafa þadan son Tryggva konungs, oc færa henni; þá fara sendimenn alla leid sína. Enn er þeir átto scamma leid til Oprostada, verda varir vid ferd þeirra vinir Eiríks, oc báro hanom þegar niósn um ferd sendimanna, at qvelldi dags. Enn þegar um nóttina bió Eiríkr brottferd Astrídar, feck henni góda leidtoga, oc sendi hana austr til Sviþiódar á fund Hákonar ens Gamla, vinar síns, ríks manns; Fóro þau í brot, er mikit lifdi nætor; þau komo at qvelldi dags í herad þat er Skön heitir, oc sá þar bæ mikinn, oc fóro þannog til, oc bádo ser nætor vistar; þau dulldoz, oc höfdo vand klædi. Sá bóndi er nefndr Biörn Eitrqveisa, audigr madr oc illr þegn;

hann rak þau í brott; fóro þau of qvelldit í annat þorp scamt þadan, er het í Vizcom: Þorsteinn het þar bóndi, sá er þau herbergdi, oc veitti þeim gódan forbeina um nóttina, oc sváfo þau í gódom umbúnadi. Hákon oc þeir menn Gunnhilldar komo á Oprostadi snemma um morgin, oc spyria at Astrídi oc syni hennar. Eiríkr segir, at hun er ecki þar. Þeir Hákon ransöcodo bæinn allann, oc dvölldoz þar lengi um daginn, oc fá nockora niósn um ferd Astrídar; Rída þá sömo leid, oc koma sídla um qvelldit til Biarnar Eitrqveiso í Skön, taka þar gisting. Þá spyr Hákon Biörn ef hann kynni hanom nockot segia til Astrídar; hann segir, at þar komo menn um daginn, oc bádo gistingar; enn ec rak þau brott, oc mano þau vera herbergd her nockorstadar í þorpino. Verkmadr Þórsteins fór um qvelldit or scógi, oc kom til Biarnar; þvíat þat var á leid hans; vard hann var vid at gestir voro þar edr hvert erindi þeira var; hann segir Þórsteini bónda. Enn er lifdi þridiungr nætor, vakti Þórsteinn upp gesti sína, oc bad þau brott fara; mællti styggliga. Enn er þau voro komin á veg út or gardinom, þá segir Þórsteinn þeim, at sendimenn Gunnhilldar voro at Biarnar, oc fóro at leita þeirra. Þau bádo hann hialpar nockorar; hann feck þeim leidtoga, oc vist nockura, oc fylgdi sá þeim fram á scóginn, þar sem var vatn nockot, oc hólmi í reyri vaxinn. Þau mátto vada í hólmann út; þar fálo þau sic í reyrnom. Snimma dags reid Hákon frá Biarnar í bygdina, enn

hvar sem hann kom, spurdi hann eptir Astrídi, enn er hann kom til Þórsteins, þá spyr hann ef þau se þar komin; hann segir at þar væri menn nockorir, oc fóro þegar á móti degi austr á scóginn. Hákon bad Þórsteinn fara med þeim er hanom var leid kunnig edr leyni. Þórsteinn fór med þeim; enn er hann kom í scóginn, vísadi hann þeim þvert frá því sem Astrídr var; Fóro þeir þann dag allan at leita, oc funno þau hvergi; Fara aptr sidan, oc segia Gunnhilldi sitt erindi. Astrídr oc hennar föroneyti fóro leid sína; komo fram í Svíþiód til Hákonar Gamla; dvalldiz Astrídr þar oc sonr hennar Olafr lánga hríd, í gódom fagnadi.

## CAP. IV.

## SENDIFERD HÁKONAR TIL SVÍARÍKIS.

Gunnhilldr konunga-módir spyr, at Astrídr oc Olafr sonr hennar ero í Svíavelldi, þá sendi hon enn Hákon, oc gott föruneyti med hanom austr til Eiríks Svíakonungs, med gódar giafir oc vináttumál. Var þar vid sendimönnom vel tekit, voro þeir þar í gódo yfirlæti. Sídan ber Hákon upp fyrir konungi erindi sín, segir at Gunnhilldr hafdi til þess ord send, at konungr scylldi styrk fá hanom, sva at hann hafi vid ser Olaf Tryggvason til Noregs; vill Gunnhilldr fóstra hann. Konungr fær hanom menn, oc rída þeir á fund Hákonar Gamla; bydr Hákon Olafi at fara vid ser, med vinsamligom ordom mörgom. Há-

kon Gamli svarar vel, oc segir at módir hans scal ráda ferd hans; enn Astrídr vill fyrir engan mun, at sveininn fari: Fara sendimenn í brott, oc segia svá búit Eiríki konungi. Sídan búaz sendimenn til heimferdar, bidia enn konung at fá ser styrk nockorn, at hafa sveininn brott, hvart sem Hákon Gamli vill, edr eigi: fær konungr þeim enn sveit manna: koma sendimenn til Hákonar Gamla, oc krefia þá at sveininn fari vid þeim; enn er því var seint tekit, þá hafa þeir frammi mikilmæli, oc heita afarkostom, oc láta reiduliga. Þá leypr frammi þræll einn, er Bursti er nefndr, ocvill hiósta Hákon, oc koma þeir naudulıga í brott óbardir af þrælinom; fara sídan heim til Noregs, oc segia sína ferd Gunnhilldi, oc sva at þeir hafa set Olaf Tryggvason.

## CAP. V.

## FRÁ SIGURDI EIRÍKSSYNI.

Sigurdr het bródir Astrídar, son Eiríks Biódascalla; hann hafdi þá lengi verit af landi á brott austr í Gardaríki, med Valldimar konungi; hafdi Sigurdr þar metnad mikinn: fystiz Astrídr nú at fara þannog til Sigurdar bródor síns: feck Hákon Gamli henni gott föruneyti, oc öll faung gód: fór hon med kaupmönnom nockorom. Þá hafdi hon verit II vetor med Hákoni Gamla; Olafr var þá þrevetr. Enn er þau helldo austr í haf, þá komo at þeim víkingar; þat voro Eistir; hertóko þeir bædi menn oc fe,

enn drápo suma; enn sumom scipto þeir med ser til ánaudar. Þar scildiz Olafr vid módor sína, oc tók vid hanom Klerkon Eistneser madr, oc þeim Þórolfi oc Þorgilsi. Klerkon þótti Þórólfr ofgamall til þræls, þótti oc ecki forverc í hanom, oc drap hann, enn hafdi sveinana med ser, oc selldi þeim manni er Klercr het, oc tók fyrir hafr einn vel gódan. Hinn þridi madr keypti Olaf, oc gaf fyrir vest gott edr slagning; sá het Reas, kona hans het Rekon, enn sonr þeirra Rekoni. Þar var Olafr lengi, oc vel halldinn, oc unni bóandi hanom mikit. Olafr var VI vetor á Eistlandi í þessari útlegd.

## CAP. VI.

## FRELSTR OLAFR AF EISTLANDI.

Sigurdr Eiríksson kom til Eistlands í sendiferd Valldimars konungs af Hólmgardi, oc scylldi hann heimta þar í landi scatta konungs. Fór Sigurdr ríkuliga med marga menn oc fe mikit. Hann sá á torgi svein frídan miök, oc scildi hann, at sá mundi þar útlendr, oc spyrr hann at nafni oc ætt sinni; hann nefndi sic Olaf, enn Tryggva Olafsson födor sinn, enn módor sína Astrídi, dóttor Eiríks Biódascalla: þá kannadiz Sigurdr vid, at sveininn var systorson hans. Þá spurdi Sigurdr sveininn, hví hann væri þar kominn? Olafr sagdi hanom alla atburdi um sitt mál. Sigurdr bad hann fylgia ser til Reas bóanda. Enn er hann kom þar, þá keypti hann sveinana báda

Olaf oc Þórgils, oc hafdi med sér til Hólmgards, oc let eigi upp víst fyrzt um ætt Olafs, enn hellt hann vel.

## CAP. VII.

## DRÁP KLERKONS.

Olafr Tryggvason var staddr einn dag á torgi; var þar fiölmenni mikit; þar kendi hann Klerkon, er drepit hafdi fóstra hans Þórólf Lúsarscegg. Olafr hafdi litla öx i hendi, oc setti i höfot Klerkon, sva at stód í heila nidri; tók þegar á hlaup heim til herbergis, oc segir Sigurdi frænda sínom, enn Sigurdr kom Olafi þegar i herbergi drottningar, oc segir henni tídindin; hon het Allogia; bad Sigurdr hana hiálpa sveininom; hon svarar, oc leit á sveininn, segir, at eigi má drepa svá frídan svein, oc bad kalla menn til sín med alvæpni. I Hólmgardi var sva mikil fridhelgi, at þat voro lög, at drepa scylldi hvern, er mann drap ódæmdan. Þeystiz allr lydr eptir sid þeirra oc lögom, oc leitadi eptir sveininom, hvar hann væri kominn. Þá var sagt, at hann var í gardi drottningar, oc þar her mans alvapnadr: var þá sagt konungi, geck hann þá til med síno lidi, oc villdi eigi at þeir berdiz, kom þá gridom á, oc því næst sættom; dæmdi konungr bætor, enn drottning hellt giölldom upp; sídan var Olafr med drottningo, oc var hon allkær til hans. Þat voro lög í Gardaríki, at þar scylldo eigi vera konungbornir menn,

nema at konungs rádi; þá segir Sigurdr drottningo, hverrar ættar Olafr var, edr fyrir hveria sök hann var kominn, at hann mátti eigi vera í síno landi fyrir úfridi; bad hana þetta ræda vid konung; hon gerdi sva, bad konung hiálpa vid konungs syni þessom, sva hardliga sem hann var leikinn, oc komo sva fœrtölor hennar, at konungr iátti henni þesso, tók þá Olaf í sitt valld, oc hellt hann vegliga, sva sem konungs syni byriadi at vera halldinn. Olafr var IX vetra, er hann kom í Gardaríki, enn dvalldiz þar med Valldimar konungi adra IX vetor. Olafr var allra manna frídastr oc mestr oc sterkastr, oc umfram alla menn at íþróttom, þá er frá er sagt af Nordmönnom.

## CAP. VIII.

## FRÁ HÁKONI HLADA-JARLI.

Hákon Jarl Sigurdarson var med Haralldi Gormssyni Dana konungi, um vetrinn eptir, er hann hafdi stockit or Noregi fyrir Gunnhilldar sonom. Hákon Jarl hafdi sva sterkar áhyggior um vetrinn, at hann lagdiz í reckio, oc hafdi andvökor miklar, át oc drack þat eino, er hann mátti hallda vid styrk sínom. Þá sendi hann menn sína leyniliga nordr í Þrándheim til vina sinna, oc lagdi þat rád fyrir þá, at þeir scylldo drepa Erling konung, ef þeir mætti vid komaz, oc sagdi, at hann mundi aptr hverfa til ríkis síns, þá er sumradi. Þann vetr drápo Þræn-

dir Erling, sem fyrr er ritat. Med Hákoni oc Gull-Haralldi var kær vinátta, bar Haralldr fyrir Hákon rádagerdir sínar; segir Haralldr, at hann vill þá setiaz at landi, oc vera eigi lengr á herscipom; spurdi hann Hákon, hvat hann hygdi, hvert Haralldr konungr mundi vilia scipta ríki vid hann, ef hann krefdi. Þat hygg ec segir Hákon, at Dana konungr mun engra varna þer rettinda; enn þó veizto þá görr þetta mál, ef þú rædir fyrir konungi; vetti ec, at þú fáir eigi ríkit, ef þú krefr eigi. Brátt eptir þessa rædo taladi Gull-Haralldr vid Haralld konung, sva at nær voro margir ríkismenn beggia vinir, oc krafdi þá Gull-Haralldr Haralld konung, at hann scipti ríkino vid hann í helminga, sva sem burdir hans voro til oc ætt, þar í Danavelldi. Vid þetta ákall vard Haralldr konungr reidr miök, segir, at engi madr krefdi þess Gorm konung födor hans, at hann scylldi geraz hálfkonungr yfir Danavelldi; eigi helldr hans födor Hördaknút, edr Sigurd Orm í auga, edr Ragnar Lodbrók: gerdi sic þá sva reidan oc ódan, at ecki mátti vid hann mæla.

## CAP. IX.

## FRÁ GULL-HARALLDI.

Gull-Haralldr undi þá miklo verr enn ádr, at hann hafdi þá eigi ríki helldr enn fyrr, enn reidi konungs; kom hann þá til Hákonar vinar síns, oc kærdi sín vandrædi fyrir hanom, oc bad hann heilla

ráda, ef til væri, þau er hann mætti riki ná; sagdi, at hann hafdi þat helst huxat, at sækia rikit med styrk ok vapnom. Hákon bad hann þat fyrir engom manni mæla, sva at spurdiz; liggr þar lif ydart vid, hugsa þá med siálfom þer, til hvers þú mant færr verda; þarf til slikra stórræda, at madr se diarfr oc uruggr, spara hvarki til góda luti ne illa, at þá megi framganga þat er upp er tekit: enn hitt er úfært, at hefia upp stór rád, oc leggia nidr sidan med ú-sæmd. Gull-Haralldr svarar: sva skal ec þetta upptaka tilkallit, at eigi skal ec mínar hendor til spara, at drepa konung siálfan, ef ec kem í færi med því er hann vill synia mer þess rikis, er ec á at hafa at retto: scilia þer þá rædo sína. Haralldr konungr geck þá til fundar vid Hákon Jarl, oc taka þeir tal med ser; segir konungr Jarli, hvat ákall Gull-Haralldr hefir haft vid hann til ríkis, oc svör þau er hann veitti; segir sva, at hann vill fyrir engan mun minka riki sitt. Enn ef Gull-Haralldr vill nockot hallda þesso tilkalli, þá er mer litit fyrir, at láta drepa hann; þvíat ec trúi hanom illa, ef hann vill eigi af þesso láta. Jarl svarar: þat hygg ec, at Haralldr hafi sva fremi þetta uppqvedit, at hann mun eigi þetta láta nidrfalla; er mer þess van, ef hann reisir úfrid her i landi, at hanom verdi gott til lids, oc mest fyrir sakir vinsællda födor hans; enn þat er ydr hin mesta úhæfa, at drepa frænda ydarn; þvíat allir menn muno kalla hann saclausan at sva búno.

Eigi vil ec oc þat mitt rád kalla, at þú gerir þic minna konung, enn fadir þinn var Gormr, jók hann oc miök sitt ríki, enn mínkadi í engan stad. Þá segir konungr: hvert er þá rád þitt, Hákon, ef ec skal eigi midla ríki, oc ráda ei af hendi mer ugg þenna. Vid sculom finnaz nockorom dögom sídar, segir Hákon Jarl; vil ec hugsa ádr þetta vanda mál, oc veita þá nockorn orscurd: Geck þá konungr í brott, oc allir hans menn.

## CAP. X.

## RÁDAGERD HARALLDS KONUNGS OC HÁKONAR JARLS.

Hákon Jarl hafdi nú af nyo enar mesto áhyggior oc rádagerdir, oc let fá menn vera í húsino hiá ser. Fám dögom sídar kom Haralldr til Jarls, oc taka þeir þá tal; spyr þá konungr, ef Jarl hafi huxat þá rædo, er þeir komo á fyrra dags. Þar hefi ec, segir Jarl, vakat um nótt oc dag sídan, oc finz mer þat hellzt rád, at þú hafir oc styrir ríki því öllo, er þú tókt eptir födor þinn, enn fáir Haralldi frænda þínom í hendor annat konungs ríki, þat er hann megi sæmdr madr af verda. Hvert er þat ríki, segir konungr, er ec má heimliga fá Haralldi, ef ec hefi úscert Danavelldi. Jarl segir: þat er Noregr; konungar þeir er þar ero, ero illir öllo landsfólki; vill hver madr þeim íllt, sem vert er. Konungr segir: Noregr er land mikit, oc hart fólk, oc er íllt at

sækia vid útlendan her: gafz oss sva, þá er Hákon vardi landit; leto ver lid mikit, enn vard engi sigr unninn: er Haralldr Eiriksson fóstrson minn oc knesetningr. Þá segir Jarl: laungo vissa ec þat, at þer höfdot opt veittan styrk Gunnhilldar sonom, enn þeir hafa ydr þó engo launat, nema illo. Ver sculom komaz miklo lettligar at Noregi, enn beriaz til med allan Danaher. Sento bod Haralldi fóstrsyni þinom, oc bíód hanom at taka af þer land oc len, þat sem þeir hafdo fyrr her í Danmörk: stefn hönom á þinn fund. Nú má Gull-Haralldr þá litla stund afla ríkis í Noregi af Haralldi konungi Gráfelld. Konungr segir, at þetta mun kallat íllt verc, at svikia föstorson sinn. Þat mano Danir kalla, segir Jarl, at betra er þat scipti, at drepa víking Norrænan, helldr enn bródrson Danscan; Tala þeir nú her um lánga hríd, þar til er þetta semz med þeim.

## CAP. XI.

## SENDIBOD HARALLDS GORMSSONAR TIL NOREGS.

Gull-Haralldr kom enn til tals vid Hákon Jarl, oc segir Jarl hönom, at hann hefir nú fylgt hans málom, sva at meiri van er, at nú muni konungs ríki liggia laust fyrir honom í Noregi; skulo vid þá, segir hann, hallda felagscap ockrom, mun ec þá mega veita þer mikit traust í Noregi. Hafdo fyrst þat ríki; Haralldr konungr er nú gamall miök, enn hann

à þann einn son, er hann ann litit, oc frillo son er. Talar Jarl þetta fyrir Gull-Haralldi, þar til er hann lætr ser þetta vell lika. Sídan tala þeir allir optliga, konungr oc Jarl, oc Gull-Haralldr. Sídan sendi Dana konungr menn sína nordr í Noreg, á fund Harallds Gráfellds; var sú ferd búinn allvegliga; fengo þeir gódar vidtökor er þeir finna Haralld konung, segia hanom þau tídindi, at Hákon Jarl er i Danmörk, oc liggr banvænn, oc nær örviti, oc þau önnor tídindi, at Haralldr Dana konungr baud til sín Haralldi Gráfelld, fóstorsyni sínom, at taka þar af ser veizlor, sva sem þeir brædor höfdo fyrr haft þar í Danmörk, oc bad Haralld koma til sín, oc finna sic á Jótlandi. Haralldr Gráfelldr bar þetta mál fyrir Gunnhilldi módor sína, oc adra vini sína: lögdo menn þar allmisiafnt til; sumom þótti þessi för eigi trúlig, sva sem þar var mönnom fyrir scipat; hinir voro fleiri, er fysto at fara scylldi, þvíat þá var sva mikill sulltr í Noregi, at konungar fengo varliga fætt lid sitt; þá feck fiördrinn þat nafn, er konungar sáto optaz, at hann het Hardángr. Arferd var í Danmörk at nockori hlyto; hugdoz menn þá þar mundo faung fá, ef Haralldr konungr fengi þar len oc yfirsócn. Vard þat rádit ádr sendimenn fóro í brott, at Haralldr konungr mundi koma til Danmerkr um sumarit, á fund Danakonungs, oc taka af hanom þenna kost, er Haralldr konungr baud hanom.

## CAP. XII.

## SVIKRÆDI HARALLDS KONUNGS OC HÁKONAR JARLS VID GULL-HARALLD.

Haralldr Gráfelldr fór um sumarit í Danmörk, oc hafdi III lángscip; þar styrdo eino Arinbiorn hersir or Fiördom. Haralldr konungr sigldi út or Vikinni oc til limafiardar, oc lagdiz þar at Hálsi: var hanom sagt, at Danakonungr mundi þar koma brátt. Enn er þetta frá Gull-Haralldr, þá helldr hann þannog med IX scipom; hann hafdi ádr búit lid þat at fara í viking. Hákon Jarl hafdi þá oc búit sitt lid, oc ætladi oc í hernad; hafdi hann XII scip, oc öll stór. Enn er Gull-Haralldr var brott fariun, þá mælti Hákon Jarl vid konung: nú veit ec eigi nema ver róim leidángrinn, oc gialldim leidvítit; nú mun Gull-Haralldr drepa Haralld Gráfelld; sídan mun hann taka konungdóm í Noregi: ætlar þú hann þer þá tryggvan, ef þú fær hanom sva mikinn styrk? enn hann mælti þat í vetr fyrir mer, at hann mundi drepa þic, ef hann qvæmiz ì færi um. Nú mun ec vinna Noreg undir þic, oc drepa Gull-Haralld, ef þú vilt því heita mer, at ec scyla audvelliga sættaz vid ydr fyrir þat; vil ec þá geraz Jarl ydar, oc binda þat svardögom, oc vinna Noreg undir ydr med ydrom styrk, hallda þá sídan landino undir ydart ríki, oc giallda ydr scatta; oc erto þá meiri konungr enn fadir þinn, ef þú rædr II þiódlöndom. Þetta semz med þeim

konungi oc Jarli; fer þá Hákon med lidi sino at leita Gull-Harallds.

## CAP. XIII.

## FALL HARALLDS KONÚNGS GRÁFELLDS AT HÁLSI.

Gull-haralldr kom til Háls í limafiörd; baud hann þegar Haralldi Gráfelld til orosto. Enn þótt Haralldr hafdi lid minna, þá geck hann þegar á land, oc bióz til orosto, oc fylkdi lidi síno; enn ádr fylkingar gengi saman, þá eggiar Haralldr Gráfelldr hart lid sitt, oc bad þá bregda sverdom, hlióp þegar fram í öndverda fylkin, oc hió til beggia handa. Sva segir Glúmr Geirason í Gráfelldardrápo:

Mællti mætra hiallta
málm ódin sá blódi
þróttar ord, er þordi
þiódom völl at rióda.
Vídlendr of bad vinda
verdung Haralldr sverdom,
frægt þótti þat flotnom
fylkis ord, at mordi.

þar fell Haralldr konungr Gráfelldr: sva segir Glúmr Geirason:

Vard á vído bordi
viggiom hollr at liggia
gætir glamma sóta
gards eylimafiardar.
Sendir fell á sandi
sævar báls at Hálsi;

olli iöfra spialli
ordheppinn því mordi.

Þar fell flest lid Haralds konungs med hanom; þar fell Arinbiörn hersir. Þá var lidit frá falli Hákonar konungs Adalsteins fóstra XV vetor; enn frá falli Sigurdar Hlada-Jarls XIII vetor. Sva segir Ari prestr inn Fródi, at Hákon Jarl væri XIII vetor Jarl yfir födorleifd sinni í Þrándheimi, ádr Haralldr Gráfelldr fell; enn VI vetor ena sidorsto, er Haralldr Gráfelldr lifdi, segir Ari, at Gunnhilldar synir oc Hákon bördoz, oc stucko ymsir or landi.

## CAP. XIV.

## DAUDI GULL-HARALLDS.

Hákon Jarl oc Gull-Haralldr fundoz litlo sídar enn Haralldr Gráfelldr fell: leggr þá Hákon Jarl til orosto vid Gull-Harالld. Fær Hákon þar sigr, enn Haralldr var handtekinn, oc let Hákon hann festa á gálga. Sídan fór Hákon á fund Dana konungs, oc sættiz vid hann audvelliga, um dráp Gull-Haralds frænda hans.

## CAP. XV.

## LANDA SCIPTI Í NOREGI.

Sidan bydr Haralldr konungr her út um allt sit ríki, oc fór med DC scipa; þar var þá med hanom Hákon Jarl Sigurdarson, oc Haralldr Grænsci, son

Gudrödar konungs, oc mart annarra ríkis-manna, þeirra er flyit höfdo ódöl sín fyrir Gunnhilldar sonom af Noregi: Hellt Dana konungr her sínom sunnan í Víkina, oc geck landsfólk allt undir hann. Enn er hann kom til Tunsbergs, þá dreif til hans mikit fiölmenni, oc feck Haralldr konungr lid þat allt í hendor Hákoni Jarl er til hans hafdi komit í Noregi, oc gaf hanom til forráda Rogaland oc Hördaland, Sogn, Firdafylki, Sunnmæri oc Raumsdal oc Nordmæri. Þessi VII fylki gaf Haralldr konungr Hákoni Jarli til forráda, med þvílikom formála, sem Haralldr hinn Hárfagri gaf sonom sinom. Nema þat scildi, at Hákon scylldi eignaz þar, oc sva í Þrándheimi, öll konungsbú oc landscylldir oc hafa konungsfe sem hann þyrfti, ef her væri í landi. Haralldr konungr gaf Haralldi Grænsca Vingulmörk, Vestfolld oc Agdir til Lídandisness, oc konungs nafn, oc let hann þar hafa ríki med öllo slíko, sem at forno höfdo haft frændor hans, oc Haralldr hinn Hárfagri gaf sonom sínom. Haralldr Grænsci var þá XVIII vétra, oc vard sídan frægr madr: Ferr þá Haralldr Dana konungr heim med allan Dana her.

## CAP. XVI.

### FERD GUNNHILLDAR SONA OR LANDI.

Hákon Jarl fór med lidi síno nordr med landi: enn er Gunnhilldr oc synir hennar spurdo þessi tídindi,

þá

þá samna þau her, oc vard þeim íllt til lids. Tóko þau enn et sama rád sem fyrr, sigla vestr um haf, med þat lid er þeim vill fylgia, fara fyrst til Orcneya, oc dvölldoz þar um hríd; þar voro ádr Jarlar, synir þórfinns Hausakliúfs, Lödver oc Arnvidr, Liótr oc Skúli. Hákon Jarl lagdi þá land allt undir sic, oc sat þann vetr í þrándheimi. þess getr Einar Scálaglamm í Velleklo:

Siö fylkiom kom silkis
snúnadr var þat brúna
geymir grundar síma
grandvarr und sic landi.

Hákon Jarl, er hann fór sunnan med landi um sumarit, oc landsfólk geck undir hann, þá baud hann þat um ríki sitt allt, at menn scylldo hallda upp hofom oc blótom, oc var sva gert. Sva segir í Velleklo:

Öll let senn hinn svinni
sönn Eindrida mönnom
heriom kunnr of heriot
hofs lönd oc ve banda.
At veg iótna vitni
valfallz of siá allan
þeim styra god geira
gardz Hlóridi fardi.
Oc herþarfir hverfa
hlaccar mótz til blóta,
raud brícar fremsc rækir
ríkr ásmegi slico.
Nú grær iörd sem ádan
aptr geirbrúar Hapta

audryrir lætr áro
óhryggia ve byggia.
Nú liggr allt und Jarli
ímon bordz fyrir nordan
vedr gædis stendr vída
vík Hákonar ríki.

Hinn fyrsta vetr er Hákon red fyrir landi, þá geck sílld upp um allt land, oc ádr um haustit hafdi korn vaxit, hvar sem sáit hafdi verit; enn um várit öflodo menn ser frækorna, sva at flestir bændor sero iardir sinar, oc vard þat brátt árvænt.

## CAP. XVII.

## OROSTA HÁKONAR JARLS OC RAGNFREDAR KONUNGS GUNNHILLDAR SONAR.

Ragnfrödr konungr sonr Gunnhilldar, oc Gudrödr annar sonr Gunnhilldar, þeir II voro þá á lífi synir Eiríks oc Gunnhilldar. Sva segir Glúmr Geirason i Gráfelldar drápo:

Fellumz hálf þá er hilmis
hiördrífa brá lífi.
Redat oss til audar
audvan Haralldz daudi.
Enn veit ec at hefir heitit
hans bródir mer gódo,
siá getr þar till sælo
seggfiöld, hvadartveggi.

Ragnfrödr byriadi ferd sína um várit, þá er hann hafdi einn vetr verit í Orkneyom: hellt hann þá

vestan til Noregs, oc hafdi fritt lid oc scip stór. Enn er hann kom í Noreg þá spurdi hann at Hákon Jarl var í Þrándheimi. Hellt Ragnfrödr þá nordr um Stad, oc heriadi um Sunnmæri. Enn sumt fólk geck undir hann, sem opt verdr, þá er herflockar gánga yfir land, at þeir er fyrir ero, leita ser hiálpar, hver þannog sem vænst þickir. Hákon Jarl spurdi þessi tidindi, at úfridr var sudr um Mæri; red Jarl þá til scipa, oc let scera upp herör, byzc sem hvatligaz, oc hellt út eptir firdi; vard hönom gott til lids: vard fundr þeirra Ragnfredar oc Hákonar Jarls á Sunnmæri nordarliga; hellt Hákon þegar til orosto: hann hafdi lid meira oc scip smærri. Orosta vard hörd, oc veitti Hákoni þyngra; þeir bördoz um stafna, sem þar var sidr til: straumr var í sundino, oc hóf öll scipin saman inn at landino: Jarl let oc hamla at landino, þar er hanom þótti best til uppgaungo. Enn er scipin kendo nidr, þá geck Jarl, oc allt lid hans, af scipom, oc drógo upp, sva at úvinir þeirra scylldo eigi mega útdraga. Sídan fylcti Jarl a vellinom, oc eggiadi Ragnfred til uppgaungo: þeir Ragnfredr lögdo at utan, oc skutoz á lánga hríd; villdi Ragnfredr eigi á land gánga oc scilldoz at sva búno: hellt Ragnfredr lidi sino sudr um Stad, þvíat hann óttadiz landsher, ef drifi til Hákonar Jarls. Enn Jarl lagdi fyrir því eigi optar til orosto, at hanom þótti borda munr ofmikill; fór hann þá um haustit nordr til Þrándheims, oc var þar um vetrinn. Enn Ragnfredr konungr hafdi þá

allt fyrir sunnan Stad, Firdafylki, Sogn, Hördaland, Rogaland; hafdi hann fiölmenni mikit um vetrinn, oc er váradi, baud hann leidangri út, oc feck lid mikit; fór hann þá um öll þau fylki, at afla ser lids oc scipa, oc annarra fánga; þeirra er hann þurt at hafa.

## CAP. XVIII.

## ÖNNOR OROSTA HÁKONAR JARLS OC RAGNFREDAR KONUNGS I SOGNI.

Hákon Jarl baud lidi út, þá er váradi, allt nordr or landi; hann hafdi mikit lid af Hálogalandi oc Naumodali, sva at allt frá Byrdo til Stads hafdi hann lid af öllom Siálöndom. Hanom drozc oc her um öll þrændalög, sva oc um Raumsdal. Sva er atqvedit, at hann hefdi her af IV fólklöndom; hanom fylgdo VII Jarlar, oc höfdo þeir allir saman ógrynni lids. Sva segir í Velleklo:

Hitt var meirr at mæra
mordfíkinn let nordan
Fólkveriandi fyrva
för til Sogns ofgiorva.
Ytti freyr af fiórom
fólk-landom sá branda
ullr stód af því allri
yrþiód, hedins byriar.
Oc til mótz á meita
miúc burdom fram þurdo
med svör gæli svarva
siö landrekar randa.

Glumdi allr þá er ullar
egg-þings Hedins veggiar,
gnótt flaut nás fyrir nesiom,
Noregr saman fóro.

Hákon Jarl hellt lidi þesso öllo sudr um Stad. Þá spurdi hann at Ragnfredr konungr med her sinn væri farinn inn í Sogn; sneri Jarl þá þannog síno lidi, oc vard þar fundr þeirra Ragnfredar; lagdi Jarl scipom sínom at landi, oc hasladi völl Ragnfredi konungi, oc tók orosto stad; sva segir í Velleklo:

Vard fyrir Vinda myrdi
vídfrægt enn gramr sídan
gerdiz mest at mordi
mannfall vid styr annan.
Hlym Narfi bad hverfa
hlífar flagds oc lagdi
jálcs vid öndort fylki
öndor förf at landi.

Þar vard allmikil orosta; hafdi Hákon Jarl lid miklo meira, oc feck sigr. Þetta var á Þínganesi, þar er mætiz Sogn oc Hördaland. Ragnfredr konungr flydi til scipa sinna, enn þar fell af lidi hans CCC manna. Sva segir í Velleklo:

Straung vard gudr ádr gunnar
gammi nás und hramma
þreyngvi meidr of þryngvi
þrimr hundrodom lunda.
Knátti hafs at höfdom
hagnadr var þat bragna
fólk eflandi fylkir
fángsæll þadan gánga.

Eptir orosto þessa flydi Ragnfredr konungr or No-

regi, enn Hákon Jarl fridadi land, oc let fara aptr nordr her þann hinn mikla, er hanom hafdi fylgt um sumarit; enn hann dvaldiz þar um haustit, oc sva um vetrinn.

## CAP. XIX.

## QVANFÁNG HÁKONAR JARLS.

Hákon Jarl geck at eiga kono þá er het Þóra, dóttor Skaga Skoptasonar, ríks mans. Þóra var allra qvenna frídoz; þeirra synir voro Sveinn oc Hemingr; Bergliót het dóttir þeirra, er sídan átti Einar Þambarscelfir. Hákon Jarl var qvenna-madr mikill, oc átti mörg börn; Ragnhilldr het dóttir hans; hana gipti hann Scopta Scagasyni, bródor Þóro. Jarl unni Þóro sva mikit, at hann gerdi ser miklo kærri, enn adra menn, frændor Þóro; oc var þó Scopti mágr hans mest metinn af öllom þeim. Jarl veitti hönom stórar veizlor á Mæri. Enn hvert sinn er þeir voro í leidangri, þá scylldi Scopti leggia scip sitt næst scipi Jarls, enn aungom ödrom scylldi þat hlyda, at leggia nockot scip milli scipa þeirra.

## CAP. XX.

## FALL TÍDINDA-SCOPTA.

Þat var eino sumri er Hákon Jarl hafdi leidangr úti, þá styrdi þar scipi med hanom Þórleifr Spaki. Eiríkr sonr Hákonar Jarls, var oc þar í för, var

hann þá X vetra edr XI. Enn er þeir lögdo til hafnar á qvelldom, þá let Eiríkr ser eigi lika annat, enn þeir legdi til lægir næst scipi Jarls. Enn er þeir komo sudr á Mæri, þá kom þar Scopti mágr Jarls med lángscip vel scipat. Enn er þeir róa at flotanom, þá kallar Scopti, at Þórleifr sculi ryma höfnina fyrir hanom, oc leggia or lægino. Eiríkr svarar sciótt, bad Scopta leggia i annat lægi. Þetta heyrdi Hákon Jarl, at Eiríkr son hans þóttiz nú sva rikr, at hann vill eigi vegia fyrir Scopta; kalladi Jarl þegar, bad þá leggia or lagino, segir at þeim mundi annarr kostr vera verri, oc þeir mundo vera bardir brátt. Enn er Þórleifr heyrdi þetta, het hann á menn sina, oc bad leggia scipit or tengslom, oc sva var gert. Lagdi þá Scopti í lagit, þat sem hann var vanr at hafa, næst scipi Jarls. Scopti scylldi segia tidindi öll Jarli, þá er þeir voro bádir samt; enn Jarl sagdi Scopta tídindi, ef hann spurdi fyrr; hann var því kalladr Tidinda-Scopti. Um vetrinn eptir var Eiríkr med Þórleifi Fóstra sínom; enn um várit snimma feck Eiríkr ser sveit manna; Þórleifr gaf hönom scúto fimtán-sesso, med öllom reida, tiölldom oc vistom: hellt Eiríkr þá út eptir firdi, oc sídan sudr á Mæri. Tidinda-Scopti fór med XV-sesso alscipada millom búa sinna, enn Eiríkr leggr til móts vid hann, oc til bardaga; þar fell Scopti; enn Eiríkr gaf grid þeim mönnom er þá stódo uppi. Sva segir Eyolfr Dádascalld í Bandadrápo:

Meita fór at móti
miök síd um dag scídi
úngr med iöfno gengi
út vers frömom Hersi.
þá er ridloga reidir
randvallar let falla
úlfteitir gaf áto
opt blódvölom Scopta.
Hoddsveigir letz hníga
harda ríkr þá er bardiz
logreifiss brátto lífi
landmann kiars banda.
Stálægir nam stíga
stafns flet hlackar hrafna
af dynbeidi daudom
dregr land at mun banda.

Sidan sigldi Eiríkr sudr med landi, oc kom fram í Danmörk, fór þá á fund Harallds konungs Gormssonar, oc var þar med hanom um vetrinn. Enn eptir um várit sendi Dana konungr Eirik nordr í Noreg, oc gaf hanom Jarldóm, oc þar med Víngulmörk oc Raumaríki til yfirsócnar, med þeim hætti, sem fyrr höfdo þar haft scattkonungar. Sva segir Eyolfr Dádascalld:

Fólk styrir var fárra
finnz ölknarrar linna
sudr at siávar nadri
setbergs gamall vetra;
ádr at yggiar brúdi
elhvetiandi setia
hilldar hiálmi falldinn
hodd-milldingar villdo.

Eirikr Jarl vard sidan höfdingi mikil.

## CAP. XXI.
## FERD OLAFS TRYGGVASONAR OR GÖRDOM.

Olafr Tryggvason var þessar hrídir allar í Gardaríki, oc hafdi þar et mesta yfirlát af Valldimar konungi, oc kærleika af drottningo. Valldimar konungr setti hann höfdingia yfir herlid þat, er hann sendi til at verią landit: sva segir Hallarsteinn:

Tólf var elldz at alldri
ysetrs hati vetra
hraustr þá er herscip glæsti
Hördá vinr or Gördom.
Hlódo hamdis klædom
hiörva gnys oc skvom
hilmis menn sem hiálmom
hlyr vigg enn mól styri.

Átti Olafr þar nockorar orostor, oc vard hǫnom herstiórnin vel í hendi. Hellt hann þá siálfr sveit mikla hermanna af sínom kostnadi, þeim er konungr veitti hanom. Olafr var örr madr vid sína menn, vard hann af því vinsæll. Enn þá vard þat sem optliga kann verda, þar er útlendir menn hefiaz til ríkis, eda til sva mikillar frægdar, at þeir verdi umfram innlendsca menn, at margir öfundudo þat, hverso kærr hann var konungi, oc eigi sídr drottningo; mælltǫ menn þat fyrir konungi, at hann scylldi varaz at gera Olaf eigi ofstóran, fyrir því at slíkr madr er þer hættastr, ef hann vill sic til þess liá, at gera ydr mein, edr ydro ríki; er hann sva búinn att íþróttom oc atgervi oc vinsælld; vitom ver

oc eigi hvat er þau drottning tala iafnan. Þat var sidr mikill hinna ríko konunga, í þann tíma, at drottning scylldi eiga hálfa hirdina, oc hallda med sínom kostnadi, oc hafa þar til scatta oc scylldir, sva sem þyrfti; var þar oc sva med Valldimar konungi, at drottning hafdi eigi minni hird enn konungr, oc keptoz þau miök um ágætis menn, villdi hvartveggia til sín hafa. Nú gerdiz sva, at konungr festi trúnad á slícar rædor, sem mællt var fyrir hanom, oc gerdiz hann nockot fár oc styggr vid Olaf. Enn er Olafr fann þat, þá segir hann drottningo, oc þat med, at hann fystiz at fara í nordrlönd, oc segir, at frændor hans hafa þar fyrr ríki haft, oc, hanom þickir líkaz at þar mani þrosci hans mestr verda. Drottning bidr hann vel fara, segir at hann muni þar göfigr þickia sem hann væri. Sídan byr Olafr ferd sína, oc geck á scip, oc hellt sva út í hafit í Eystra Sallt. Sva segir Marcus Skeggiason í Rekstefio:

Senn öll sídan runno
Sneckio bord or Gördom
her-mörg hala urgur
hilldíngs und gram milldom.
Vestrlönd virda kindar
verfákom let heriat
aldyggr arfi Tryggva
Olafr, oc klauf stáli.

Enn er hann sigldi austan, þá kom hann vid Borgundarhólm, oc veitti þar upprás, oc heriadi, enn

landsmenn sótto ofan, oc helldo orosto vid hann, oc feck Olafr sigr oc herfáng mikit.

## CAP. XXII.

## QVANFÁNG OLAFS KONUNGS TRYGVASONAR.

Olafr lá vid Borgundarhólm, oc fengo þeir vedor hvöss, oc storm siávar, oc mego þeir þar eigi vidfestaz, oc sigla þadan sudr undir Vindland, oc fá þar höfn góda, fara þar allt med fridi, oc dvölldoz þar um hrid. Burislafr het komungr i Vindlandi; hans dætor voro þær Geira, Gunnhilldr oc Astridr; Geira konungs dóttir hafdi þar valld oc ríki, sem þeir Olafr komo at landi; Dixin er sá madr nefndr, er mest forrád hafdi med Geiro drottningo. Enn er þau höfdo spurt, at þar voro vid land komnit úkunir menn, þeir er tiguliga leto yfir ser, oc þeir fóro þar med fridi, þá fór Dixin á fund þeirra med ordsending Geiro drottningar, þá, at hon vill bióda þeim mönnom til vetr vistar, er þar voro komnir, þvíat þá var miök lidit á sumarit, enn vedrátta hörd, oc stormar miklir. Enn er Dixin kom þar, þá vard hann brátt þess varr, at þar red fyrir ágætr madr, bædi at æt oc á synom. Dixin segir þeim, at drottning baud þeim til sín med vinátto bodi; Olafr þektiz bod þetta, oc fór um haustit til Geiro drottningar, oc syndiz hvart þeirra ödro afarvel, sva at Olafr hefir uppi ord sín, oc bidr Geiro drottningar,

oc verdr þat at rádi gert, at Olafr fær Geiro drottningar þann vetr; gerdiz hann þar þá forráda-madr þess ríkis med henni. Hallfredr Vandræda-scalld getr þess í drápo þeirri er hann orti um Olaf konung:

> Hilmir let at hólmi
> hræscód rodin blódi,
> hvatt of dylldi þess hölldar,
> hörd, oc austr í Gördom.

## CAP. XXIII.

## HÁKON JARL GELLDR EI SKATTA.

Hákon Jarl red fyrir Noregi, oc gallt engan scatt, fyrir þá sök, at Dana konungr veitti hönom skatta alla, þá er konungr átti í Noregi, til starfs oc kostnadar, er Jarl hafdi til at veria landit fyrir Gunnhilldar sonom.

## CAP. XXIV.

## ÚTBOD HARALLDS KONUNGS MÓTI CRISTNIBODI OTTO KEISARA.

Otta keisari var þá í Saxlandi: hann sendi bod Haralldi Dana-konungi, at hann scylldi taka skírn oc trú retta, oc þat landsfólk allt, er hann styrdi: enn at ödrom kosti, segir keisari, at hann mundi fara med her á hendor hanom. Þá let Dana konungr búa landvarnir sínar, let þá vel upphallda virki, oc búa herscip sín. Þá sendi hann bod í

Noreg Hákoni Jarli at hann scylldi koma til hans snimma um várit, med allan her þann, sem hann fengi. Baud Hákon Jarl her út um várit af öllo ríki síno, oc vard hann allfiölmedr, oc hellt hann lidi því til móts vid Dana-konung; Tók konungr allsæmiliga vid hanom. Margir adrir höfdingiar voro þá med Danakonungi, þeir er hanom veitto lid; hafdi hann þá allmikinn her.

## CAP. XXV.

## HERNADR OLAFS KONUNGS TRYGGVASONAR.

Olafr Tryggvason hafdi verit um vetrinn í Vindlandi, sem fyrr er ritat: hann fór um vetrinn til þeirra herada þar á Vindlandi, er legit höfdo undir Geiro drottningo, oc höfdo þá undan horfit allri hlydni oc skattgiöfom þannog. Þar heriar Olafr, oc drap marga menn, enn brendi fyrir sumom, tók fe mikit, oc lagdi undir sic þau ríki; fór sídan aptr til borgar sinnar. Snemma um várit bió Olafr scip sín, oc sigldi sídan í haf; hann sigldi undir Scáni, veitti þar uppgaungo, enn landzmenn sömnodoz saman, oc helldo orosto, oc hafdi Olafr sigr, oc feck herfáng mikit. Sídan sigldi hann austr til Gotlands; þar tók hann kaupscip, er Jamtar átto; þeir veitto vörn mikla, oc lauk sva, at Olafr raud scipit, oc drap mart manna, oc tók fe allt. Þridio orosto átti

hann á Gótlandi; hafdi Olafr þar sigr, oc feck mikit herfáng. Sva segir Hallfredr Vandrædascalld:

Endr let Jamta kindir
allvalldr í styr falla,
vandiz hann oc Vinda
veggrimmr á þat snimma.
Hættr var hersa dróttinn
hiör diarfr Gota fiörvi
gullscerdi-frá oc gerdo
geir-þey á Scáneyo.

## CAP. XXVI.

## OROSTA VID DANAVIRKI.

Otta keisari dró saman her mikinn; hann hafdi lid af Saxlandi, oc Fracklandi, oc Fríslandi, oc Vindlandi. Fylgdi hanom Burisleifr konungr med mikinn her, oc í lidi var med hanom Olafr Tryggvason, mágr hans. Keisarinn hafdi riddara her mikinn, enn miklo fleiri fótgaungo her; hann hafdi oc af Hölltsetalandi mikinn her. Haralldr Danakonungr sendi Hákon Jarl med Nordmanná her þann sem hanom fylgdi, sudr til Danavirkis, at veria þar landit. Sva segir í Velleklo:

Hitt var auc at eykir
aurbords á vit nordan
und sigr runni svinnom
sunnr Danmarcar runno.
Oc hólmfiötrs hiálmi
Hörda valldr of falldinn
Dofra Danscra iöfra
dróttinn fund of sótti.

Oc vid fyrst at freista
femilldr konungr villdi
myrk folldyniar marcar
mord álfs þess er kom nordan;
þá er valserkiar virki
vedr hirdir bad stirdan
fyrir hlymmiördom Hörda
Hagbarda gramr varda.

Otta keisari kom med her sinn sunnan til Danavirkis; enn Hákon Jarl vardi med síno lidi borgar veggina. Danavirki var sva háttat, at firdir II gánga í landit, sínom megin lands hvarr, enn milli fiardarbotna höfdo Danir gert borgarvegg mikinn af grióti oc torfi oc vidom, oc grafit dyki breitt oc diúpt fyrir utan, enn kastalar fyrir borgar hlidom. Þá vard orosta mikil. Þess getr í Velleklo:

Vara í gögn þótt gerdi
gard rögnir styr hardan
gengilict at gánga
geir rásar her þeirra.
þá er med Frísa fylki
fór gunnvidor sunnan
qvaddi vígs oc Vinda
vags blackridi Fracka.

Hákon Jarl setti fylkingar yfir öll borgarhlidin, enn hitt var þó meiri lutr lids, er hann let fara allt med borgarveggionom, oc veria þar sem hellz var at sótt: fell þar mart manna af keisarans lidi; enn þeir fengo ecki unnit at borginni: Snyr þá keisari í brott oc leitadi þar ecki lengr til. Sva segir í Velleklo:

þrym vid logs þar er lögdo
leik midiungar þridia

arngreddir vard odda
audvígr, saman randir:
Sund faxa kom Söxom
sæki þróttr á flótta
þar er sva gramr med gumnom
gard yr þiódom vardi.

Eptir þessa orosto fór Hákon Jarl aptr til scipa sinna, oc ætladi þá at sigla nordr aptr í Noreg, enn hönom gaf ecki byr, oc lá hann þá úti í Limafirdi.

## CAP. XXVII.

## SKÍRDR HARALLDR KONUNGR GORMSSON OC HÁKON JARL.

Otta keisari snyr þá þegar her sínom til Sles, dregr hann þar at ser scipa herin, flytr þar lidit yfir fiördinn á Iótland. Enn er þat spyrr Haralldr Dana konungr, þá ferr hann í móti med her sinn, oc verdr þar orosta mikil, oc at lyctom færr keisarinn sigr, enn Dana konungr flydi undan til Limafiardar, oc fór út í Mársey. Fóro þá menn milli þeirra konungs oc keisara, oc var komit gridom á oc stefnolagi, fundoz þeir Otta keisari oc Dana konungr í Mársey. Enn þá bodadi Poppo biskop heilaga trú fyrir Haralldi konungi, oc hann bar iárn glóanda í hendi ser, oc syndi Haralldi konungi hönd sina óbrunna. Sídan let Haralldr konungr scíraz med allan Dana her. Haralldr konungr hafdi ord send Hákoni þá er hann sat í Mársey, at Jarl scylldi koma til

lidveizlo

lidveizlo vid hann; var Jarl þá kominn til eyarinnar, er konungr hafdi sciraz látit; sendir þá konungr ord, at Jarl scylldi koma til fundar vid hann; enn er þeir hittaz, þá naudgar konungr Jarli til at láta sciraz var þá Hákon Jarl scírdr, oc þeir menn allir, er þar fylgdo hanom, feck þá konungr í hendor hönom presta oc adra lærda menn, oc segir at Jarl scal láta scira allan lyd í Noregi. Scilldoz þeir þá; fer Hákon Jarl út til hafs, oc bídr þar byriar.

## CAP. XXVIII.

## HÁKON JARL KASTAR TRÚ SINNI, BLÓTAR OC HERIAR Á GAUTLAND.

Enn er vedr þat kemr, er hanom þótti sem hann mundi í haf bera, þá scaut hann á land upp öllom lærdom mönnom, enn hann sigldi þá út á haf, enn vedr geck til útsudrs oc vesturs, siglir Jarl þá austr í gegnom Eyrarsund, heriar hann þá á hvartveggia land. Sídan siglir hann austr fyrir Scáneyar sído oc heriadi þar, hvar sem hann kom vid land. Enn er hann kom austr fyrir Gautascer, þá lagdi hann at landi: gerdi hann þar blót mikit. Þá komo þar fliúgandi hrafnar tveir oc gullo hátt, þá þickiz Jarl vita, at Odinn hefir þegit blótit, oc þá mun Jarl hafa dag-rád til at beriaz. Þá brennir Jarl scip sín öll, oc gengr á land upp med lidi síno öllo, oc fór allt herscilldi. Þá kom á móti hönom Ottar Jarl;

hann red fyrir Gautlandi; átto þeir saman orosto mikla, fær þá Hákon Jarl sigr, enn Ottar Jarl fell, oc mikill luti lids med hönom. Hákon Jarl fær um Gautland hvarttveggia oc allt med herscilldi, til þess er hann kemr í Noreg; fer sídan landveg allt nordr í þrándheim. Frá þesso segir í Velleklo:

Flotta geck til frettar
felli niördr á velli
draugr gat dolga sogo
dagrád Hedins váda;
oc hald bodi hilldar
bræ gamma sá ramma
tyr villdi þá tyna
tein hlautar fiör Gauta.

Hádi Jarl þar er ádan
engi mannr und ranni
hyriar þíng at heria
hiör lautar kom Sörla.
Bara madr língs enn lengra
lopt vardadar barda
allt vann grammr of gengit
Gautland, frá siá randir.

Valföllom hlód völlo,
vard rögna konr gagni
brídar ass at hrósa,
hlaut Odinn val, Fróda.
Hver se if nema iöfra
ætt ryri god styra
ramm aukinn qved ec ríki
rögn Hákonar magna.

## CAP. XXIX.
## HEIMFERD OTTO KEISARA.

Otta keisari fór aptr í Saxland í ríki sitt. Scilld-

oz þeir Dana konungr med vinátto. Sva segia menn, at Otta keisari gerdi gudsifiar vid svein, son Haralldz konungs, oc gaf hönom nafn sitt, oc var hann sva scírdr, at hann het Otta-Sveinn. Haralldr konungr hellt vel kristni allt til daudadags. Burislafr konungr fór þá til Vindlands, oc med hanom Olafr mágr hans. Þessarar orosto getr Hallfredr Vandrædascalld í Olafsdrápo:

Böd serkiar hió birki
barklaust í Danmörko
hleypi meidr fyrir Heida
hlunn viggia bæ sunnan.

## CAP. XXX.

## FERD OLAFS KONUNGS AF VINDLANDI

Olafr Tryggvason var III vetor á Vindlandi, ádr Geira drottning tók sótt, þá er hana leiddi til bana. Olafi þótti þat sva mikill skadi, at hann festi eigi yndi á Vindlandi sídan: red hann ser þá til herscipa, oc fór þá enn í hernad: heriadi fyrst um Frísland, þar næst um Saxland, oc allt í Flæmingialand. Sva segir Hallfredr Vandrædascalld:

Tíd höggvit let Tiggi
Tryggva sonr fyrir styggvan
leiknar hest á lesti
liótvaxin hræ Saxa.
Vin hródigr gaf vída
vísi margra Frísa
blöcko brúnt at drecka
blód qvelldrido stódi.

Rógs bar rècka lægir
ríkir valkæra líki,
herstefnir let hröfnom
hölld Flæmingia golldit.

## CAP. XXXI.
## HERNADR OLAFS KONUNGS TRYGGVA SONAR.

Sídan hellt Olafr Tryggvason til Englands, oc heriadi vída um landit; hann sigldi allt nordr til Nordimbralands, oc heriadi þar; þadan hellt hann nordr til Skotlands, oc heriadi þar vída: þadan sigldi hann til Sudreya, oc átti þar nockorar orostor; sídan hellt hann sudr til Manar, oc bardiz þar; hann heriadi oc vída um Irland; þá hellt hann til Bretlands, oc heriadi vída þat land, oc sva þar er kallat er Kumraland: þadan sigldi hann vestr til Vallands, oc heriadi þar; þá sigldi hann vestan oc ætladi til Englands; þá kom hann i eyar þær er Syllingar heita, vestr í haf frá Englandi. Sva segir Hallfredr Vandrædascalld:

Gördiz ungr vid Engla
ofvægr konungr bægia
naddskúrar red nærir
Nordimbra sá mordi.
Eyddi úlfa greddir
ógn blídr Scótom vída
gerdi seims med sverdi
sverdleik í Mön scerdir.
Ydrógar let ægir

eyverskan her deya
tyrr var tiörya dyrra
tírargiarn, oc Ira.
Bardi Brezkrar iardar
bygggvendr oc hió tiggi
grádr, þvarr geira hrídar
giódi Kunskar þiódir.

Olafr Tryggvason var IV vetor í þessom hernadi, sídan er hann fór af Vindlandi, til þess er hann kom í Syllingar.

## CAP. XXXII.

## SKÍRDIZ OLAFR KONUNGR TRYGGVASON Í SYLLINGOM.

Olafr Tryggvason, þá er hann lá í Syllingom spurdi hann at þar i eyonni var spámadr nockorr, sá er sagdi fyrir úordna luti, oc þótti mörgom mönnom þat miök eptr ganga. Gerdiz Olafi forvitni á at reyna spádom mans þessa. Hann sendi þann af mannom sínom, er fridastr var oc mestr, oc bió hann sem vegligaz, oc bad hann segia at hann væri konungr; þvíat Olafr var þá frægr ordinn af því um öll lönd, at hann var fridari oc göfugligri oc meiri, enn allir menn adrir. Enn sídan er hann fór or Gardaríki, hafdi hann ei meir af nafni síno, enn kalladi sic Ola, oc qvadz vera Gerzcr. Enn er sendimadr kom til spámanzins, oc sagdiz vera konungr, þá feck hann þessi andsvör: ecki ertú konungr, enn þat er rád mitt, at þú ser trúr konungi þínom;

eigi segir hann fleira þessom manni: fór sendimadr aptr, oc segir Olafi, oc fysti hann þess at meirr at finna þenna mann, er hann heyrdi slík andsvör hans, oc tók nú ifa af hanom, at hann væri eigi spámadr. Fór þá Olafr á hans fund, oc átti tal vid hann, oc spurdi eptir hvat spámadr segdi Olafi fyrir, hvernog honom mundi veita at ganga til ríkis, edr annarar hamingio? Einsetomadrinn svarar med helgom spádómi: þú mant verda ágætr konungr, oc ágæt verk vinna, þú mant mörgom mönnom til trúar koma oc skírnar, manto bædi þer hialpa í því oc mörgom ödrom; oc til þess, at þú ifir eigi um þessi mín andsvör, þá mátto þat til marks hafa, þú mant vid scip þín svikom mæta oc flockom, oc mun á bardaga rætaz, oc manto tyna nockuro lidi, oc siálfr sár fá, oc manto af því sári banvænn verda oc á scilldi til scips borinn; enn af þesso sári manto þó heill verda innan VII nátta, oc brátt vid skirn taka. Sídan fór Olafr ofan til scipa sinna, oo þar mætti hann úfridarmannom þeim er hann villdo drepa oc lid hans, oc vard þar bardagi, oc fóro þeirra vidscipti sva sem einsetomadr hafdi sagt hönom, at Olafr var sárr borinn á skilldi á skip út, oo sva, at hann vard heill á VII nóttom. Þóttiz þá Olafr vita, at þessi madr mundi hanom sanna luti sagt hafa, oc þat at hann var sannr spámadr, hvadan af sem hann hefdi þann spádóm. Fór þá Olafr annat sinn at finna þenna spámann, taladi þá mart vid hann, spurdi vendiliga, hvadan hönom kom sú speki, er hann

sagdi fyrir ú-ordna luti. Einsetomadr sagdi, at siálfr Gud kristinna manna let hann vita allt þat er hann forvitnadiz, oc sagdi hann þá Olafi mörg stórmerki almáttugs Guds, oc af þeim fortölom játti Olafr at taka scirn, oc sva var, at Olafr var scírdr þar, oc allt föroneyti hans. Dvalldiz hann þar miök lengi, oc nam retta trú, oc hafdi med ser presta, oc adra lærda menn.

## CAP. XXXIII.

## OLAFR FECK GYDO.

Olafr sigldi or Syllingom um haustit til Englands, lá þar í höfn einni, oc fór þar med fridi, þvíat England var krístit, oc hann var oc kristinn ordinn. Enn þar fór um landit þíngbod nockot, oc allir menn scylldo till þings koma. Enn er þing var sett, þá kom þar drottning ein er Gyda er nefnd, systir Olafs Kvarans er konungr var á Irlandi í Diflinni; hon hafdi gipt verit á Englandi Jarli einom ríkom, var sá þá andadr, enn hon hellt eptir ríkino. Enn sá madr var í ríki hennar, er nefndr var Alfvini, kappi mikill, oc hólmgaungo-madr; hann hafdi bedit hennar, enn hon svarar sva, at hon villdi kiör af hafa, hvern hon villdi eiga, af þeim mönnom er í hennar ríki voro, oc var fyrir þá söc þings qvatt, at Gyda skylldi ser mann kiósa; var þar kominn Alfvini, oc búinn med hinom besto klædom, oc margir adrir voro þar vel búnir. Olafr var þar

kominn, oc hafdi vas-klædi sín, oc lodkápo ytzta, stód hann med sína sveit út ífrá ödrom mönnom. Gyda geck oc leit á serhvern mann, þann er henni þótti nockot mans mót at vera. Enn er hon kom þar sem Olafr stód, oc sá upp í andlit hanom, spurdi hon, hver madr hann er; hann nefndi sic Ola; em ec útlendr madr her, segir hann. Gyda mællti: villto eigia mik, þá vil ec kiósa þic. Eigi vil ec neita því, segir hann. Hann spurdi, hvert nafn þeirrar kono var, ætt edr ödli. Gyda heiti ec, segir hon; dóttir konungs af Irlandi; var ec gipt hingat til lands Jarli þeim, er her red ríki. Nú sídan er hann andadiz, þá hefi ec styrt ríkino, menn hafa bædit mín, oc engi sá er ec villda giptaz. Hun var úng kona oc allfríd. Tala þau sídan þetta mál, oc semia þat sín á milli; festir Olafr ser Gydo.

## CAP. XXXIV.
## HOLMGÁNGA ALFVINA OC OLAFS KONUNGS.

Alfvina líkar nú afarilla. Enn þar var sidr á Englandi, ef II keptoz um einn lut, at þar sylldi koma til hólm-gánga; bydr Alfvini Olafi Tryggva syni til hólmgaungo um þetta mál. Þeir leggia med ser stefnolag til bardaga, oc sculo vera XII hvarir. Enn er þeir finnaz, mælir Olafr sva vid sína menn, at þeir geri sva sem hann gerir; hann hafdi öxi micla: enn er Alfvini villdi höggva sverdi til konungs, þá

laust hann sverdit or höndom hanom, oc annat högg siálfan hann, sva at Alfvini fell; sídan batt Olafr hann fast: Fóro sva allir menn Alfvina, at þeir voro bardir oc bundnir, oc leiddir sva heim til herbergia Olafs. Sídan bad hann Alfvina fara or landi brott, oc koma eigi aptr; enn Olafr tók allar eigor hans. Olafr feck þá Gydo, oc dvalldiz á Englandi, enn stundom á Irlandi.

## CAP. XXXV.

## OLAFR KONUNGR TRYGGVASON FÆR HUNDINN VÍGIA.

Þá er Olafr var á Irlandi, var hann staddr í herferd nockorri, oc fóro þeir med scipom; oc þá er þeir þurfto strandhöggva, þá gánga menn á land upp, oc reka ofan fiölda bú-smala: þá kemr þar eptir bóndi einn, oc bad Olaf gefa ser kyr þær, er hann átti. Olafr bad hann hafa kyr sínar, ef hann mætti kenna, oc dvel eigi ferd vora. Bóndi hafdi þar mikinn hiard-hund; hann vísadi hundinom í nauta flockana, oc varo þar rekin mörg hundrot nauta; hundrinn hióp um alla nauta flockana, oc rac í brott jam-mörg naut, sem bóndi qvadz von eiga, oc voro þau öll á einn veg mörcot; þóttoz þeir þá vita, at hundrinn mundi rett kent hafa. Þeim þótti hundr sá furdovitr. Þá spur Olafr, ef bóndi vill selia hanom hundinn? at helldr, segir bóndi, at

ec vil giarna gefa þer. Olafr gaf hönom þegar í stad gullhríng, oc het hanom vinátto sinni. Sá hundr het Vígi, oc var allra hunda bestr; átti Olafr hann lengi sídan.

## CAP. XXXVI.

## FRÁ HARALLDI KONUNGI GORMSSYNI OC HERNADI HANS TIL ISLANDS.

Haralldr Gormsson Dana konungr spurdi at Hákon Jarl hafdi kastat cristni, enn heriat land Dana konungs vida. Þá baud Haralldr Dana konungr her út, oc fór sídan í Noreg; oc er hann kom í þat ríki, er Hákon Jarl hafdi til forráda, þá heriar hann þar oc eyddi land allt, oc kom lidino í eyar þær er Sólundir heita. Fimm einir bæir stódo eptir í Lærardal, enn fólk allt flydi á fiöll oc markir, med lausafe þat allt er med mátti komaz. Þá ætladi Dana konungr at sigla lidi því mikla til Islands, oc hefna níds þess, er allir Islendingar höfdo níddan hann. Þat var í lögom haft à Islandi, at yrkia scylldi um Dana konung nídvíso fyrir nef hvert, er var á landino. Enn sú var söc til, at scip þat er Islendzkir menn höfdo átt, braut í Danmörk; enn Danir tóko upp fe allt, oc köllodo vagrec, oc red fyrir því bryti konungs, er Birgir het; var nídit ort um þá báda. Þetta er i nídino:

Þá er sparn á mó mörnis
mordkunnr Haralldr sunnan,

vard þá vinda myrdir
vax eitt í ham Faxa.
Enn bergsalar Birgir
böndom rækr í landi
þá sá ölld í iölldo
úríkr fyrir líki.

## CAP. XXXVII.

## HARALLDR KONUNGR SENDIR KUNGAN MANN HAMFÖROM TIL ÍSLANDS.

Haralldr konungr baud kungom manni at fara í hamförom til Islands, oc freista hvart hann kynni segia hanom: sá fór í hvals líki. Enn er hann kom til landsins, þá fór hann vestr fyrir nordan landit; hann sá at fiöll öll oc hólar voro fullir af landvættom, sumt stórt enn sumt smátt. Enn er hann kom fyrir Vapnafiörd, þá hellt hann inn á fiördinn, oc ætladi á land at gánga; þá fór ofan or dalnom dreki mikill, oc fylgdo hanom margir ormar, pöddor oc edlor, oc bleso eitri á hann; enn hann lagdiz í brott, oc vestr fyrir land, allt fyrir Eyafiörd; fór hann inn eptir þeim firdi; þar fór móti hanom fugl sva mikill, at vængirnir tóko út fiöllin tveggia vegna, oc fiölldi annara fugla, bædi stórir oc smáir. Braut fór hann þadan, oc vestr um landit, oc sva sudr á Breidafiörd, oc stefndi þar inn á fiörd; þar kom móti hanom gridungr mikill, oc ód á sæinn út, oc tók at gella ógurliga; fiölldi landvætta fylgdi hö-

nom. Brott fór hann þadan, oc sudr um Reykianes, oc villdi þar gánga upp á Vikar-skeidi. Þar kom i móti hanom bergrisi, oc hafdi járnstaf i hendi oc bar höfudit hærra enn Fiöllin, oc margir adrir jötnar med hanom. Þadan fór hann austr med endilaungo landi; var þá ecki, segir hann, nem sandar öræfi, oc brim mikit fyrir utan; enn haf sva mikit millom landanna, segir hann, at ecki er þar fært lángscipom. Þá var Brodd-Helgi í Vapnafirdi; Eyolfr Valgerdason i Eyafirdi; Þórdr Gellir i Breidafirdi; Þóroddr Godi i Olfusi. Sidan sneri Dana konungr lidi síno sudr med landi, oc fór sidan til Danmerkr; enn Hákon Jarl let byggia land allt, oc gallt enga skatta Dana konungi, medan hann lifdi.

## CAP. XXXVIII.

## FALL HARALLDR GORMSSONAR.

Sveinn sonr Harallds konungs, sá er sídan var kalladr Tiúguscegg, beiddiz ríkis af Haralldi konungi födor sinom; enn þá var enn sem fyrr, at Haralldr konungr villdi eigi tvískipta Danavelldi, oc vill ecki ríki fá hönom. Þá aflar Sveinn ser herscipa, oc segir, at hann vill fara i víking; enn er lid hans kom allt saman, oc þá var kominn til lids vid hann af Jomsvíkingom Pálnatóki, þá hellt Sveinn til Siálands, oc inn i Isafiörd; þá var þar fyrir med scipom sinom Haralldr konungr fadir hans, oc bióz at fara i leidángr. Sveinn lagdi þegar til orosto vid

hann; vard þar bardagi mikill. Dreif þá lid sva mikit til Haralls konungs, at Sveinn vard ofrlidi borinn oc flydi. Þar feck Haralldr konungr sár þau, er hann leiddo til bana. Sídan var Sveinn til konungs tekinn í Danmörk. Þá var Sigvalldi Jarl yfir Jomsborg á Vindlandi: hann var son Strút-Haralds konungs, er rádit hafdi fyrir Scáni: Brædor Sigvallda voro þeir Hemingr oc Þórkell enn Háfi. Þá var oc höfdingi yfir Jomsvíkingom Búi Digri af Borgundarhólmi oc Sigurdr bródir hans. Þar var oc Vagn son þeirra Áka oc Þórgunno, systorson þeirra Búa. Sigvalldi Jarl hafdi höndom tekit Svein konung, oc flutt hann til Vindlands til Jomsborgar, oc naudgadi hanom til sætta vid Burislaf Vinda konung, oc til þess at Sigvalldi Jarl scylldi gera sætt milli þeirra. Sigvalldi Jarl átti þá Astrídi, dóttor Burislafs konungs. Enn at ödrom kosti segir Jarl, at hann mundi Svein konung fá í hendor Vindom. Enn konungr vissi þat, at þeir mundo qvelia hann til bana; játti hann fyrir því sættargerd Jarls. Sigvalldi Jarl dæmdi þat, at Sveinn konungr scylldi fá Gunnhilldi dóttor Burislafs konungs, enn Burislafr konungr scylldi fá Þyri Haralls dóttor, systor Sveins konungs; enn hvartveggi þeirra scylldi hallda ríki síno, oc scylldi vera fridr milli landa. Fór þá Sveinn konungr heim í Danmörk med Gunnhilldi kono sína. Þeirra synir voro þeir Haralldr oc Knútr hinn Ríki. I þann tíma heitodoz Danir miök at fara med her í Noreg á hendor Hákoni Jarli.

## CAP. XXXIX.

## HEITSTRENGING JOMSVÍKINGA.

Sveinn konungr gerdi mannbod ríkt, oc stefndi til sín höfdingiom öllom, þeim er voro í ríkino. Hann scylldi erfa Haralldr födor sinn. Þá hafdi oc andaz litlo ádr Strút-Haralldr á Scáni, oc Veseti í Borgundarhólmi, fadir þeirra Búa Digra. Sendi Sveinn konungr þá ord þeim Jomsvíkingom, at Sigvalldi Jarl oc Búi, oc brædor þeirra scylldo þar koma, oc erfa fedor sína, at þeirri veizlo, er konungr gerdi. Jomsvíkingar fóro til veizlonnar med öllo lidi sino, þvi er fræknaz var. Þeir höfdo XL scipa af Vindlandi, enn XX scip af Scáni. Þar kom saman allmikit fiölmenni. Fyrsta dag at veizlonni, ádr Sveinn konungr stigi í hásæti födor sins, þá drack hann minni hans, oc strengdi heit, ádr III vetor væri lidnir, at hann scylldi vera kominn med her sinn til Englands, oc drepa Adalrád konung, edr reka hann or landi. Þat minni scylldo allir drecka, þeir er at erfino voro. Því næst var skeinkt fyrst höfdingiom Jomsvíkinga hin stærsto horn af enom sterkasta dryck, er þar var. Enn er þat minni var afdruckit, þá scylldi drecka Cristsminni allir menn, oc var Jomsvíkingom borit æ-fullast oc sterkastr dryckrinn. Hit þridia var Michials minni, oc drucko þat allir. Enn eptir þat drack Sigvalldi Jarl minni födor síns, oc strengdi heit sídan, at ádr III vetor væri lidnir, scylldi hann vera kominn í Noreg, oc drepa Hákon

Jarl, eda reka hann or landi. Sídan strengdi heit Þórkell Háfi bródir hans, at hann scylldi fylgia Sigvallda bródor sínom til Noregs, oc flya eigi or orosto sva at Sigvalldi berdiz þá eptir. Þá strengdi heit Búi Digri, at hann mundi fara til Noregs med þeim, oc flya eigi or orosto fyrir Hákoni Jarli. Þá strengdi heit Sigurdr bródir hans, at hann mundi fara til Noregs, oc flya eigi medan meiri lutr Jomsvíkinga berdiz. Þá strengdi heit Vagn Akason, at hann scylldi fara med þeim til Noregs oc koma, eigi aptr, fyrr enn hann hefdi drepit Þórkell Leiro, oc gengit í reckio hiá Ingibiörgo dóttor hans, utan frænda rád. Margir höfdingiar adrir strengdo heit ymissa luta. Drucko menn þann dag erfit. Enn eptir um morguninn, þá er Jomsvíkingar voro údrucknir, þóttoz þeir hafa fullmællt, oc hafa málstefnor sína, oc ráda rádom, hvernog þeir sculo tilstilla um ferdina; ráda þat af, at búaz þá sem scyndiligaz. Búa þá þegar scip sín oc herlid: Vard þat allfrægt vída um lönd.

## CAP. XL.

## HERBOD ÞEIRRA EIRÍKS OC HÁKONAR JARLA.

Eiríkr Jarl Hákonar son spyrr þessi tídindi; hann var þá á Raumariki; dró hann þegar lid at ser, oc ferr til Upplanda oc sva nordr um Fiall til á Þrándheims, fund Hákonar Jarls födor sins. Þess getr Þórdr Kolbeinsson i Eiríks-drápo:

Oc sannliga sunnan
sásc vid bóendor hásca
stríd of Stála meida
Stór hersögor fóro.
Súdlanngom frá ec Sveida
sunnr af dregnom hlunni
vangs á vatn of þrúngit
viggoleid Dana sceidom.

Hákon Jarl oc Eirikr láta scera upp herör um öll þrændalög; senda oc bod á Mæri hvaratveggio, oc í Raumsdal, sva nordr í Naumodal oc á Háogaland. Stefna sidan út öllom almenning, bædi at lidi oc scipom. Sva segir i Eiríksdrápo:

Miök let margar sneckior
Mærder örr sem knörro,
ódr vex scálldz, oc skeidar
scialld lynr á brim dynia.
þá er ólitin utan
elherdir fór gerda,
mörg var lind fyrir landi,
lönd síns födor röndo.

Hákon Jarl hellt þegar sudr á Mæri í niósn, oc í lid samnat; enn Eiríkr Jarl dró saman herinn oc flutti nordan.

## CAP. XLI.

## FERD JOMSVIKINGA Í NOREG.

Jomsvíkingar helldo lidi síno til Limafiardar, oc sigldo þadan út á hafit oc höfdo LX scipa, oc komo utan at Ögdom; hallda þegar lidino nordr á Rogaland,

Rogaland, taka þá at heria þegar er þeir koma í ríki Hákonar Jarls, oc fara sva nordr med landi, oc allt vid herscilldi. Geirmundr er sá madr nefndr, er fór med hleypiscúto eina, oc nockirir menn med hanom; hann kom fram nordr á Mæri, oc fann þar Hákon Jarl, geck inn fyrir bordit, oc segir Jarli tídindi, at her var sudr í landi, kominn af Danmörk. Jarl spurdi, ef hann vissi sannindi á því. Geirmundr brá upp hendi annari, oc var þar afhöggvinn hreifinn, segir, at þar voro iartegnir, at her var í landino. Sídan spurdi Jarl inniliga um her þenna. Geirmundr segir, at þar voro Jomsvíkingar, oc höfdo drepit marga menn, oc vída rænt; fara þeir þó, segir hann, sciótt oc allákafliga; vætti ec, at eigi muni ádr lángt lída, enn þeir muni her nidr koma. Sídan reri Jarl alla fiördo inn med ödro landi, enn út med ödro, oc feck ser lid, fór dag oc nótt, oc hafdi niósn et efra um Eid, sva sudr í Fiördo; sva oc nord, þar er Eiríkr fór med herinn. Þess getr í Eiríksdrápo:

Setti Jarl sá er atti
ógnfródr á lög stódi
brefnis háfa stafna
hót Sigvallda at móti.
Margr scalf hlumr enn hvergi
huggendr bana ugdo
þeir er gato siá slíta
sárgamms blödom ára.

Ferr Eiríkr Jarl med herinn sudr sem snúdoligaz,

## CAP. XLII.

## FRÁ JOMSVIKINGOM OC ÞEIRA HERNADI.

Sigvalldi Jarl hellt lidi síno nordr um Stad, lagdi fyrst til Hereya. Þótt víkinga finni landsmenn, þá sögdo þeir alldri satt til hvat Jarlar höfdoz at. Jomsvíkingar heriado hvar sem þeir fóro; þeir lögdo utan at Höd, runno þar upp oc heriado, ráko til scipa bædi menn oc bú, enn drápo karla þá er vígt var at. Enn er þeir fóro ofan til scipa, þá kom þar til þeirra gángandi bóndi einn: enn þar fór nær sveit Búa. Bóndinn mællti: þer farit óhermannliga, rekit till strandar kyr oc kálfa, væri ydr meiri veidr at taka biörninn, er nú er nær kominn á biarnbásinn. Hvat segir karl, segia þeir, kanto nockot segia oss til Hákonar Jarls? Bóndi sagdi: hann fór í gær inn í Hiörundar fiörd, hafdi Jarl eitt scip eda tvö, eigi voro fleiri, enn III, oc hafdi ecki till ydar spurt. Þeir Búi taka þegar á hlaup til scipanna, oc láta laust allt herfáng. Búi mællti: Niótom ver nú, er ver höfom fengit niósn af Jarli oc verom næstir sigrinom. Enn er þeir koma á scipin, róa þeir þegar út. Sigvalldi Jarl kallar á þá, oc spurdi tídinda. Þeir segia at Hákon Jarl var þar inn í fiördinn. Sıdan leysir Jarl flotann oc róa fyrir nordan eyna Höd.

## CAP. XLIII.

## UPPHAF JOMSVÍKINGA OROSTO.

Hákon Jarl oc Eirikr Jarl son hans lágo í Hall-

kellsvík; var þar saman kominn her þeirra allr; höfdo þeir hálft annat hundrat scipa, oc höfdo þá spurt, at Jomsvíkingar höfdo lagt utan at Höd: rero þá Jarlarnir sunnan at leita þeirra. Enn er þeir koma þar sem heitir Hiörunga-vágr, þá finnaz þeir: scipa þá hvarirtveggio lidi síno til atlögo. Var í midio lidi merki Sigvallda Jarls framborit: þar í mót scipadi Hákon Jarl til atlögo; hafdi Sigvalldi Jarl XX scip enn Hákon Jarl LX scipa. I lidi Hákonar Jarls voro þessir höfdingiar: þórir Hiörtr af Hálogalandi; annar Styrcár af Gimsom. I annan fylkingar-arm var Búi Digri oc Sigurdr bródir hans, med XX scipom. þar lagdi í mót Eiríkr Jarl Hákonar son med LX scipa, oc med hönom þessir höfdingiar: Gudbrandr Hvíti af Upplöndom, oc þorkell Leira, Wikverscr madr. I annan fylkingararm lagdi fram Vagn Akason med XX scipom; en þar í móti Sveinn Hákonar son, oc med hanom Skeggi af Yriom af Upphaugi, oc Rögnvalldr or Ærvík af Stadi, med LX scipa. Sva segir í Eiríksdrápo:

Enn í gegn at gunni
glæheims skrido mæar
rendi lángt med landi,
leidángr, Dana skeidom,
þær er Jarl und árom
ærins gulls á mæri
Barms rac vigg und vörmom
valkesti, rand flestar.

Eyvindr Skalldaspillir segir oc sva í Háleygiatali:

þar vard minztr
mein vinnöndom

Yngvi Freys
önverdan dag
fagna fundr,
er flota þeysto
iardrádendor
at eydöndom.
Þá er sverd-álfr
sunnan knydi
lagar stód,
at lidi þeirra.

Sídan lögdo þeir saman flotann, oc tókz þar enn grimmasta orosta, oc fell mart af hvaromtveggiom, oc mikló fleira af Hákonar lidi, þviat Jomsvikingar bördoz bædi hraustliga oc diarfliga oc snarpliga oc scuto allt í gegnom sciölldona. Oc sva mikill vapnaburdr var at Hákoni Jarli, at brynia hans var slitin til ónyts, sva at han kastadi af ser. Þess getr Finr Hallkelsson:

Varda Gims sem gerdi
gerdr biúglimom herda
gnyr óx Fiölnis furá
farlig sæing Jarli.
Þá er hríngfám hánga
hrynserc vidorr brynio
hrudoz ridmarar roda
rastar vard at kasta.

Þars í sundr á sundi
Sörla hiós fyrir Jarli
þess hefir seggia sessi
serc hríngofin merki.

## CAP. XLIV.

## FLÓTTI SIGVALLDA JARLS.

Jomsvikingar höfdo scip stærri oc bordmeiri, enn

hvarirtveggio sótto et diarfasta. Vagn Akason lagdi svá hart fram at scipi Sveins Hákonarsonar, at Sveinn let á hömlo síga undan, oc hellt vid flótta. Þá lagdi þannog til Eiríkr Jarl oc fram í fylking móti Vagni. Þá let Vagn undan síga, oc lágo scipin sem í fyrsto höfdo legit. Þá red Eiríkr aptr til lids síns, oc höfdo þá hans menn undan hamlat: enn Búi hafdi þá höggvit tengslin, oc ætladi at reka flóttann. Þá lagdi Eiríkr Jarl síbyrt vid scip Búa, oc vard þá högg-orosta en snarpasta, oc lögdo þá II edr III Eiriks scip at Búa scipi eino; þá gerdi illvidri oc el sva mikit, at haglkorn eitt va eyri. Þá hió Sigvalldi tengslin, oc sneri undan scipi síno, oc villdi flya. Vagn Akason kallar á hann, oc bad hann eigi flya; Sigvalldi Jarl gaf eingan gaum at, hvat hann sagdi; þá scaut Vagn spióti at hönom, oc laust þann er vid styrit sat. Sigvalldi Jarl reri í brott med hálfan fiórda tug scipa, enn eptir lá hálfr þridi tugr.

## CAP. XLV.

## BÚI DIGRI STEYPTIZ FYRIR BORD.

Þá lagdi Hákon Jarl sitt scip á annat bord Búa; var þá Búa mönnom scamt höggva i millom. Vigfús Víga-Glumsson tók upp nefstedia er lá á þilionom, er madr hafdi ádr hnodit vid hugró á sverd síno; Vígfús var allsterkr madr; hann kastadi stedianom tveim höndom oc færdi í höfot Asláki Hólmscalla, sva at geirin stód í heila nidri. Aslák höf-

do eigi ádr vapn bitit, enn hann hafdi höggvit til beggia handa; hann var fóstri Búa, oc stafnbúi. Enn annarr var Hávardr Höggvandi: hann var enn sterkasti madr oc allfrækn. I þessari atsócn gengo upp Eiríks menn à scip Búa, oc aptr at lyptingunni at Búa. Þá hió Þórsteinn Midlángr til Búa um þvert nefit í sundr nefbiörgina, oc vard þat allmikit sár; enn Búi hió til Þórsteins utan á sídona, sva at í sundr tók manninn í midio. Þá tók Búi upp kistor tvær fullar gulls, oc kalladi hátt: fyrir bord allir Búa lidar! steyptiz Búi þá utan bords med kisturnar, oc margir hans menn hliópo þá fyrir bord, enn sumir fello á scipino, þviat eigi var gott grida at bidia; var þá hrodit allt scip Búa med stöfnom, enn sídan hvert at ödro.

## CAP. XLVI.

## BUNDNIR JOMSVÍKINGAR Á STRENG.

Sidan lagdi Eiríkr Jarl at scipi Vagns, oc var þar allhörd vidrtaka. Enn at lyctom var hrodit scip þeirra, enn Vagn handtekinn, oc XXX manna med hönom, oc fluttir á land upp bundnir. Þá geck til Þórkell Leira, oc mællti: þess strengdir þú heit Vagn, at drepa mik; enn mer þikir hitt nú líkara, at ec drepa þik. Þeir Vagn sáto á einni lág allir saman: Þórkell haldi eina mikla öxi, hann hió þann er yztr sat á láginni. Þeir Vagn voro sva bundnir, at einn strengr var snúinn at fótom þeim öllom,

enn lausar voro hendor þeirra. Þá mællti ein þeirra: dálk hefi ec í hendi, oc mun ec stínga í iördina, ef ec veit nockot, þá er höfot er af mer höggvit: höfot var af hönom höggvit, oc fell nidr dálkrinn or hendi hanom. Þá sat madr allfrídr oc hærdr vel, hann sveipti hárino fram yfir höfot ser, oc retti fram hálsinn oc mælti: gerit eigi hárit í blódi. Einn madr tók hárit í hönd ser oc hellt fast. Þórkell reiddi at öxina; víkingrinn kipti höfdino fast, laut sá eptir er hárino hellt, enn öxin reid ofan á bádar hendor hönom, oc tók af sva at öxin nam í iördo stad; Þá mællti Vagn Akason oc hló: eigi ero enn allir Jómsvíkingar daudir. Þá kom at Eiríkr Jarl oc spurdi: hverr er þessi madr hinn frídi? Sigurd kalla mik sveinar, segir hann, oc em ec kenningarson Búa. Eiríkr segir: þú munt vera at vísso sannr son Búa, villto hafa grid, segir Jarl. Þat sciptir hverr bydr, sagdi Sigurdr. Sá bydr, segir Jarl, er valld hefir till, Eiríkr Jarl. Vil ec þá, segir hann: var hann þá tekinn or strenginom. Þá mællti Þórkell Leira: villto, Jarl, þessa menn alla láta grid hafa, þá scal alldrei med lífi fara Vagn Akason; hleypr þá fram med reidda öxina, enn víkingr Skardi reiddi sik til falls í strenginom, oc fell fyrir fætor Þórkelli; Þórkell fell flatr um hann. Þá greip Vagn öxina, oc hió Þórkel med bana högg. Þá mællti Jarl: Vagn, villtu hafa grid. Vil ec, segir hann, ef ver höfom allir. Leysi þá or strenginom, segir Jarl, oc sva var gert. XVIII voro drepnir, enn XII þágo grid

## CAP. XLVII.

## DRÁP GISSURAR AF VALLDRESI.

Hákon Jarl oc margir menn med hanom sáto á tre eino, þá brast strengr á scipi Búa, enn ör sá kom á Gitzor af Valldresi, lendanmann; hann sat næst Jarli, oc var búinn allvegliga. Sidan gengo menn á skipit út, oc fundo þar Hávard Höggvanda, oc stód hann á kniám vid bordit út, þvíat fætornir voro af hönom höggnir; hann hafdi boga í hendi. Enn er þeir komo á scipit út, þá spurdi Hávardr: hverr fell af láginni? þeir sögdo, at sá het Gitzor. Þá vard minna happit enn ec villda, segir hann. Ærit var óhappit, segia þeir, enn eigi skallto vinna fleiri, oc drepa hann. Sídan var vallrinn kannadr, oc borit fe til lutsciptis, hálfr þridi tugr scipa af þeim Jomsvíkingom. Sva segir Tindr Hallkelsson:

Vann á Vinda Sinni
verd biódr hugins ferdar
beit solgagar seilar
sverds eggia spor leggi,
Adr hiör meidar brióda
hætting var þat mætti
lidar lángra skeida
lids hálfan tog þridia.

Sídan skilia þeir her þenna; fer Hákon Jarl til Þrándheims, oc líkadi stórilla, er Eiríkr Jarl hafdi grid gefit Vagni Akasyni. Þat er sögn manna, at Hákon Jarl hafi í þessari orosto blotit til sigurs ser Erlíngi syni sínom, oc sídan gerdi el, oc þá sneri

mannfallino á hendor Jomsvíkingom. Eiríkr Jarl fór þá til Upplanda, oc sva austr í ríki sitt, oc fór Vagn Akason med hanom. Þá gipti Eiríkr Jarl Vagni Ingibiörgo dóttor Þórkels Leiro, oc feck hanom lángscip gott med öllom reida, oc feck hanom scipan til. Scilldoz þeir inir kærsto vinir; fer þá Vagn heim sudr til Dannmerkr, oc vard hann sidan ágætr madr, oc er mart stórmenni frá hönom komit.

## CAP. XLVIII.

## DAUDI HARALLDS KONUNGS GRÆNSKA.

Haralldr Grensci var konungr á Vestfolld, sem fyrr er ritit, hann feck Asto dóttor Gudbrands Kúlo. Eitt sumar, þá er Haralldr Grænski fór í Austrveg í hernat, at fá ser fiár, þá kom hann í Sviþiód. Þá var þar konungr Olafr Sænski; hann var son Eiríks konungs ens Sigrsæla, oc Sigrídar, dóttor Scöglar-Tosta; var Sigrídr þá eckia, oc átti mörg bú oc stór í Sviþiód. Enn er hon spurdi at þar var kominn vid land scamt í brott Haralldr Grænski fóstbródir hennar, þá sendi hon menn til hans, oc baud hanom til veizlo. Hann lagdiz þá ferd eigi undir höfot oc fór vid mikla sveit manna til Sigrídar. Þar var allgódr fagnadr; sat konungr, oc drottning í hásæti, oc drucko bædi samt um kvelldit, oc var veitt allkappsamliga öllom mönnom hans. Um kvelldit, er konungr fór til hvílo, þá var þar sæng tiölldot pellom, oc búinn dyrligom klædom; í því herbergi

var fátt manna. enn er konungr var afklæddr oc kominn í hvílo, þá kom drottning þar til hans, oc skenkti hanom siálf, oc lockadi hann miök til at drecka, oc var hin blídasta: konungr var allmiök druckinn oc bædi þau. Því næst sofnadi hann; enn dróttning geck þá til svefns. Sigrídr var hin vitrasta kona, oc forspá um marga luti. Eptir um morguninn, var veizla enn hin kappsamligsta. Enn þar vard sem iafnan verdr, þar er menn verda allmiök drucknir, at hinn næsta dag eptir varaz flestir menn vid dryckinn. Enn drottning var kát, oc töludo þau konungr sín á milli. Sagdi hon sva, at hon virdi eigi minna eignir þær oc ríki, er hon átti í Svíþiód, enn konungdóm hans i Noregi oc eignir. Vid þessar rædor vard konungr ógladr, oc fannz fátt um allt, oc bióz í brott, oc var allhugsiúkr; enn drottning var hin kátasta, oc leiddi hann í brott med stór giöfom. Fór þá Haralldr um haustit aptr til Noregs, var heima um vetrinn, oc allókátr. Eptir um sumarit fór hann í austrveg med lidi síno, oc hellt þá til Svíþiódar. Hann sendi ord Sigridi drottningo þau, at hann vill finna hana: hon reid ofan á fund hans, oc talaz þau vid; hann vekr brátt þat mál, ef Sigrídr villdi giptaz hanom. Hon segir, at þat var hanom hegóma mál, oc hann er ádr sva vel kvangadr, at hanom er fullrædi í. Haralldr segir, at Asta er gód kona oc göfog, enn ecki er hon sva stórborinn sem ec. Sigrídr svarar: vera kann þat, at þú ser ættstærri enn hon; hitt mundi ec ætla,

at med henni mundi vera nú beggia yckor hamingia. Litlo sciptoz þau fleirom ordom vid ádr drottning reid i brott. Haralldi konungi var þá helldr scapþúngt. Hann bióz at rída upp á land, oc fara enn á fund Sigrídar drottningar: margir hans menn lötto hann þess, enn eigi at sídr fór hann med mikla sveit manna, oc kom til þess bæar er drottning red fyrir. Hit sama kvelld kom þar annar konungr, sá het Visavalldr, austan or Gardaríki; sá fór at bidia Sigrídar drottningar. Þeim var scipat bádom konungunom í eina stofo mikla, oc öllo lidi þeirra; stofan var gömol, oc eptir því var allr búnadr stofunnar, enn dryck skorti þar eigi um kvelldit, sva áfengan, at allir voro fulldrucknir, oc höfutverdir oc útverdir sofnodo. Þá let Sigrídr drottning um nottinna veita þeim atgaungo, bædi med elldi oc vapnom; brann þar stofan, oc þeir menn sem inni voro; enn þeir voro drepnir sem út komoz. Sigrídr sagdi, at sva scylldi hon leida smá konungom at fara af ödrom löndom, til þess at bidia hennar. Sídan var hon köllot Sigrídr hin Storráda.

## CAP. XLIX.
## FEDDR OLAFR KONUNGR HARALLDSSON.

Þann vetr ádr var Jomsvíkinga orosta á Hiörungavági. Hrani hafdi verit eptir at scipom, þá er Haralldr hafdi gengit á land upp, med því lidi er eptir var, til forráda. Enn er þeir Hrani spurdo at Har-

alldr var af lifi tekinn, þá fóro þeir í brott sem tídaz oc aptr til Noregs, oc sögdo þessi tídindi. Hrani fór á fund Asto, oc segir henni allan atburd um för þeirra, oc sva hverra erinda Haralldr fór á fund Sigrídar drottningar. Asta fór þegar til Upplanda til födor síns, er hon hafdi spurt þessi tídindi, oc tók hann vell vid henni, enn bædi þau voro miök reid um þá ráda ætlan, er verit hafdi í Svíþiód, oc þat er Haralldr konungr hafdi henni ætlat einlæti. Asta Gudbrandsdóttir ól sveinbarn þá um sumarit; sá sveinn var nefndr Olafr, er hann var vatni ausinn; Rani iós hann vatni. Var sá sveinn þar uppfæddr fyrst med Gudbrandi oc Asto módor sinni.

## CAP. L.

## FRÁ HÁKONI JARLI.

Hákon Jarl red Noregi allt et ytra med siá, oc hafdi hann til forráda XVI fylki. Enn sídan er Haralldr hinn Hárfagri hafdi sva scipat, at Jarl scylldi vera i hverio fylki, þá hellzt þat lengi sídan. Hákon Jarl hafdi XVI Jarla undir ser. Sva segir í Velleklo:

Hvar viti ölld und einom
jardbyggvi sva liggia;
þat skyli her of huxa
hiarl oc XVI Jarla.
þess rídr furs med fiórom
folk leikr Hedins reikar
lögscundadar lindar
lofkendr himins endom.

Medan Hákon Jarl red fyrir Noregi var góđ árferd í landi, oc gódr fridr innanlands med bændom. Jarl var vinsæll vid bændor lengsta stund æfi sinnar; enn er áleid, þá gerdiz þat miök at um Jarl, at hann var úsidugr um kvenna far; gerdiz þar sva mikit at, at Jarl lét taka ríkra manna dætor, oc flytia heim til sín, oc lá hiá þeim viko eda tvær, enn sendi þær heim sidan; feck hann af því óþocka mikinn af frændom kvennanna, oc tóko bændor at kurra illa, sva sem Þrændir ero vanir um allt, er þeim er í móti scapi.

## CAP. LI.

## FERD ÞÓRIS KLÖCKO AT LEITA OLAFS TRYGGVA SONAR.

Hákon Jarl fær nockorn pata af því, at sá madr mun vera fyrir vestan haf, er Ali nefndiz, oc hallda þeir hann þar fyrir konung. Enn Jarl grunadi af frásögn nockorra manna, at vera mundi nockor af konunga ætt Norrænni: hanom var sagt, at Ali kalladiz Gerskr at ætt, enn Jarl hafdi þat spurt, at Tryggvi Olafsson hafdi átt son, þann er farit hafdi austr í Gardaríki úngr, oc þar uppfædz med Valldimar konungi, oc het sá Olafr: hafdi Jarl oc miök at spurningom leidt um þann mann, oc grunadi, at sá hinn sami mundi vera kominn þar í Vestrlöndom. Madr er nefndr Þórir Klacka, vin mikill Hákonar Jarls; hann var laungom í víking, enn stundom

í kaupferdom, oc var vída kunnict fyrir. Þenna Þóri sendi Hákon Jarl vestr um haf, bad hann fara kaupferd til Dyflinnar, sem þá var mörgom títt, enn skynia þar reyndar hverr madr Ali þessi væri: enn ef hann spyr þat til sanns, at þar væri Olafr Tryggvason, edr nockr annarr af konunga ætt Norrænni, þá skylldi Þórir koma vid hann svikrædom nockorom, ef han mætti.

## CAP. LII.

## OLAFR TRYGGVASON KOM Í NOREG.

Sídan fór Þórir vestr til Irlands til Dyflinnar, oc spurdi þar til Ala; var hann þar med Olafi konungi Kvaran, mági sínom. Brádliga kom Þórir ser í tal vid Ala; var Þórir madr ordspakr. Enn er þeir höfdo opt oc miök lengi talat, þá tók Ali at spyria af Noregi, fyrst frá Upplendinga konongom, oc mörgo stórmenni, hverir þeir voro þá á lifi, edr hvat ríki þeir höfdo: hann spordi oc um Hákon Jarl, hver vinsælld hans var í landino. Þórir segir: Jarl er sva ríkr madr, at engi þorir annat at mæla, enn hann vill. Enn þat velldr því, at hvergi er í annan stad til at gánga. Enn þer satt til at segia, þá veit ec margra göfigra manna scaplyndi, och sva alþydunnar, at þess væri fúsastir oc búnastir, at nockor konungr kæmi þar til ríkis, af ætt Harallds ens Hárfagra. Enn ver siám nú engan þann til; oc mest fyrir þá söc, at þat er nú reynt, at illa dugir

at beriaz vid Hákon Jarl. Enn er þeir töludo þetta opt, þá lætr Olafr í liós fyrir Þori nafn sitt oc ætt, oc spyr hann ráds, hvat hann hyggi, ef Olafr ferr til Noregs, hvært bændor mundi vilia taka vid hanom at konungi. Þórir eggiadi hann ákafliga þessar ferdar, oc lofadi hann miök, oc atgervi hans. Tók Olafr þá at fysaz miök at fara til ættleifdar sinnar. Siglir Olafr þá vestan med V skipom, fyrst til Sudreya; Þórir var þar í för med hanom; þadan sigldi hann til Orkneya. Sigurdr Jarl Lödvisson lá þá í Rögnvalldsey í Asmundarvogi, med eitt lángscip, oc ætladi at fara yfir á Katanes. Þá sigldi Olafr sino lidi vestan at eyonom, oc lagdi þar til hafnar, þvíat Petlandsfiördr var eigi færr. Enn er konungr vissi, at Jarlinn var þar fyrir, þá let hann Jarl kalla til tals vid sik. Enn er Jarl kom á scipit til tals vid konung, þá haufdo þeir fátt talat, ádr konungr segir, at Jarl scylldi sciraz láta, oc allt landsfólk hans; enn at audrom kosti scylldi hann þá deya þegar í stad; enn konungr qvezc mundo fara med eld oc usla yfir eyarnar, oc eyda land þat, nema landsfolkit cristnadiz. Enn sva sem Jarl var þá vid kominn, þá kaus hann þann af, at taka scirn; var hann þá scirdr, oc allt þat folk, er þar var med hönom. Sidan svardi Jarl konungi eida, oc gerdiz hans madr; feck hönom son sinn til gislingar, er het Hvælpr eda Hundi; oc hafdi Olafr konungr hann med ser til Noregs. Sigldi Olafr þá austr í haf, oc kom af hafi utan at Morstr; geck þar fyrst

á land upp í Noregi; oc let konungr þar messo syngiá í landtialldi; enn sídan var í þeim sama stad kirkia giör. Þórer Klacka sagdi konungi, at þat eina var hónom rád, at gera eigi bert um, hverr hann var, oc láta enga niósn fara fyrir ser, oc fara sem ákafligaz á fund Hákonar Jarls, oc láta hann óbúinn vid verda. Oc sva gerir Olafr konungr, at hann ferr nordr dagfari oc náttfari, sva sem leidi gaf, oc gerdi eigi landsfólk vart vid ferd sína, hverr þar fór. Enn er hann kom nordr til Agdanes, þá spurdi hann, at Hákon Jarl var inn í firdinom, oc þat med, at hann var ósáttr vid böndor. Enn er Þórer heyrdi þetta sagt, þá var miök annan veg, enn hann hugdi; þviat eptir Jomsvíkinga orosto voro allir menn í Noregi fullkomner vinir Hákonar Jarls, fyrir sigr þann er hann hafdi fengit, oc frelsat land allt af úfridi. Enn nú var sva illa atborit, at höfdingi mikill er kominn i landit, enn böndor voro ósátter vid Jarlinn.

## CAP. LIII.

## FLÓTTI HÁKONAR JARLS.

Hákon Jarl var á veizlo í Gaulardal at Medalhúsom, enn scip hans lágo út vid Viggio. Ormr Lyrgia er madr nefndr, ríkr bóndi; hann bió á Bynesi; hann átti kono þá er Godrún er nefnd, dóttir Bergþórs af Lundom; hon var köllot Lundarsól: hon var

qvenna

qvenna frídoz. Jarl sendi þræla sína til Orms, þeirra örenda, at hafa Godruno kono Orms til Jarls; þrælar báro upp örendi sin; Ormr bad þá fyrst fara til náttverdar, enn ádr þrælar höfdo mataz, þá voro komnir tíl Orms margir menn or bygdinni, er hann hafdi ord send. Let Ormr þá engan kost at Godrún föri med þrælonom. Godrun mællti, bad þræla sva segia Jarli, at hon mundi eigi til hans koma, nema hann sendi eptir henne Þóro af Rimol; hon var húsfreya rík, oc einn af unnöstom Jarls. Þrælarnir segia at þeir skolo þar sva koma andro sinni, at bóndi oc húsfreya mundo þessa idraz skambrags, oc heitaz þrælarnir miök, oc fóro brott sídan. Enn Ormr let fara herör fiögurra vegna um bygdina oc let því bodi fylgia, at allir scyldo med vapnom fara at Hákoni Jarli oc drepa hann; oc sendi til Halldors á Skerdingstedio; enn Halldor let þegar fara herör. Litlo ádr hafdi Jarl tekit kono þess manns er Bryniólfr het, oc var þat verk allmiök úþockat; oc var þá vid siálft, at her mundi upplaupa; eptir þesso aurbodi lióp upp múgi manns, oc sótti til Medalhúsa; enn Jarl feck niósn, oc fór af bönom med lid sitt, oc í dal diúpan þann er nú er kalladr Jarlsdalr; oc leyndoz þeir þar. Eptir um dagin hafdi Jarl niósn af bóndaherinom. Böndor toko vego alla, oc ætlado hellzt at Jarl mundi hafa farit til scipa sinna; enn fyrir sciponom red þá Erlendr son hans, hinn mannvænsti madr. Enn er náttadi þá dreifdi Jarl lidino,

oc bad fara marc-leidi út til Orcadals, oc mun ydr engi madr mein gera, ef ec em hvergi í nánd: görit ord Erlendi, at hann fari út eptir firdinom, oc hittumz vid á Möri. Enn ec mun vel fá leynt mer fyrir böndom: Fór Jarl þá oc þræll hans vid honom, er Karkr er nefndr. Iss var á Gaul, oc ratt Jarl þar út á hesti sinom, oc þar let hann eptir möttol sinn. Enn þeir fóro í helli þann er sidan er kalladr Jarls-hellir. Þá sofnado þeir; enn er Karkr vaknadi, þá segir hann draum sinn, at madr svartr oc illiligr fór hiá hellinom, oc hræddiz hann, at hann mundi inngánga, en sá madr sagdi honom, at Ulli var daudr; Jarl svarar, at Erlendr son hans mundi drepinn. Enn sofnar Karkr audro sinni, oc lætr illa í svefni, sem fyrr; enn er hann vaknar, segir hann draum sinn, at hann sá þá enn sama mann fara ofan aptr, oc bad þá segia Jarli at þá voro lokin sund öll. Karkr sagdi Jarli drauminn; hann grunadi at slíkt mundi vera fyrir scam-lifi síno; sidan stód hann upp, oc gengo þeir heim á böinn Rimol; þá sendi Jarl Kark á fund Þóro, bad hana koma leyniliga til sín; hon gerdi sva, oc fagnar vel Jarli. Jarl bad hana fela sik um nockorra nátta saker, þar til er böndor ryfi samnadinn. Her mun þín leitad, segir hon, um bö minn, bædi úti oc inni; þvíat vito margir, at ec mun giárna hiálpa þer, allt þat er ec má. Einn stadr er her sá á minom bö, er ec munda eigi kunna leita sliks manns, þat er svína-bæli nockot. Þau komo þannog til; þá mællti Jarl, her skolo ver

um búaź; lífsins skal nú fyrst gæta. þá gróf þrællinu þar gröf mikla, oc bar i brot molldina; sídan lagdi hann þar vido yfir. þóra sagdi Jarli tídindi þau, at Olafr Tryggvason var kominn utan í fiordinn, oc hafdi hann drepit Erlend son hans. Sídan geck Jarl i gröfina, oc bádir þeir Karkr, enn þóra gerdi yfir med vidom, oc sópadi yfir molldo oc myki, oc rak þar yfir svinin. Svínaböli þat var undir steini einom miklom.

## CAP. LIV.

## DAUDI ERLENDS.

Olafr Tryggvason hellt utan í fiördin med V lángscipom; enn þar reri innan í móti Erlendr son Hákonar Jarls, med scipom; enn er scipin nálgadoz, þá grunadi þá Erlend, at úfrídr mundi vera, oc snúa at landi. Enn er þeir Olafr sá lángscipinn eptir firdinom fara, oc róa í móti ser, þá hugdi hann þar mundo fara Hákon Jarl, oc bad róa eptir þeim sem ákafast, enn er þeir Erlendr voro komnir miök at landi, rero þeir þegar á grunn oc liópo þegar fyrir bord, oc leitodo til lands; þá rendo at scipin Olafs. Olafr sá hvar lagdiz madr forkunnnar frídr; Olafr greip upp hiálmunvölinn, oc kastar at þeim manni, oc kom höggit í höfot Erlendi syni Jarls, sva at haussinn brotnadi til heila; let Erlendr þar lif sitt. þeir Olafr drápo þar mart manna, enn sumt kom á flótta, enn sumt tóko þeir oc gáfo grid,

oc höfdo af tidinda sögn; var þá Olafi sagt at böndor höfdo rekit Hákon Jarl, oc hann var farflótti fyrir þeim oc dreift var öllom flocki hans.

## CAP. LV.

## DAUDI HÁKONAR JARLS.

Sidan koma böndor á fund Olafs, oc verda hvarir audrom fegnir, oc taka þegar samlag sitt; taka böndor hann til konungs yfir sic, oc taka allir eitt rád, at leita sídan allir samt eptir Hákoni Jarli; fara upp í Gaulardal, oc þickir þat likaz at Jarl muni vera á Rímol, ef hann er nockot at böiom; þvíat Þóra var þar kærstr vin hans í þeim dal. Fara þeir þannog, oc leita Jarls úti oc inni, oc finna hann eigi. Þá átti Olafr húsþing úti í gardinom; hann stód upp á stein þann inn mikla, er þar stód hiá svínabölino; þá taladi Olafr fyrir mönnom, oc vard þat í rödo hans at hann mundi þann mann göda bædi fe oc virding, er Hákoni Jarli yrdi at scada. Þá rödo heyrdo þeir Jarl oc Karkr þræll; þeir höfdo liós hiá ser; þá mællti Jarl, hví ertú sva bleikr, enn stundom svartr sem jord? er eigi þat nú, at þú vilir svikia mic. Eigi, segir Karkr. Vid vorom föddir á einni nótt, segir Jarl, oc mun scamt verda milli dauda ockars. Þá fór Olafr konungr á brott, er qvelldadi. Enn er náttadi, þá hellt Jarl vöko yfir ser, enn Karkr sofnadi, oc let illiliga; þá vaki Jarl hann, oc spurdi hvat hann dreymdi? hann

segir, ec var nú á Laudom, oc lagdi Olafr Tryggvason gullmen á háls mer; Jarl svarar: þar mun Olafr láta hring raudan um háls þer, ef þú finnr hann; vara þú þic sva; enn af mer muntú gott hlióta, sva sem fyrr hefir verit, oc svík mik eigi. Sídan vokdo þeir bádir, sva sem hvarr vekdi yfir audrom. Enn í móti degi þá sofnadi Jarl brátt oc let hann illa; oc sva mikit vard at því, at Jarl scaut hölonom under sik, oc hnackanom, sva sem hann mundi vilia upprísa, oc let hátt oc ógnarliga. Enn Karkr vard hræddr, oc felmsfullr, oc greip knif mikinn af linda ser oc scaut í gögnom barka Jarli oc skar út or; var þat bani Hákonar Jarls. Sídan sneid Karkr haufot af Jarli, oc lióp í brot med, oc kom eptir um daginn inn á Lader, oc fördi haufot Jarls Olafi Konungi, segir oc þá alla þessa atburdi oc um ferdir þeirra Hákonar Jarls. Sídan let Olafr konungr leida hann í brot oc hauggva höfot af.

## CAP. LVI.

## GRÝTING HÖFUDS HÁKONAR JARLS.

Þá fór Olafr konungr út til Nidarhólms, oc fiöldi bönda med honom, oc hafdi med ser haufot þeirra Hákonar Jarls oc Karks; sá hólmr var þá hafdr til þess, at drepa þar þiófa oc illmenni, oc stód þar gálgi, oc let han þar tilbera haufot Hákonar Jarls, oc sva Karks; geck þá til allr herinn, oc öpti up, oc grytti þar at, oc mællto, at þar scylldi fara

nidingr med audrom nidingom. Sidan láta þeir fara upp í Gaulardal, oc taka búkinn. Vard her sva mikill máttr at fiandscap þeim er þröndir gerdo til Hàkonar Jarls, at engi madr mátti hann nefna annan veg enn Jarl hinn illa; var þetta kall haft lengi sidan. Enn hitt er þó satt at segia frá Hákoni Jarli, at han hafdi til þess marga luti at vera höfdingi; fyrst kynqvíslir stórar, þar med speki oc könleik, at fara med ríkdóminom, röskleik í orostom at vega sigrinn, oc þar med hamingiona at drepa fiandmenn sína. Sva segir Þorleifr Raudfelldarson:

Hákon! vitom hvergi,
hafiz hefir runnr af gunni
fremra Jarl und ferli
folk ranar þer mána.
Þú hefir audlinga Odni
etr hra'n af ná getnom
vera mátto af því vísi
vídlendr, nio senda.

Manna örvastr var Hákon Jarl; enn hina mesto ohamingio bar slíkr höfdingi til dánar dögor síns. Þat bar mest til er sva vard, at þá var sú tíd komin, at fyrirdömaz scylldi blótscaprinn oc blótmennirnir, enn í stad koma heilog trúa oc rettir sidir.

## CAP. LVII.

## OLAFR TRYGGVASON TÓK KONUNGDÓM YFIR NOREGI.

Olafr Tryggvason var til konungs tekinn í Þránd-

heimi á allzheriar þíngi, um land allt, sva sem hafi hafdi Haralldr hinn Hárfagri; hlióp þá upp múgr oc margmenni, oc villdi engi annat heyra enn Olafr Tryggvason skylldi vera konungr. Fór Olafr þá um land allt, oc lagdi undir sik; sneroz þá til lydni vid hann allir menn í Noregi; samt þeir höfdingiar á Upplöndom oc í Vikinni, er ádr höfdo land halldit af Dana konungi, þá gerdoz þeir menn Olafs konungs, oc helldo land af honom: Fór hann sva yfir land hinn fyrsta vetr oc eptir um sumarit. Eirikr Jarl Hákonarson oc Sveinn bródir hans, oc adrir frændor þeirra oc vinir, flydo landit, oc sótto austr í Svíavelldi til Olafs konungs hins Sönsca, oc fengo þar gódar vidtökor. Sva segir Þórdr Kolbeinsson:

Meinrenner brá manna
margs fysa skop varga
lióda litlo sidar
læ, Hákonar æfi.
Enn til lands þess er lindar
ládstafr vegit hafdi
hraustr þá er her fór vestan,
hygg ec qvæmi son Tryggva.

Oc enn:

Hafdi ser vid særi
slíks var ván at hanom
auds, enn upp um qvædi
Eiríkr í hug meira.
Sótti reidr at rádom
rann engi því manna
þrályndi fecz þrondom,
þrænscr Jarl konung Sænskan.

## CAP. LVIII.

## KVANFANG LODINS.

Lodinn er madr nefndr Vikverscr audigr oc ættadr vel. Han var optliga i kaupferdom, enn stundom í hernadi. Þat var eitt sumar, at Lodinn fór í kaupferd, átti hann einn scip þat oc hafdi mikinn kaupeyry. Hann hellt til Eistlands oc var þar í kaupstefno um sumarit. Enn þá er markadrinn stód, þá var þángat flutr margskonar kaupskapr; þar kom mann mart falt; þar sá Lodinn kono nockora, er selld hafdi verit mannsali, oc er hann leit á konona, þá kendi hann at þar var Astridr Eiriks dóttir, er átt hafdi Tryggvi konungr, oc var hon þá úlík því sem fyrr, er hann sá hana: hon var þá faul oc grannleit oc illa klædd. Hann geck til hennar oc spurdi hvat ráds hennar var; hon segir: þúngt er frá því at segia, ec em selld mansali enn hingat haufd til saulo. Sidan kaunnodoz þau vid, oc vissi Astríd skyn á honom; bad hon sidan ef hann villdi kaupa hana, oc hafa heim med ser til frænda hennar. Ec man gera þer kost á því, segir hann, ec man flytia þik til Noregs, ef þú vill giptaz mer. Enn med því, at Astrid var þá naudoliga vid komin, oc þat annat, at hon vissi Lodinn var madr stórættadr, vaskr oc audigr, þá heitir hon honom þesso til útlausnar ser. Sidan keypti Lodinn Astrídi, oc hafdi heim med ser til Noregs, oc feck hennar þar þá med frænda rádi. Þeirra börn voro þau Þorkell Nefia, Ingiridr oc

Ingigerdr: dötor Astrídar oc Tryggva konungs, voro þær Ingibiörg oc Astrídr. Synir Eiriks Bíódaskalla voro þeir Sigurdr Karlshaufot, Jósteinn oc Þórkell Dydrill; þeir voro allir gaufgir menn, oc audgir, oc átto bú austr í landi. Brædor tveir bioggo í Vík austr, audgir oc kynstórir; het annarr Þorgeirr enn annarr Hyrningr, þeir fengo dötor Lodins oc Astrídar, Ingirídr oc Ingigerdr.

## CAP. LIX.

## OLAFR KONUNGR KRISTNADI VÍKINA.

Haralldr Gormson Dana konungr, þá er hann hafdi vid kristni tekit, sendi hann bod um allt ríki sitt, at allir menn scylldo sciraz láta, oc snuaz til rettar trúar. Fylgdi hann siálfr því bodi, oc veitti þar styrk oc refsingar, er eigi gengi vid ella. Hann sendi tvo Jarla í Noreg med lid mikit, er sva heto, Urguþriótr oc Brímilskiar; þeir scylldo boda kristni í Noregi; þat geck vid í Víkinni, þar er ríki Haralldz konungs stód yfir, oc skírdiz þar mart landsfólk. Enn brátt eptir dauda Haralldz, þá fór Sveinn Tiúguscegg sonr hans í hernad, bædi í Saxland oc Frísland, oc at lyctom til Englands. Enn þeir menn í Noregi er vid kristni haufdo tekit, þá hurfo þeir aptr til blóta, sva sem fyrr, oc sva gerdo menn nordr í land. Enn er Olafr Tryggvason var konungr ordinn í Noregi, þá dvaldi hann lengi um sumarit í Víkinni: komo þar til hans margir fræn-

dor hans, enn sumir mágar: enn margir höfdo verit miklir vinir fedr hans, oc var honom þar fagnat med allmiklom kærleik. Þá kallar Olafr til tals vid sik módrbrædor sína, Lodinn stiúpfödr sinn, mága sína Þorgeirr oc Hyrning; bar sidan fyrir þá med enom mesta alhuga þat mál, at þeir scylldo siálfir under taka med honom, oc fylgia sidan med öllom krapti, at hann vill kristnibod upphefia um allt ríki sitt; segir, at hann skal því áleidis koma at kristna allt í Noregi, edr deya at audrom kosti; ec skal gera ydr alla mikla menn oc ríka, þvíat ec trúi ydr best, fyrir sakir frændsemis oc annarra tengda. Allir þeir játado þesso, at gera hvat sem hann baud, oc fylgia honom til þess allz er hann villdi, oc allir þeir menn er þeirra rádom vilia fylgia: Gordi þá Olafr konungr þegar bert fyrir alþydo, at hann vill bióda kristni öllom mönnom í ríki síno; toko þeir þegar fyrstir undir at játa þesso bodi, er ádr höfdo undir gengit; voro þeir oc ríkastir af þeim mönnom er þá voro vidstaddir: oc þá gerdo allir at þeirra dömom; voro þá scírdir menn allir austr um Víkina: Fór þá konungr nordr í Víkina, oc baud öllom mönnom at taka vid kristni; enn þeir er í móti mællto veitti hann stórar refsingar, drap suma, suma let hann hamla, suma rak hann af landi á brott; kom þá sva at um þat ríki allt er fyrr hafdi styrt Tryggvi konungr fadir hans, oc sva þat er átt hafdi Haralldr Grenski frændi hans geck þat fólk allt

undir kristnibod, þat er Olafr bodadi, oc vard þat sumar oc eptir um vetrinn alkristit um Vikina.

## CAP. LX.

## FRÁ HÖRDOM.

Olafr kouungr fór snemma um várit út í Vikina oc hafdi lid mikit; fór hann þá nordr á Agder, enn hvar sem hann átti þing vid bændor, þá bodadi hann öllom mönnom at láta scíraz, oc gengo menn undir kristni; þvíat engi fekz upreist af böndom móti konungi, oc var fólkit skírt hvar sem hann fór. Menn þeir voro á Hördalandi margir oc göfgir, er komnir voro af ætt Hörda Kára; hann átti fióra sono; einn var Þorleifr Spake, annarr Augmundr fadir Þórólfs Skiálgs, födr Erlings af Sóla, þridi var Þordr fadir Klyps hersis, er drap Sigurd konung Slevo Gunnhilldarson; fiórdi Ölmódr fadir Askels, födor Aslács Fitiascalla; þessi ættbogi var þá mestr oc göfgaztr á Hördalandi. Enn er þeir frændor spurdo til vanqvædis þessa, at konungr fór austan med landi oc hafdi lid mikit, oc braut forn lög á mönnom; enn allir sætto refsingom oc afarkostom, þeir er í móti mællto; þá gerdo þeir frændor stefnolag milli sin, oc skolo gera rád fyrir ser, þvíat þeir vita at konungr mun brátt koma á fund þeirra; oc semz þat med þeim, at þer scolo koma allfiölment til Gulaþings, oc stefna þar fund vid Olaf konung Tryggvason.

## CAP. LXI.

## KRISTNAT ROGALAND.

Olafr konungr stefndi þing þegar er hann kom á Rogaland; enn er böndom kom þíngbod, þá samnaz þeir fiölment saman oc med alvæpni; enn er þeir koma saman, taka þeir tal oc rádagerd, oc ætla til þess þriá menn, þá er málsniallastir voro í þeirra flocki, at svara Olafi konungi á þíngino, oc tala móti honom; oc þat med, at þeir vilia eigi gánga undir olaug, þótt konungr biodi þeim. Enn er bændor koma til þíngs, oc þíng var sett, þá stód Olafr konungr upp, oc taladi fyrst blidt til bænda, fannz þat þó í hans máli, at hann vill, at þeir taki vid kristni, oc bad þá til med fögrom ordom, enn at lyctom lét hann þat fylgia, vid þá er í móti mællto, oc eigi villdo undergánga bod hans, at þeir mundo sæta af honom reidi oc refsingom, oc hördom afarkostom, hvar sem hann mætti vidkomaz. Enn er hann lauk máli sino, þá stód upp sá madr af böndom er einna var málsniallastr, oc fyrst var til þess tekinn, at svara scylldi Olafi konungi. Enn er hann villdi til máls taka, þá setr at honom hósta oc þrönga sva mikinn, at hann feck engo ordi uppkomit; oc setz hann nidr. Þá stendr upp annarr bóndi, oc vill sá eigi fallaz láta ansvörin, þótt enom fyrra hefdi eigi vel tiltekiz; enn er sá hefr upp mál sitt, þá var hann sva stamr, at hann feck engo ordi uppkomit; tóko þá allir at hlæia, er áheyrdo, settiz þá

bóndi nidr. Þá stód upp enn þridi, oc vill tala í móti Olafi konungi; enn er sá tók til máls, var hann sva hás oc ramr at engi madr heyrdi þat er hann taladi, oc settiz hann nidr: þá vard engi til af böndom at mæla í móti konungi; enn bændor fengo engan til ansvara vid konung; þá vard engi uppreist þeirra til mótstodo vid konung; kom þá sva, at allir játto því er konungr baud; var þá skirt allt þat þíngfólk, ádr konungr scildiz þar vidr.

## CAP. LXII.

## QVANBÓN ERLINGS SKIÁLGSSONAR.

Olafr konungr stefndi lidi síno til Gulaþíngs; þviat bændor hafa honom þau ord send, at þeir vilia þar svara máli hans. Enn er þar koma hvarirtveggio til þings, þá vill konungr fyrst eiga tal sitt vid landshöfdingia. Enn er þeir koma á stefno allir saman, þá berr konungr upp örendi sín, oc bydr þeim at taka vid scirn eptir bodi hans. Þá segir Ölmódr hinn Gamli: rött hofom ver frændor um mál þetta, oc mano ver frændor allir hverfa at eino rádi. Med því, konungr, at þú ætlar at pynda oss frændor til slikra luta, at brióta lög var, oc brióta oss undir þik med nockorri naudung, þá mono ver í móti standa med öllo afli, oc fái þeir sigr, er audit verdr. Enn ef þú vill, konungr, leggia nockora farsælliga luti til var frænda, þá mátto þat gera sva vel, at ver manom allir hverfa til þín med fullkominni

þiónosto. Konungr segir, hvers vilit þer mik beida, til þess at sætt var verdi sem bezt. Þá svarar Ölmódr: þat er et fyrsta, ef þú villt gipta Astrídi systr þina Erlingi Sciálgssyni frænda varom, er ver kollom mandvænztan allra úngra manna í Noregi. Olafr konungr segir, at honom þickir líkligt, at þat giaford muni gott vera, segir, at Erlingr er ættadr vel, oc madr hinn líkligsti synom; enn þó segir hann at Astrid á svör þessa máls. Sidan röddi konungr þetta vid systr sina; lítt nyt ec nú þess, segir hon, at ec em konungs dóttir oc konungs systir, ef mik scal gipta útignom manni; man ec enn helldr bida nockora vetor annars giafords; oc scildo þau rödina at sinni.

## CAP. LXIII.

## KRISTNAT HÖRDALAND.

Olafr konungr let taka hauk, er Astríd átti, oc let plocka af fiadrar allar, oc sendi henni sidan. Þá mællti Astríd: reidr er bródir minn nú; sidan stód hon upp oc geck til konungs, hann fagnadi henni vel; þá mællti Astrid, segir, at hon vill at konungr sæi fyrir hennar rádi, slíkt sem hann vill; þat hugda ec, segir konungr, at ec munda fá valld til, at gera þann tiginn mann, sem ec vil, her í landi. Let konungr þá kalla til tals Ölmód oc Erling, oc alla þá frændor; var þá talat bónord þetta; lauk sva, at Astríd var faustnot Erlingi. Sidan let konungr setia þíngit, oc baud bændom kristni, var þá Öl-

módr oc Erlingr forgángsmadr at flytia þetta kon-
úngs mál, oc þar med allir frændor þeirra; bar þá
engi madr traust til at mæla í móti; var þá scírt
þat allt fólk oc kristnat.

## CAP. LXIV.

## BRULLAUP ERLINGS SKIALGSSONAR.

Erlingr Skiálgsson gerdi um sumarit brullaup sitt, oc var þar allmikit fiölmenni; þar var Olafr konungr; þá baud konungr at gefa Erlingi Jarldóm. Erlingr segir sva: hersar hafa verit frændor mínir, vil ec ecki hafa nafn hærra enn þeir; hitt vil ec þiggia, konungr, af ydor, at þer látit mik vera mestan med því nafni her í landi; konungr játti honom þat; oc at scilnadi þeirra veitti Olafr konungr Erlingi mági sinom nordan frá Sognsæ oc austr til Lidandisness, med þvílikom hætti sem Haralldr hinn Hárfagri hafdi veitt sonom sinom, oc fyrr er ritat.

## CAP. LXV.

## KRISTNADIR FIRDIR OC RAUMDÆLIR.

Þetta sama haust stefndi Olafr konungr fiögra fylkna þíng nordr á Stade á Dragseide; þar scylldo koma Sygnir oc Firdir, Sunnmörir oc Raumdölir: Fór Olafr konungr þannog med allmikit fiölmenni, er hann hafdi austan or landi, oc sva þat lid er þá hafdi komit til hans á Rogalandi oc Hordalandi. Enn er Olafr konungr kom þar til þíngs, þá boda-

di hann þar kristni sem í audrom stödom; enn fyrir því, at konungr hafdi þar styrk mikin fiölmennis, óttudoz þeir þat; enn at lyctum þess máls, þá baud konungr þeim tva kosti: annat hvart at þeir tæki kristni oc leiti scíraz; edr enn at audrom kosti, at þeir scylldi hallda vid hann orosto. Enn er bændor sá eigi faung til at beriaz vid konung, þá var hitt rád upptekit, at allt fólk kristnadiz. Enn Olafr konungr fór þá med lidi sino á Nordmöri; oc kristnar hann þat fylki. Sídan siglir hann inn á Lader, oc lætr brióta ofan hofit, oc taka allt scraut oc fe or hofino, oc af Godino. Hann tók gullhríng mikinn or hofshurdunni, er Hákon Jarl hafdi látit gera. Sídan let Olafr konungr brenna hofit, enn er bændor verda þessa varir, þá láta þeir fara heraur um öll fylki, oc stefna her út, oc ætla at konungi. Olafr konungr hellt þá lidi sino út eptir firdi, oc stefnir sídan nordr med landi, oc ætlar at fara nordr á Hálogaland oc kristna þar. Enn er hann kom nordr í Biarnau, þá spyr hann þat af Hálogalandi, at þeir hafa þar her úti, oc ætla at veria land fyrir konungi: Ero þeir þar höfdingiar fyrir lidi, Hárekr or Þiótto oc Þórer Hiortr or Vagom, Eyvindr Kinnrifa. Enn er Olafr konungr spurdi þetta, þá snyr hann leid sinni, oc siglir sudr med landi. Enn er hann kom sudr um Stad, þá fór hann allt tómligar, oc kom þó öndverdan vetr allt austr í Víkina.

BÓNORD

## CAP. LXVI.

## BÓNORD OLAFS KONUNGS TIL SIGRÍDAR DROTTNINGAR STÓRRÁDO Í SVÍÞÍOD.

Sigrid drottning í Sviþiód, er köllot var enn Stórráda, sat at búom sínom; þann vetr fara menn milli Olafs konungs oc Sigrídar, oc hóf Olafr konungr þar upp bónord sitt, oc bad Sigrídar, enn hon tók því likt; oc var þat mál fest med einka málom. Þá sendi Olafr konungr Sigrídi drottningo gullhríng þann hinn mikla, er hann hafdi tekit or hofshurdinni á Hlaudom, oc þótti þat höfod gersemi. Stefnolag skylldi vera til þessa mála eptir um varit í Elfinni, vid Landa-mæri. Enn er hríngr þessi er Olafr konungr hafdi sent Sigrídi drottningo, var sva miök lofadr af öllom mönnum, þá voro med drottningo smidir hennar, brædor tveir. Enn er þeir höfdo hrínginn med höndom, oc handvetto, oc mæla einmæli milli sín, þá let drottning kalla þá til sín, oc spurdi hvat þeir spottadi; þeir dylia þess; hon segir at þeir scolo fyrir hvern mun láta hana vita hvat þeir hafa atfunnit; þeir segia at fals se í hrínginom; sídan let hon briáta í sundr hrínginn, oc fannz þar eyr í innan; þá vard drottning reid, oc sagdi, at Olafr mundi at fleira falsa hana, enn þesso eino. Þenna enn sama vetr fór Olafr konungr upp á Hríngaríki, oc kristnadi þar.

## CAP. LXVII.

## SKÍRDR OLAFR HARALLDSSON.

Asta Gúdbrandsdóttir giptiz brátt eptir fall Haralldş Grensca, þeim manni er nefndr er Sigurdr Syr; hann var konungr áRíngariki. Sigurdr var son Hálfdanar, enn hann var son Sigurdar Hrísa, Haralldssonar ins Hárfagra. Þá var þar med Asto oc Sigurdi Olafr son þeirra Haralldş Grensca; hann föddiz upp í ösco med Sigurdi Syr stiúpfödor sínom. Enn er Olafr konungr Tryggvason kom á Hríngaríki at boda þar kristni, þá let sciraz Sigurdr Syr oc Asta kona hans, oc Olafr son hennar; oc gerdi Olafr Tryggvason gudsifiar vid Olaf Haralldsson; þá var hann þrevetr: Fór Olafr konungr þá enn út í Víkina, oc var þar um vetrinn; þann var hann hinn þridia vetr konungr yfir Noregi.

## CAP. LXVIII.

## TAL ÞEIRRA OLAFS KONUNGS OC SIGRÍDAR STÓRRÁDO.

Snemma um varit fór Olafr konungr austr til konunga-hello, til stefno móti Sigrídi drottningo; enn er þau funnoz, þá tölodo þau þat mál er rött hafdi verit ádr um vetrinn, at þau mundo gera samgáng sinn; oc fór þat mál alt likliga. Þá mællti Olafr konungr, at Sigrídr skylldi taka scírn oc retta trú;

hon sagdi sva: ecki man ec ganga af trú þeirri, er ec hefi fyrr haft oc frændr minir fyrir mer; man ec oc ecki at þvi telia, þótt þú trúir á þann Gud, er þer líkar. Þá vard Olafr konungr reidr miök, oc mællti brálliga: hví mun ec vilia eiga þic afgamla oc hundheidna, oc laust í andlit henni med glófa sínom, er hann hellt á: Stód hann upp sídan, oc bædi þau. Þá mællti Sigrídr: þetta mætti verda vel þinn bani. Sídan scildo þau; fór konungr nordr í Víkina, enn drottning austr í Svíavelldi.

## CAP. LXIX.

## SEIDMANNA BRENNA.

Olafr konungr fór þá til Túnsbergs, oc átti þar þá enn þíng, oc taladi á þíngino, att þeir menn allir, er kunnir oc sannir yrdi at því, at færi med galldra oc gerningar, edr seidmenn, þá scylldo allir fara af landi á brott. Sídan let konungr ransaka eptir þeim mönnom, um þær bygdir, er þannog voro í námunda, oc boda þeim öllom til sín. Enn er þeir komo til þíngs, þá var einn madr af þeim, er nefndr er Eyvindr Kellda; hann var sonarson Rögnvallds Rettilbeina, sonar Harallds Hárfagra. Eyvindr var seidmadr oc allmiök fiölkunnigr. Olafr konungr let scipa þessom mönnom öllom í eina stofo, oc let þar vel um búaz; let gera þeim þar veizlo, oc fá þeim sterkan dryck. Oc þá er þeir voro miök drucknir, let Olafr konungr leggia elld í stofuna, oc brann

stofa sú, oc allt þat fólk er þar var inni, nema Eyvindr Kellda; hann komz út um liórann, oc sva í brott. Enn er hann var langt í brott kominn, fann hann menn þá á leid sinni, er fara ætlado til konungs, oc bad þá sva segia konungi, at Eyvindr Kellda var brott kominn or elldinom, oc mun aldri sídan koma á valld Olafs konungs; enn hann mun allt fara á sömo leid, sem fyrr gerdi hann, um alla kunnusto sína. Enn er þessir menn komo á fund Olafs konungs, þa segia þeir slikt frá Eyvindi, sem hann hafdi þeim bodit. Konungr lætr illa yfir er Eyvindr var eigi daudr.

## CAP. LXX.

## DRÁP EYVINDAR KELLDO.

Olafr konungr fór, er varadi, út eptir Víkinni, oc tók veizlor at stórbúom sinom, oc sendi bod allt um Vikina, at hann vill lid hafa úti um sumarit, oc fara nordr í land. Sídan för hann nordr á Agdir, oc er á leid lánga fösto, þá sótti hann nordr á Rogaland, oc kom Páska aptan nordr í Körmt, à Ögvalldsness; var þar búin fyrir hönom Páskaveizla; hann hafdi nær CCC manna. Þá sömo nótt kom þar vid eyna Eyyindr Kellda, hafdi lángskip alskipat; voro þat allt seidmenn, oc annat fiölkyngis fólk. Eyvindr geck upp af skipi, oc sveit hans öll, oc mögnodo fiölkyngi sína: gerdi Eyvindr þeim huliz hiálm oc þoko myrkr sva mikit, at konungr oc lid hans

skylldo eigi mega siá þá. Enn er þeir komo miök sva til bæarins á Ögvalldsnesi, þá gerdiz liós dagr; vard þá miök annan veg enn Eyvindr hafdi ætlat; kom þá myrqvi sá, er hann hafdi gert med fiölkyngi, yfir hann oc hans föroneyti, sva at þeir sá eigi helldr augom enn hnacka, oc fóro allt í hríng um eyna. Enn vardmenn konungs sá þá, hvar þeir fóro, oc visso eigi hvat lid þat var; var þá sagt konungi; stód han þá upp, oc allt lidit, oc klæddiz. Enn er konungr sá hvar þeir Eyvindr fóro, bad han sina menn vapna sik, oc vita hvat mönnom þat væri. Enn er konungsmenn kendo þar Eyvind, þá tóko þeir hann höndom, oc alla þá, oc leiddo þá til konungs. Sagdi þá Eyvindr allan atburd um sinar ferdir. Sidan let konungr taka þá alla, oc flytia i flædi-sker, oc binda þar: Let Eyvindr sva lif sitt, oc allir þeir. Er þat sidan kallat Skratta-sker.

## CAP. LXXI.

## FRÁ OLAFI KONUNGI OC VELOM ÓDINS.

Sva er sagt, þá er Olafr konungr var á veizlonni á Ögvaldsnessi, at þar kom eitt qvelld madr gamall oc ordspakr miök, hafdi hött sídan; han var einsynn; kunni sá madr seiga af öllom löndom. Hann kom ser i tal vid konung; þötti konungi gaman mikit att rædom hans, oc spurdi hann margra luta, enn gestrinn feck orlausn til allra spurninga, oc sat

konungr lengi um kvelldit. Þá spyr konungr, ef hann vissi, hverr Ögvalldr sá hafdi verit, er nesit oc bærinn var vidkendr? Gestrinn segir, at Ögvalldr var konungr, oc hermadr mikill, oc blet kú eina mest, oc hafdi hann hana med ser, hvargi er hann fór, oc þótti hönom þat heilnæmlikt, at drecka iafnan miölk hennar. Ögvalldr konungr bardiz vid konung þann er Varinn het. I þeirri orrosto fell Ögvalldr konungr; var hann her heygdr skamt frá bænom, oc settir upp bautasteinar, þeir er enn standa her. Enn í annan haug, skamt hedan, var lagin kyrin. Slika luti sagdi hann, oc marga adra, frá konungom eda ödrom forntidindom. Enn er lengi var setit um nóttina, þá minnti biskop konung á, at mál væri at gánga att sofa: gerdi konungr þá oc sva. Enn er hann var afklæddr, oc hafdi í reckio lagz, þá settiz gestrinn á fótskörina, oc taladi enn lengi vid konung. Þótti konungi æ ords vant er annat var mælt. Þá mælti biskop til konungs, segir, at mál væri at sofa; gerdi konungr þá sva, enn gestrinn geck út. Litlo sidarr vaknadi konungr, oc spurdi þá eptir gestinom, oc bad hann kalla til sín; enn gestr fannz þá hvargi. Eptir um morgininn let konungr kalla til sín steikara, oc þann mann er dryckinn vardveitti, oc spyr ef nockorr úkunur madr hefdi komit til þeirra. Þeir segia, at þá er þeir skylldo matbúa kom þar madr nockorr, oc sagdi at furdo íllt slátr sudo þeir til konungs bords; sidan fecк hann þeim tvær nautz-sidor digrar oc feitar, oc

sudo þeir þær med ödro slátri. Þá segir konungr, at þá vist alla scylldi ónyta; segir, at þetta mundi eingi annarr madr verit hafa, enn sá Odinn er heidnir menn höfdo lengi átrúat; sagdi, at Odinn scylldi þá engo áleidis koma at svikia þá.

## CAP. LXXII.

## ÞÍNG Í ÞRÁNDHEIMI.

Olafr konungr dró þá saman lid mikit austan or landi um sumarit, oc hellt lidi því nordr til Þrándheims oc lagdi fyrst inn til Nidaróss. Sidan let hann fara þíngbod um allan fiördinn, oc stefndi VIII fylkna þíng á Frosto, enn bændor sneyro þíngbodi í heröer, oc stefndo saman þegn oc præl um allan Þrándheim. Enn er konungr kom til þings, þá var kominn bænda múgrinn med allvæpni. Enn er þíng var sett, þá taladi konungr fyrir lydnom, oc baud þeim at taka vid kristni. Enn er hann hafdi litla hríd talat, þá köllodo bændor, oc bado hann þegia, segia, at ella mundo þeir veita hanom atgaungo, oc reka hann í brott; gerdo ver sva, sögdo þeir, vid Hákon Adalsteinsfóstra, þá er hann baud oss þvílík bod, oc virdo ver þik eigi meira enn hann. Enn er Olafr konungr sá ædi bændanna, oc þat med, at þeir höfdo her sva mikinn, at ecki mátti vidstanda, þá veik hann sva rædunni, at hann sneri til samþyckis vid bændor, segir sva: oc vil at ver gerim sætt vora, sva sem ver hafom ádr lagt med oss; vil

ec fara þar til, er þer hafit it mesta blót ydart, oc siá þar sido ydra; tökom þá rád vart um sidona, hveria ver viliom hafa, oc samþyckiom þá þat allir. Enn er konungr taladi linliga til bænda, þá mykdoz hugir þeirra, oc fór sidann allt talit likliga oc sáttgiarnliga; oc var þat rádit at lykdom, at vera scylldi midsumars blót, inni á Mærinni, oc scylldo þar til koma allir höfdingiar oc ríkir bændor, sva sem sidvandi var til; þar scylldi oc koma Olafr konungr.

## CAP. LXXIII.
## FRÁ JÁRN-SKEGGIA.

Skeggi er nefndr ríkr bóndi; hann var kalladr Járn-Skeggi; hann bió á Upphaugi á Yriom. Skeggi taladi fyrst á þíngino imót Olafi konungi, oc var mest fyrir bændom, at mæla ímóti kristninni. þeir slito þíngino med þessom hætti; fóro þá bændor heim, enn konungr á Hladir.

## CAP. LXXIV.
## VEITZLA Á HLÖDOM.

Olafr konungr lá scipom sinom í Nid, oc hafdi XXX scipa, oc frítt lid oc mikit, enn siálfr konungr var optliga á Hlödom med hirdsveit sína. Enn er miök leid at því, er blótit scylldi vera inn á Mærinni, þá gerdi Olafr konungr veizlo mikla á Lödom; sendi bod inn á Strind, oc upp í Gaular-

dal, oc út í Orkadal, oc baud til sín höfdingiom oc ödrom stórbændom. Enn er veizla var búin, oc bodsmenn höfdo til sótt, þá var þar et fyrsta kvölld veizla fögr, oc veitt allkappsammliga; voro menn miök drucknir. Enn eptir um nóttina sváfo allir menn þar í ró. Um morguninn eptir er koungr var klæddr let hann syngia ser tídir, oc er messo var lokit, þá let hann blása til húsþings: gengo þá allir menn hans af scipom, oc fóro til þings. Enn er þíng var sett, stód konungr upp, oc mællti sva: ver áttom þíng inn á Frosto, baud ec þá búandom, at þeir scylldo láta sciraz; enn þeir budo mer þar ímót, at ec scylldi hverfa til blóta med þeim, sva sem gert hafdi Hákon konungr Adalsteins fóstri; kom þat á-samt med oss, at ver scylldim finnaz inn á Mærinni, oc gera þar blót mikit. Enn ef ec skal til blóta hverfa med ydr, þá vil ec gera láta et mesta blót, þat sem titt er, oc blóta mönnom; vil ec eigi til þess velia þræla edr illmenni; skal til þess velia, at fá Godonnom ena ágætosto menn: nefni ec til þess Orm Lygro af Medalhúsom, Styrkár af Gimsom, Kár af Grytingi, Asbiörn Þórbergsson af Ærnesi, Orm af Lyxo, Halldor af Skerdingstedio; oc þar med nefnir hann adra V, þá er ágætastir voro; se-gir sva, at hann vill þessom blóta til árs oc fridar, oc let þegar veita þeim atgaungo. Enn er bændor sá, at þeir höfdo eigi lidskost vid konungi, þá bidia þeir ser grida, oc bióda allt mál sitt á valld kon-ungs: Semz þat á milli þeirra, at allir bændor, þeir

er þar voro komnir, leto scíraz, oc veitto konungi svardaga til þess at hallda retta trú, enn leggia nidr blótskap allan: Hafdi konungr þá menn þessa alla í bodi síno, allt þar til er þeir fengo sono sína, eda brædor, edr adra náfrændor, í gisling til konungs.

## CAP. LXXV.

## FRÁ ÞÍNGI Í ÞRÁNDHEIMI.

Olafr konungr fór med öllo lidi síno inn í Þrándheim; enn er hann kom inn á Mæri, þá voro þar komnir allir höfdingiar Þrænda, þeir er þá stódo mest í móti kristninni, oc höfdo þar med ser alla stórbændor, þá er fyrr höfdo halldit upp blótom í þeim stad; var þar þá allfiölment af bændom, sem vandi var til, oc eptir því sem fyrr hafdi verit á Frostoþíngi: Let þá konungr krefia þíngs, oc gengo hvarirtveggio med alvæpni til þíngs. Enn er þíng var sett, þá taladi konungr, oc baud mönnom kristni. Járnskeggi svarar máli konungs af hendi bænda, segir, at bændor villdo enn sem fyrr, at konungr bryti eigi lög á þeim; viliom ver, konungr, segir hann, at þú blótir, sem her hafa gert adrir konungar fyrir þer. At hans ræðo gerdo bændor mikinn róm, oc sögdo, at þeir villdo allt vera láta, sem Skeggi mælti. Þá segir konungr, at hann vill fara í hofit med þeim, oc siá sido þeirra, er þeir blóta. Bóandom likar þat vel; fara þá til hofsins hvarirtveggio.

## CAP. LXXVI.
## KRISTNADR ÞRÁNDHEIMR.

Olafr konungr gengr nú í hofit, oc fáir menn med hanom, oc fáir af bændom. Enn er konungr kom þar sem Godin voro, þá sat þar Þór, oc var mest tignadr af öllom Godom, búinn gulli oc silfri. Olafr konungr hóf upp refdi gullbúit, er hann hafdi i hendi, oc laust Þór sva at hann fell af stallinom. Sidan liópo at konungs menn, oc svipto ofan öllom Godom af stöllonom. Enn medan konungr var inni í hofino, þá var drepinn Járnskeggi úti fyrir hofsdyronom, oc gerdo þat konungsmenn. Enn er konungr kom út til lids sins, þá baud hann bændom tva kosti, annan þann, at þeir scylldo þá állir vid kristni taka, enn at ödrom kosti, hallda vid hann bardaga. Enn eptir lát Skeggia, þá var engi fórgángsmadr at, í bonda lidi, til at reisa merki ímót Olafi konungi: Vard hinn kostr upptekinn, at gánga til handa konungi, oc lyda því er hann baud. Þá let Olafr konungr scira fólk allt, þat er þar var, oc tók gisla af bóndom til þess, at þeir scylldo hallda kristni sína. Sidan let Olafr konungr fara menn sína um öll fylki í Þrándheimi; mællti þá engi madr ímót kristninni: Var þá scírt allt fólk í Þrændalögom.

## CAP. LXXVII.
## BÆAR GERD.

Olafr konungr fór lidi síno út til Nidaróss; þá let

hann reisa þar hús á Nidarbacka, oc scipadi sva, at þar scylldi vera kaupstadr; gaf mönnom þar toptir til at gera ser þar hús, enn hann let gera konungsgard upp frá Scipa-krók; let hann þannog flytia um haustit öll faung, þau er þurfti til vetrseto, oc hafdi þar allmikit fiölmenni.

## CAP. LXXVIII.

## KVANFÁNG OLAFS KONUNGS.

Olafr konungr gerdi stefnolag frændom Járnskeggia, oc baud þeim bætor. Enn þar voro til svara margir göfgir menn. Járnskeggi átti dóttor, er Gudrún er nefnd; oc kom þat at lyktom í sáttmál þeirra, at Olafr konungr scylldi fá Gudrúnar. Enn er brullaups stefna sú kom, þá gengo þau í eina reckio Olafr konungr oc Gudrún. Enn hina fyrsto nótt, er þau lágo bædi samt, þegar Gudrúno var grunr á at konungr væri sofnadr, þá brá hon knifi, oc villdi leggia at hanom; enn er konungr vard þessa varr, tók hann knífinn frá henni, oc steig upp or hvílunni, oc geck til manna sinna, oc sagdi hvat ordit hafdi: Tók Gudrún þá oc klædi sín, oc allir þeir menn er henni höfdo þannog fylgt; fóro þau í brott leid sína, oc kom Gudrún eigi sidan í sama reckio Olafi konungi.

## CAP. LXXIX.

## GIÖRR TRANINN

Þetta sama haust let Olafr konungr reisa lángscip

mikit út á eyronom vid Nid; þat var sneckia; hafdi hann þar til smidi marga: enn öndverdan vetr var scipit algert; var þat þritugt at rúmatali, stafnhatt oc ecki mikit i ser; þat scip kalladi konungr Tranann. Eptir dráp Járnskeggia var lik hans flutt út á Yriar, oc liggr hann í Skeggiahaugi á Austrátt.

## CAP. LXXX.

## ÞÁNGBRANDR FÓR TIL ÍSLANDS.

Þá er Ólafr konungr Tryggvason hafdi verit II vetor konungr at Noregi, var med hönom Saxneskr prestr, sá er nefndr er Þángbrandr; hann var ofstopa madr mikill oc víga madr; enn klerkr gódr, oc madr vaskr; enn fyrir sakir úspektar hans, þá villdi konungr eigi hann med ser hafa, oc feck hanom sendiferd þá, at hann scylldi fara til Islands, oc kristna landit; var hanom kaupscip fengit, oc er frá hans ferd þat at segia, at hann kom til Islands í Austfiördo, í Alftafiörd hinn Sydra, oc var eptir um vetrinn med Halli á Sído. Þángbrandr bodadi kristni á Islandi, oc af hans ordom let Hallr scíraz, oc hión hans öll, oc margir adrir höfdingiar, enn míklo fleiri voro hinir, er ímóti mælto. Þórvalldr Veili oc Vetrlidi skálld orto nid um Þángbrand, enn hann drap þá báda. Þángbrandr dvalldiz II vetor á Islandi, oc vard þriggia manna bani ádr hann fór í brott.

## CAP. LXXXI.

## FRÁ HAUKI OC SIGURDI.

Sigurdr er madr nefndr, enn annar Haukr; þeir voro Háleyskir, oc höfdoz miök í kaupferdom. Þeir höfdo ferit eitt sumar vestr til Englands; enn er þeir komo aptr til Noregs, þá sigldo þeir nordr med landi; enn á Nordmæri urdo þeir fyrir lidi Olafs konungs. Enn er konungi var sagt, at þar voro komnir nockorir menn Háleyskir, oc voro heidnir; þá let konungr kalla styrimenn til sín. Hann spurdi þá ef þeir villdi sciraz láta; enn þeir qveda þar nei vid. Sídan taladi konungr fyrir þeim á marga vega, oc stodadi þat ecki. Þá het hann þeim dauda edr meidslom; þeir scipadoz ecki vid þad. Þá let hann setia þá í iárn, oc hafdi med ser nockora hríd, oc voro þeir í fiötrom halldnir. Konungr taladi optliga fyrir þeim, oc tydi þat ecki. Oc á einni nótt hurfo þeir á brott, sva at engi madr spurdi til þeirra, edr vissi med hveriom hætti þeir komoz í brott. Enn um haustit komo þeir fram nordr med Háreki í Þiótto; tók hann vel vid þeim; voro þeir þar um vetrinn med hanom í gódo yfirlæti.

## CAP. LXXXII.

## FRÁ HÁREKI Í ÞIÓTTO.

Þat var um varit einn gódan vedrdag at Hárekr var heima, oc fátt manna á bænom, oc þótti han-

om daufligt. Sigurdr mælti vid hann, ef hann vill, at þeir rói nockot, oc skemti ser? Þat likar Háreki vel; gánga sídan til strandar, oc draga fram sexæring einn; tók Sigurdr or naustino segl oc reida, er fylgdi scipino, sva sem þeir voro optliga vanir at fara, at hafa segl er þeir fóro at skemta ser. Hárekr geck á scip, oc lagdi styri í lag. Þeir Sigurdr brædor fóro med alvæpni, sva sem þeir voro vanir iafnan heima at gánga med bóanda; þeir voro bádir manna sterkastir. Enn ádr þeir gengi út á scipit, köstodo þeir út smiörlaupom nockorom, oc braudkassi, oc báro milli sín mikla munngátz bytto á scipit. Sídan rero þeir frá landit; enn er þeir voro skamt komnir frá eyonni, þá færa þeir brædor segl upp, enn Hárekr styrdi; bar þá brátt frá eyonni. Þá ganga þeir brædor aptr, þar til er Hárekr sat. Sigurdr mællti til Háreks bónda: nú skallto kiósa her um kosti nockora: sá er enn fyrsti, láta ockor brædor fyrir ferd varri ráda oc stefno; hinn er annar, at vid manom binda þik; sá er inn þridi, at vid manom drepa þik. Hárekr sá þá hvernog komit var hans máli; hann var andvígr ecki betr enn ödrom þeirra brædra, ef þeir væri iamnbúir; kaus hann því þann af er hönom þotti nockoro villdastr, at láta þá ráda fyrir ferdinni: batt hann þat svardögom vid þá, oc selldi þeim trú sína til þess. Sídan geck Sigurdr til stiórnar, oc stefndi sudr med landi: gæta þeir brædor þess, at þeir skylldo hvargi menn finna; enn byri gaf sem best: Letta þeir

ferdinni eigi fyrr enn þeir koma sudr í Þrándheim, oc inn til Nidróss, oc finna þar Olaf konung. Sídan let Olafr konungr kalla Hárek á tal vit sik, oc baud hanom at láta sciraz; Hárekr mælti ímóti. Þetta tala þeir konungr oc Hárekr marga daga, stundom fyrir mörgom mönnom, enn stundom í einmæli, oc kemr her eigi ásamt. Enn at lyktom segir konungr Háreki: nú skalltó fara heim, oc vil ec eigi granda þeir at sinni; helldr þat til, at frændsemi er mikil milli ockar, oc þat annat at þú munt kalla, at ec hafa med svikom fengit þik. Enn vit þat til sanns, at ec ætla mer í sumar at koma nordr þannog, oc vitia ydar Háleygianna; scolot þer þá vita, hvart ec kann refsa þeim er neita kristninni. Hárekr let vel yfir því, at hann qvæmi sem fyrst þadan í brott. Olafr konungr feck Háreki skúto góda, oc rero á bord X menn edr XII; let þat scip búa sem best at öllom faungom. Konungr feck Háreki XXX manna vaskra drengia oc velbúinna.

## CAP. LXXXIII.

## DAUDI EYVINDAR KINNRIFO.

Hárekr or Þiótto ferr þegar í brott or bænom sem fyrst mátti hann, enn þeir Haukr oc Sigurdr voro med konungi, oc leto sciraz bádir. Hárekr fór leid sína, þar til er hann kom heim í Þiótto. Hann sendi þegar ord Eyvindi Kinnrifo vin sínom, oc

bad

bad sva segia hanom, at Hárekr or Þiótto hafdi fundit Olaf konung, oc hafdi eigi kúgaz látit til þess at taka vid kristni; hitt annat bad hann segia hanom, at Olafr konungr ætlar um sumarit at fara nordr þannig med her á hendr þeim; segir Hárekr, at þeir mano þar verda varhuga vid at giallda; bad Eyvind koma sem fyrst á sinn fund. Enn er þessi erindi voro borin Eyvindi, þá ser hann at yfrin naudsyn mun til vera, at gera þar fyrir þat rád, er þeir verdi eigi uppnæmir fyrir konungi: Ferr Eyvindr sem skyndiligaz med letti-skúto, oc fáir menn á; enn er hann kom til Þiótto, fagnar Hárekr hanom vel, oc þegar skiótt gánga þeir á tal Hárekr oc Eyvindr annan veg frá bænom. Enn er þeir hafa litla hrid talat, þá koma þar menn Olafs konungs, þeir er Háreki höfdo nordr fylgt, taka þá höndom Eyvind, oc leida hann til scips med ser, fara sídan í brott med Eyvind: Letta þeir eigi fyrr sinni ferd, enn þeir koma til Þrándheims, oc finna Olaf konung í Nidarósi: Var þá Eyvindi fylgt til tals vid Olaf konung: Baud konungr hanom at taka skírn sem ödrom mönnom. Eyvindr qvad þar nei vid; konungr bad hann blídom ordom at taka vid kristni, oc segir hanom marga skynsemi, oc sva biskop; Eyvindr skipadiz eigi vid þat. Þá baud konungr hanom giafar oc veizlor stórar: enn Eyvindr neitti öllo því. Þá het konungr hanom meizlom edr dauda; eigi skipadiz Eyvindr vid þat. Sídan let konungr

bera inn munnlaug fulla af glódom, oc setia á qvid Eyvindi, oc braz brátt qvidrinn sundr. Þá mællti Eyvindr: takit af mer munnlaugina, ec vil mæla ord nockor ádr ec dey; oc var sva gert. Þá spurdi konungr: vilto nú, Eyvindr, trúa á krist? nei! segir hann: ec má enga skirn fá; ec em einn andi, qviknadr í manns likam, med fiölkyngi Finna, enn fadir minn oc módir fengo eigi fyrr barn átt. Sídan dó Eyvindr, oc hafdi verit hinn fiölkunngasti madr.

## CAP. LXXXIV.

## CHRISTNAT HÁLOGALAND.

Enn um várit eptir let Olafr konungr búa skip sín oc lid; þá hafdi hann siálfr Trönona; hafdi konungr þá mikit lid oc frítt; enn er hann var búinn, hellt hann lidino út eptir firdi, oc sidan nordr fyrir Byrdo, oc sva nordr á Hálogaland. Enn hvar sem hann kom vid land edr eyar, þá átti hann þíng, oc baud hann þar öllo fólki, at taka skirn oc retta trú; bar þá engi madr traust til at mæla ímóti, oc kristnadiz þá land allt þar sem hann fór. Olafr konungr tók veizlo i Þiótto at Háreks, þá var hann skirdr oc allt lid hans; gaf Hárekr konungi stórar giafir at skilnadi, oc gerdiz hans madr, oc tók veizlor af konungi, oc lendsmanns rett.

## CAP. LXXXV.

## FALL ÞÓRIS HIARTAR.

Raudr hinn Rammi er nefndr bóndi einn, er bió

í Firdi þeim er Salpti heitir, í Godey. Raudr var madr stóraudigr, oc hafdi marga húskarla; hann var ríkr madr; fylgdi hanom mikill fiöldi Finna, þegar er hann þurfti. Raudr var blótmadr mikill, oc miök fiölkunnigr; hann var vin mikill þess mans, er fyrr var nefndr, Þórir Hiörtr: Voro þeir bádir höfdingiar miklir. Enn er þeir spurdo at Olafr konungr fór med her manns sunnan um Hálogaland, þá samna þeir her saman, oc bióda scipom út, oc fá lid mikit. Raudr hafdi dreka mikinn oc gullbúinn höfot á, var þat scip XXX at rúmatali, oc mikit at því. Þórir Hiortr hafdi oc mikit skip; þeir hallda lidi því sudr ímóti Olafi konungi, oc þegar er þeir hittaz, leggia þeir til orosto vid konung; vard þar mikill bardagi, oc gerdiz brátt mannfall, oc sneri því í lid Háleygia, oc rudoz scip þeirra: oc því næst sló á þá felmt oc ótta: Reri Raudr med dreka sinn út til hafs, oc því næst let hann draga upp segl sitt. Raudr hafdi iafnan byr, hvert er hann villdi sigla, oc var þat af fiölkyngi hans; er þat at segia skiótaz af ferd Rauds, at hann sigldi heim í Godey. Þórir Hiörtr flydi inn til lands, oc liópo þar af scipom. Enn Olafr konungr fylgdi þeim; liópo þeir oc af scipom oc rako þá oc drapo: Vard konungr enn fremstr sem iafnan, þá er slíkt skylldi þreyta; konungr sá hvar Þórir Hiörtr liórp; hann var allra manna fóthvatastr; konungr rann eptir hanom, oc fylgdi hanom Vígi hundr hans. Þá mælti konungr: Vígi! tak hiörtinn; Vígi lióp fram eptir Þóri, oc þegar

upp á hann. Þórir nam stad vid, þá skaut konungr kesio at Þori; Þóri lagdi sverdit til hundsins, oc veitti honom sár mikit, enn iamskiótt fló kesia konungsins undir hönd Þóri, sva at út stód um adra sidona; let Þórir þar lif sitt, enn Vígi var borinn sárr til scipa. Olafr konungr gaf grid öllom mönnom þeim er bádo, oc kristni villdo taka.

## CAP. LXXXVI.

## FERD OLAFS KONUNGS TIL GODEYA.

Olafr konungr hellt lidi síno nordr med landi, oc kristnadi allt fólk, þar sem hann fór; enn er hann kom nordr at Salpti, ætladi hann at fara inn í fiördinn, oc finna Raud; enn hret vedrs oc stakastormr lá innan eptir firdi, oc lá konungr þar til viko, oc hellz et sama hreggvidri innan eptir firdinom, enn et ytra var blásandi byrr at sigla nordr med land: Sigldi þá konungr allt nordr í Ömd, oc geck þar allt fólk undir kristni. Sidan snyr konungr ferd sinni aptr sudr; enn er hann kom nordan at Salpti, þá var hregg vedrs út eptir firdi oc siádrif; konungr lá þar nockorar nætor, oc var vedr et sama. Þá taladi konungr vid Sigurd biskop, oc spurdi eptir, ef hann kynni þar nockot rád tilleggia. Biskop sagdi at hann mundi freista, ef Gud vill sinn styrk tilleggia, at sigra þenna fianda krapt.

## CAP. LXXXVII.

## FRÁ SIGURDI BISKUPI OC PININGO RAUDS.

Sigurdr biskop tók allan messo skrúda sinn, oc geck fram í stafn á konungs skipi, let tendra kerti, oc bar reykelsi; setti rodokross upp i stafninn; las þar Gudspiall oc margar bænir; stökdi vígdo vatni um allt scipit; sídan bad hann taka af tiölldin, oc róa inn á fiördinn. Konungr let þá kalla til annara scipa, at allir skylldo róa inn á fiördinn eptir hanom. Enn er ródr var greiddr á Trönunni, þá geck hon inn á fiördinn, oc kendo þeir eingan vind á ser, er því skipi rero, oc sva stód toptin eptir i varrsimanum, at þar var logn. Enn sva laust siárokan brott frá tvéggia vegna, at hvergi sá fiöllin fyrir: Reri þá hvert skip eptir ödro þar i lognino; fóro þeir sva allan dag, oc eptir um nóttina; komo litlo fyrir dag inn í Godeyar. Enn er þeir komo fyrir bæ Rauds þá flaut þar fyrir landi dreki hans sá hinn mikli. Olafr konungr geck þegar upp til bæarins med lid sitt, veitti þar atgaungo lopti því, er Raudr svaf í, oc bruto upp; hliópo menn þar inn; var þá Raudr handtekinn oc bundinn; enn drepnir þeir menn adrir er þar voro inni, enn sumir handteknir. Þá gengo konungs menn at skála þeim er húskarlar Rauds sváfo í, voro þar sumir drepnir, enn sumir bundnir, sumir bardir: Let þá konungr leida Raud fyrir sik, oc baud hanom at láta skíraz; mun ec þá, segir konungr, eigi taka af þer eigo þína, vara helldr vin

þinn, ef þú kant tilgæta. Raudr æpti á móti því, segir, at alldri scylldi hann á krist trúa, oc Gudlastadi miök; konungr vard þá reidr, oc sagdi, at Raudr skylldi hafa hinn versta dauda. Þá let konungr taka hann oc binda opinn á slá eina, let setia kefli á millom tanna hanom, oc lúka sva upp munninn: þá let konungr taka lyng-orm einn, oc bera at munni hanom, enn orminn villdi eigi í munninn, oc reyktiz frá í brott, því Raudr bles ímóti hanom. Þá let konungr taka hvann-nióla trumbo, oc setia i munn Raudi; enn sumir menn segia, at konungr leiti lúdor sinn setia í munn hanom, oc let þar í orminn; let sidan bera at utan slá-iárn glóanda; rökdiz þá ormrinn í munn Raudi, oc sidan i hálsinn, oc skar út um sidona; let Raudr þar líf sitt. Olafr konungr tók þar ofa mikit fe í gulli oc silfri, oc ödro lausafe, í vapnom oc margskonar dyrgripom. Enn menn alla, þá er fylgt höfdo Raudi, let konungr skíra, enn þá er þat villdo eigi, let hann drepa edr qvelia. Þá tók Olafr konungr dreka þann, er Raudr hafdi átt, oc styrdi siálfr, þvíat þat var miklo meira skip oc fridara, enn Tranan; fram var á dreka höfot, enn aptr krókr, oc fram af sem spordr: oc hvartveggi svírinn, oc allr stafninn var med gulli lagdr: þat skip kalladi konungr orminn; þvíat þá er segl var á lopti, skylldi þat vera fyrir vængi drekans: var þetta scip frídaz i Noregi öllom. Eyar þær er Raudr bygdi heto Gilling oc Hæring, enn allar saman heita þær Godeyar, oc Godeya-straumr fyrir nordan, oc

milli meginlands. Olafr konungr kristnadi fiörd þann allan; ferr sidan leid sina sudr med landi, oc vard í þeirri ferd mart til tidinda, þat er í frásögu er fært, er tröll oc illar vættir glettoz vid menn hans, oc stunndom vid hann siálfan. Enn ver viliom hit helldr rita um þá atburdi, er Olafr konungr kristnadi Noreg, edr önnor þau lönd, er hann kom kristni á. Olafr konungr kom lidi sino þat sama haust í þrándheim, oc hellt til Nidaross, oc bió ser þar til vetrseto. þat vil ec nú næst rita láta, at segia frá Islendskom mönnom.

## CAP. LXXXVIII.

## FRÁ ÍSLENDINGOM.

þetta sama haust komo til Nidaróss útan af Islandi Kiartan Olafsson Höskulldssonar, oc dóttorson Egils Skallagrímssonar, er einn hefir kalladr verit mannvænstr madr, þeirra er fædz hafi á Islandi. þar var þá oc Halldor son Gudmundar á Mödrovöllom, oc Kollbeinn son þórdar Freysgoda, bródor Brenno-Flosa; oc Svertingr son Runolfs Goda: þessir voro allir heidnir; oc margir adrir, sumir ríkir, enn sumir úríkir. þá komo oc af Islandi göfgir menn, er kristni höfdo tekit af þángbrandi, Gissor Hvíti, son Teits Ketilbiarnarsonar; enn módir hans var Alöf, dóttir Bödvars Hersis, Vikinga-Kárasonar; bródir Bödvars var Sigurdr, fadir Eiriks Biódascalla, födor Astrídar, módor Olafs konungs.

Hiallti het madr Islendzkr Skeggiason; hann átti Vilborgo dóttor Gissora Hvíta; Hiallti var oc kristinn madr, oc tók Olafr konungr feginsamliga vid þeim mágom Gitzori oc Hiallta, oc voro þeir med hanom. Enn þeir Islendskir menn er fyrir scipom redo, oc heidnir voro, þá leitado þeir til brottsiglingar, þegar er konungr var í bænom; þvíat þeim var sagt, at konungr naudgadi öllom til kristni; enn vedr geck í þrá þeim, oc rak þá aptr undir Nidarhólm. Þeir redo þar fyrir scipom Þórarinn Nefiúlfsson, Hallfredr Skálld Ottarson, Brandr hinn Örvi, Þórleikr Brandsson. Þetta var sagt Olafi konungi, at Islendingar voro þar nockorom scipom, oc heidnir allir, oc villdo flya fund konungs. Þá sendi konungr menn til þeirra, oc bannadi þeim braut at hallda; bad þá leggia inn til bæar, oc gördo þeir svá, enn báro eigi af scipom sínom. Þeir átto kaupstefno, oc helldo torg vid konungs bryggior. Um várit leitodo þeir til brautsiglingar þrysvar, oc gaf þeim alldri, oc lágo vid bryggior. Þat var einn gódan vedr dag, at margir menn fóro á sund, oc skemta ser; einn var sá madr, er þar bar lángt af ödrom of allir iþróttir. Kiartan mælti vid Hallfred Vandrædaskálld, at hann skylldi reyna sund vid þenna mann; enn hann telz undan. Kiartan mælti: ec scal þá freista; kastar af ser klædonom, oc verpr ser á sund; legdz at þessom manni, oc grípr um fót hanom, oc færir hann nidr; koma upp; oc höfdoz engi ord vid: fara nidr ödro sinni oc ero myklo

lengr nidri, enn hit fyrra sinn; koma enn upp, oc þegia: fara þegar nidr þridia sinni, þar til er Kiartani þickir allt mál upp, oc er þá eigi þess kostr, oc kennir þá aflsmunar; ero nidri, þar til er Kiartan er miök þrotinn; koma þá upp oc leggiaz at landi; spyrr hinn Norræni madr, hverr Islendingr væri at namni? Kiartan nefnir sik; hinn mælti: þú ert vel sundfærr; edr ertu íþróttamadr at fleirom lutom? Kiartan svarar: þat er lítil íþrótt. Hinn Norræni mælti: hví spyrto eingis ímót? Kiartan svarar: ec ætla mik eingo skipta, hverr þú ert, edr hvat þú heitir; hinn svarar: ec mon þá segia þer; her er Olafr Tryggvason. Hann spurdi Kiartan margs af Islandi; enn hann segir allt of lettliga. Sidan ætlar Kiartan braut at gánga sciotliga. Konungr mælti: her er skickia, er ec vill gefa þer Kiartan, enn Kiartan þá skickiona, oc þackadi hanom forkunnar vel.

## CAP. LXXXIX.

## SKÍRDIR ÍSLENDSKIR MENN.

Þá kom Michialsmessa; let konungr þá hallda miök til, at syngia messo hátidliga. Islendingar gengo til oc lyddo saung fögrom, oc klucknahliódi. Enn er þeir komo til scipa sinna, sagdi hverr þeirra hverning likat hafdi atferd kristinna manna. Kiartan let vel yfir, enn flestir adrir löstodo. Enn sva fór þar, sem mælt er, at mörg ero konungs eyro:

Var konungi þetta sagt. Þá gerdi hann þegar um daginn mann eptir Kiartani, oc bad hann koma til sín. Kiartan geck til konungs med nockora menn; konungr fagnadi hanom vel. Kiartan var allra manna mestr oc frídastr, oc vel ordi farinn; enn er þeir konungr höfdo fám ordom vidsciptz, þá baud konungr Kiartani at taka vid kristni. Kíartan segir, at hann vill því eigi neita, ef hann skal þá hafa vinátto konungs; konungr heitir hanom vinátto sinni fullkominni, oc semia þeir Kiartan þá sáttmál milli sín. Annan dag eptir var Kiartan skírdr, oc Bolli Þórleiksson frændi hans, oc allt föroneyti þeirra: Var Kiartan oc Bolli í bodi konungs, medan þeir voro í hvitavadom, oc var konungr allkærr til þeirra, oc þótto þeir ágætir menn, hvar sem þeir komo.

## CAP. XC.

## SKÍRDR HALLFREDR VANDRÆDASKÁLLD.

Olafr konungr geck einn dag úti á stræti, enn menn nockorir gengo ímóti hanom, oc sá er fyrstr geck, fagnadi konungi. Konungr spurdi þann mann at nafni; sá nefndiz Hallfredr. Þá mælti konungr: erto skálldit? hann sagdi: kann ec yrkia. Þá mælti konungr: þú mant vilia taka kristni, oc geraz sídan minn madr? hann segir: kostr skal á því vera, at ec man scíra láta, ef þú, konungr, veitir mer siálfr gudsifiar; af engom manni ödrom vil ec þat þiggia;

konungr svarar: ec vil þat gera: Var þá Hallfredr scírdr, oc hellt konungr hanom undir scírn. Sídan spurdi konungr Hallfred: villto nú geraz minn madr? Hallfredr sagdi: ec var fyrr hirdmadr Hákonar Jarls; nú vil ec eigi geraz þer handgenginn, oc engom ödrom höfdingiom, nema þú heitir mer því, at mik hendi enga þá luti, er þú rekir mik frá þer. Sva at eino er mer sagt, segir konungr, at þú er eigi sva vitr eda spakr, at mer er örvænt, at þú gerir þá luti, er ec vil fyrir engan mun vidsæma; drepto mik þá, segir Hallfredr; konungr mælti: þú ert Vandrædascálld, enn minn madr scallto nú vera. Hallfredr svarar: hvat gefr þú konungr mer at nafnfesti, ef ec scal heita Vandrædascálld. Konungr gaf hanom sverd, oc fylgdi engi umgerd. Konungr mælti: yrk nú víso um sverdit, oc lát sverd vera í hverio víso ordi. Hallfredr qvad:

Eitt er sverd þat er sverda
sverdaudgan mik gerdi
fyrir svip-niördom sverda
sverdótt mun nú verda.
Mana van-sverdat verda,
verdr em ec þriggia sverda,
iardar leggs ef yrdi
umgerd at því sverdi.

Þá feck konungr hanom umgerd oc mælti: eigi er sverd í hverio víso ordi; Hallfredr svarar: tveir ero oc í eino: sva er þat, segir konungr. Af Hallfredar qvædom tökom ver hellz vísindi, oc sannindi, þat er sagt er frá Olafi konungi Tryggvasyni.

## CAP. XCI.

## ÞÁNGBRANDR KOM APTR FRÁ ÍSLANDI TIL OLAFS KONUNGS.

Þetta sama haust kom Þángbrandr prestr aptr af Islandi til Olafs konungs, oc sagdi sínar farar eigi slettar; segir, at Islendingar hefdi gert níd um hann, enn sumir villdo drepa hann, oc let enga ván, at þat land mundi kristit verda. Olafr konungr vard sva ódr oc reidr, at hann let blása öllom Islendskom mönnom saman, þeim er þar voro i bænom, oc mælti sídan, at alla skylldi drepa. Enn Kiartan oc Gissor oc Hiallti, oc adrir þeir er þá höfdo vid kristni tekit, gengo til hans, oc mælto: eigi manto, konungr, vilia sva gánga á bak ordom þínom, þviat þú mælir sva, at eingi madr skal sva mikit hafa gert til reidi þinnar, at eigi villto þat uppgefa, þeim er skíraz vilia, oc láta af heidni. Nú vilia þessir allir Islendskir menn, er hęr ero nú, scíraz láta. Enn ver munom finna bragd þar til, er kristni mun vidgángaz á Islandi. Ero her margir ríkra manna synir af Islandi, oc mano fedor þeirra mikit lidsinni veita at þesso máli; enn Þángbrandr prestr fór þar, sem her med ydr, vid ofstopa oc manndráp, oc þoldo menn hanom þar ecki slíkt: Tók þá konungr af lyda á slíkar rædor: Voro þá skírdir allir Islendskir menn þeir sem þar voro þá.

## CAP. XCII.

## FRÁ ÍÞRÓTTOM OLAFS KONUNGS.

Olafr konungr var mestr íþrótta madr í Noregi, þeirra er menn hafa frásagt, um alla luti; hveriom manni var hann sterkari oc fimari, oc ero of þat margar frásagnir ritadar. Ein sú, er hann geck í Smalsarhorn, oc festi þar upp skiölld sinn i ofanverdt biargit; oc enn þat, er hann halp hirdmanni sínom, þeim er ádr hafdi klifit biargit, sva at hverki mátti hann komaz upp, ne ofan; enn konungr geck til hans, oc bar hann undir hendi ser allt ofan á iöfno. Olafr konungr geck eptir árom útbyrdis, er menn hans rero á Orminom. Oc hann lek at þrimor handsöxom, sva at iafnan var eitt á lopti, oc hendi æ medalkaflan; hann geck fyrir bard á scipi sino; hann var iafntamr bádom höndom, oc skaut II spiótom senn. Olafr konungr var allra manna gladastr oc leikinn miök, blidr oc litillátr, ákafamadr mikill of alla luti, stórgiöfull, sundrgerda madr mikill; fyrir öllom mönnom um fræknleik í orosto; allra manna grimmástr, þá er hann var reidr, oc qvaldi úvini sina miök; suma brendi hann i elldi; suma let hann ólma hunda rífa í sundr; suma lemia edr kasta fyrir hábiörg: voro af þeim sökom vinir hans ástúdgir miök vid hann, enn úvinir hans hræddoz vid hann; var því mikill frámqvæmd hans, at sumir gerdo hans vilia med blído oc vinátto, enn sumir fyrir rædslosakir.

## CAP. XCIII.

## SKÍRDR LEIFR EÍRIKSSON.

Leifr son Eiríks Rauda, þess er fyrstr bygdi Grænland, var þetta sumar kominn af Grænlandi til Noregs; fór hann á fund Olafs konungs, oc tók vid kristni; oc var um vetrinn med Olafi konungi.

## CAP. XCIV.

## FALL GUDRÖDAR KONUNGS GUNNHILLDAR SONAR.

Gudrödr son Eiríks Blódöxar, oc Gunnhilldar konunga módor, hafdi verit í hernadi í Vestrlöndom sídan er hann flydi land fyrir Hákoni Jarli. Enn á þesso sumri er nú er ádr fráságt, þá er Olafr konungr Tryggvason hafdi IV vetor rádit fyrir Noregi, þá kom Gudrödr til Noregs, oc hafdi mörg herscip; hann hafdi þá siglt út af Englandi; oc er hann kom í landvon vid Noreg, þá stefndi hann sudr med landino, þángat er hanom var minni van Olafs konungs; siglir Gudrödr til Víkurinnar. Enn þegar er hann kom til lands, tók hann at heria oc brióta undir sik landsfólk, enn beiddi ser vidtöko. Enn er landsmenn sá at her mikill var kominn á hendor þeim, þá leita menn ser grida oc sætta, oc bióda konungi, at þingbod skuli fara yfir land, oc bióda hanom helldr vidtöko, enn þola her hans; oc væri þar lögd frest á, medan þingbod færi yfir; krafdi þá konungr

vista giallds, medan sú bidandi scylldi vera. Enn bændor kiósa hinn kost helldr, at búa konungi veizlor, þá stund alla, er hann þurfti til þess; oc tók konungr þann kost, at hann fór um land at veizlom med sumt lid sitt, enn sumt gætti skipa hans. Enn er þetta spyria þeir brædor Hyrningr oc Þórgeirr, mágar Olafs konungs, þá samna þeir ser lidi, oc ráda ser till scipa; fara sídan nordr í Vikina, oc koma á einni nótt, med lidi síno, þar sem Gudrödr konungr var á veizlo; veita þar atgaungo med elldi oc vapnom; fell þar Gudrödr konungr, oc flest allt lid hans. Enn þat er á skiponom hafdi verit, var sumt drepit, enn sumt komz undan oc flydi vids vegar. Voro þá daudir allir synir Eiríks oc Gunhilldar.

## CAP. XCV.
## GIÖRR ORMRINN LÁNGI.

Þann vetr eptir, er Olafr konungr hafdi komit af Hálogalandi, let hann reisa scip mikit inn undir Ladhömrom, þat er meira var miklo, enn önnor þau skip, er þá voro í landino, oc ero enn þar backastockar, sva at siá má; þat var at lengd IV álnar hins átta tigar, er graslægt var. Þórberg Skafhögg er nefndr sá madr, er stefna-smidr var at scipino; enn þar voro margir adrir at; sumir at fella, sumir at telgia, sumir saum at slá, sumir til at flytia vido: voro þar allir lutir vandadir miök til: var skipit bædi lángt oc breidt, oc bordmikit, oc stórvidat. Enn er

þeir báro skipit bordi, þá átti þórbergr naudsynia erindi at fara heim til bús síns, oc dvalldiz þar miök lengi. Enn er hann kom aptr, þá var skipit fullborda: Fór konungr þegar um qvölldit, oc þórbergr med hanom, oc siá þá skipit, hvernog ordit var: oc mælti hverr madr, at alldri hefdi sed lángscip jammikit, edr jamfritt: ferr þá konungr aptr í bæinn. Enn snemma eptir of morguninn, ferr konungr enn til skipsins, oc þeir þórbergr; voro þá smidar þar ádr komnir; stódo þeir allir, oc höfdoz ecki at. Konungr spurdi: hví þeir færi sva? þeir segia, at spillt var skipino, oc madr mundi gengit hafa ödro megin frá stafni til lyptingar, oc sett í bordit ofan hvert skyli högg at ödro: Geck konungr þá til, oc sá at satt var; mælti þegar, oc svaradi um, at sá madr skylldi deya, ef konungr vissi, hverr fyrir öfundar sakir hefdi spillt skipino: enn sá er mer kann þat segia, skal mikil gædi ef mer lióta. þá segir þórbergr: ec mun kunna segia ydr konungr, hver þetta verk mun gert hafa. Mer er eigi þess at ödrom manni meiri von, segir konungr, at þetta happ muni henda, enn at þer, at verda þess vís, oc kunna mer segia. Segia mun ec þer konungr, sagdi hann, hver gert hefir: ec hefi gert. þá svarar konungr: þá skallto bæta, sva at iamvel se sem ádr var; þar skal líf þitt vid liggia. Sídan geck þórbergr til oc telgdi bordit, sva at öll gengo or skylihöggin. Konungr mællti þá, oc allir ádrir, at

skipit

skipit væri miklo frídara á þat bord er Þórbergr hafdi skorit; bad konungr hann þá sva gera á bædi bord, oc bad hann hafa mikla þöck fyrir: Var þá Þórbergr höfotsmidr fyrir skipino, þar til er algert var; var þat dreki, oc gerr eptir því sem dreki sá, er konungr hafdi haft af Hálogalandi; enn þetta scip var miklo meira, oc at öllom hlutom meir vandat. Konungr kalladi þetta scip Orm hinn lánga, enn hinn, Orm inn skamma. A orminom lánga voro IV rúm oc XXX. Höfudit oc krókrinn var allt gullbúit; sva voro há bordin sem á hafskipom. Þat hefir skip verit best gert, oc med mestom kostnadi í Noregi.

## CAP. XCVI.

## FRÁ EIRÍKI JARLI HÁKONAR SYNI.

Eiríkr Jarl Hákonar son oc brædor hans, oc margir adrir göfgir menn, frændor þeirra, fóro af landi á brott, eptir fall Hákonar Jarls: Fór Eiríkr Jarl austr í Svíþiód, á fund Olafs Svia konungs, oc fengo þeir þar gódar vidtökor: Veitti Olafr konungr þar Jarli fridland, oc veizlor stórar, sva at hann mátti þar vel hallda sik í landi, oc lid sitt. Þess getr Þórdr Kolbeinsson:

Mein rennir brá manna &c.
Hafdi ser vit særi &c. (Cap. 57.)

Lid mikit sótti af Noregi til Eiriks Jarls, þat er landflótta vard fyrir Olafi konungi Tryggvasyni; tók

Eirikr Jarl þá þat rád, at hann red ser til scipa, oc fór í hernad, at fá ser fiár oc lidi síno. Hann hellt fyrst til Gotlands, oc lá þar vid lengi um sumarit, oc sætti þar kaupscipom, er sigldo til landsins, edr víkingom; stundom gèck hann upp á landit, oc heriadi þar vida med siánom. Sva segir í Bandadrápo:

Mærr vann miklo fleiri
málm hríd iöfurr sídan,
ádr fragom þat, adra
Eiríkr und sik geira;
þá er gard vala gerdi
Gotland vala strandar
Virvils vítt of heriat
vedrmilldr oc semr hilldi.

Sidan sigldi Eiríkr Jarl sudr til Vindlands, oc hitti hann fyrir staurinom víkinga-skip nockor, oc lagdi til orosto vid þá: þar feck Eiríkr Jarl sigr, enn drap víkingana. Sva segir í Bandadrápo:

Stærir let at stauri
stafn vigg í höfn liggia,
gramr vælti sva gumna,
gunnblidr oc red sídan.
Sleit at sverda móti
svörd víkinga hördo
unda már fyrir eyri;
Jarl Gud vördo hiarli.

## CAP. XCVII.

## HERNADR EIRÍKS Í AUSTRVEG.

Eiríkr Jarl sigldi um haustit aptr til Svíþiódar, oc var þar vetr annan; enn at vári bió hann her sinn,

oc sigldi sídan í Austrveg. Enn þá er hann kom í ríki Valldimars konungs, tók hann at heria oc drepa mannfólkit, oc brenna allt þar sem hann fór, oc eyddi landit; hann kom til Aldeigioborgar, oc settiz þar um, þar til er hann vann borgina, drap þar mart fólk, enn braut oc brendi borgina alla, oc sídann fór hann vída herskilldi um Gardaríki. Sva segir í Banda-drápo:

Oddhrídar fór eyda,
óx hríd at þat sídan,
log fágandi lægis
land Valldimars brandi.
Aldeigio brauzt ægir.,
os nunnaz skil, gunna,
sú vard hilldr med hölldom
hörd, komto austr í Garda.

Eiríkr Jarl var í þessom hernadi öllom samt V sumor: enn er hann kom or Gardaríki, fór hann herskilldi um alla Adalsyslo oc Eysyslo, oc þar tók hann IV víkinga-skeidor af Dönom, oc drap allt af. Sva segir í Banda-drápo:

Frá ec hvar fleina sævar
fur herdir styr gerdi
endr í Eyasundi
Eiríkr und sik geira.
Raud fur giafall fiórar
fólk meidr Dana skeidar,
ver frágom þat, vaga
vedr milldr oc senir hilldi.
Attot hialldr þar er hölldar
hlunn viggs í bæ runno
gæti niördr vid Gauta
gunnblídr oc red sídan.

Herskilldi fór hilldar,
hann þverdi frid manna,
áss of allar syslor,
Jarl Gud vördo hiarli.

Eiríkr Jarl fór til Danmerkor, þá er hann hafdi einn vetr verit í Svíavelldi; hann fór á fund Sveins Tiúguskeggs Dana konungs, oc bad til handa ser Gydo dóttor hans, oc var þat at rádi gert; feck þá Eirikr Jarl Gydo. Vetri sídar átto þau son er Hákon het. Eirikr Jarl var á vetrom í Danmörk, enn stundom í Svíavelldi, enn i hernadi á sumrom.

## CAP. XCVIII.

## KVANFÁNG SVEINS KONUNGS.

Sveinn Dana konungr Tiúguskegg átti Gunnhilldi, dóttor Burislafs Vinda konungs. Enn í þenna tima, sem nú var ádr frásagt, var þá þat til tídinda, at Gunnhilldr drottning tók sótt oc andadiz: Enn litlo sídar feck Sveinn konungr Sigrídar hinnar Stórrádo, dóttor Sköglar Tosta, módor Olafs ens Sænska, Svía konungs: Tókoz þar þá med tengdom konunga kærleikar, oc med öllom þeim Eiríki Jarli Hákonar syni.

## CAP. XCIX.

## KVANFÁNG BURISLEIFS KONUNGS.

Burislafr Vinda konungr kærdi mál þat fyrir Sigvallda Jarli mági sínom, at sættargerd sú var rofin, er Sigvalldi Jarl hafdi gert milli Sveins konungs oc

Burislafs konungs, er Burislafr konungr skylldi fá þyri Harallds dóttor, systor Sveins konungs; enn þat rád hafdi ecki framgengit, þvíat þyri setti þar þvert neî fyrir, at hon mundi giptaz vilia konungi heidnom oc gömlom. Nú segir Burislafr konungr Jarli, at hann vili heimta þann máldaga, oc bad Jarl fara til Danmerkor, oc hafa þyri drottningo til sín. Sigvalldi Jarl lagdiz þá ferd eigi undir höfot, oc fer á fund Sveins Dana konungs, oc ber þetta mál upp fyrir hann; oc kemr Jarl sva fortölom sínom, at Sveinn konungr fær i hendor hanom þyri systor sína; oc fylgdo henni konor nockorar, oc fóstrfadir hennar, er nefndr er Ötzorr Akason, ríkr madr, oc nockorir menn adrir; kom þat í einkamál med konungi oc Jarli, at eignir þær í Vindlandi, er átt hafdi Gunnhilldr drottning, skylldi þá hafa þyri til eiginords, oc þar med adrar stórar eignir í tilgiöf sína. þyri gret sárliga, oc fór miök naudig. Enn er þau Jarl komo í Vindland, þá gerdi Burislafr konungr brullaup sitt, oc feck þyri drottningar. Enn er hon var med heidnom mönnom, þá villdi hon hvarki þiggia mat ne dryck at þeim, oc fór sva fram VII nætor.

## CAP. C.

## OLAFR KONUNGR FECK þYRI DROTTNINGAR.

Enn þá var þat á einni nótt, at þyri drottning oc

Ötzorr liópoz í brott í nátt-myrkri, oc þegar til skógar; er þat skiótaz af þeirra ferd at segia, at þau koma fram í Danmörk, oc þorir Þyri þar fyrir engan mun at vera, fyrir þá sök at hon veit ef Sveinn konungr bródir hennar spyr til hennar þar, at hann mun sciótt senda hana aptr til Vindlands: Fara þau allt huldo höfdi, þar til er þau komo í Noreg; letti Þyri eigi ferdinni, fyrr enn þau koma á fund Olafs konungs: tók konungr vid þeim vel, oc voro þau þar i gódom fagnadi: Sagdi Þyri konungi allt um sín vandrædi, oc bidr hann hialpráda, oc fridar í hans ríki. Þyri var kona ordsniöll, oc virdiz konungi vel rædor hennar: Sá hann, at hon var fríd kona, oc kemr í hug, at þetta mani vera gott qvanfáng, oc víkr þannog rædunni, oc spyr ef hon vill giptaz hanom. Enn sva sem þá var hennar rádi komit, þótti henni vandi mikill or at ráda; enn í annan stad sá hon hvarso farsælligt giaford þetta var, at giptaz sva ágætom konungi, oc bad hann ráda fyrir ser, oc síno rádi. Oc sva sem um þetta var talat, þá feck Olafr konungr Þyri drottningar. Þetta brullaup var gert um haustit, þá er konungr hafdi komit nordan af Hálogalandi: Var Olafr konungr oc Þyri drottning í Nidarósi um vetrinn. Enn eptir um várit, þá kærdi Þyri drottning opt fyrir Olafi konungi, oc gret sárliga, þat er eignir hennar voro sva miklar í Vindlandi, enn hon hafdi eigi fiárlut þar í landi, sva sem drottningo sæmdi: stundom bad hon konung fögrom ordom, at

hann skylldi fá henni eign sína; segir, at Burislafr konungr var sva mikill vin Olafs konungs, at þegar er þeir fynniz, mundi konungr fá Olafi konungi allt þat er hann beiddiz. Enn er þessar rædo urdo varir vinir Olafs konungs, þá lötto allir konung þessarar farar. Sva er sagt, at þat var einn dag snimma um várit, at konungr geck eptir stræti, enn vid torg geck madr ímóti hanom med hvannir margar, oc undarliga stórar þann tíma várs. Konungr tók einn hvann-nióla mikinn í hönd ser, oc geck heim til herbergis Þyri drottningar; Þyri sat inn í stofunni, oc gret er konungr kom inn. Konungr mælti: se her hvann-nióla mikinn, drottning, er ec gef þer; hon laust vid hendinni, oc mælti: stærrom gaf Haralldr Gormsson, enn midr ædradiz hann at fara af landi, oc sækia eign sína, enn þú gerir nú; oc reyndiz þat þá, er hann fór hingat i Noreg, oc eyddi mestan luta lands þessa, enn eignadiz allt at skylldom oc sköttom; enn þú þorir ei at fara í gegnom Danavelldi fyrir Sveini konungi bródor mínom. Olafr konungr lióp upp vid, er hon mælti þetta, oc mælti hátt, oc svardi vid: alldri skal ec hræddr fara fyrir Sveini konungi bródor þínom, oc ef ockrir fundir verda, þá skal hann fyrir láta.

## CAP. CI.

## ÚTBOD OLAFS KONUNGS.

Olafr konungr stefndi þíng í bænom litlo sídar;

hann gerdi þá bert fyrir allri alþydo, at hann mundi leidángr úti hafa um sumarit fyrir landi, oc hann vill nefnd hafa or hverio fylki, bædi at skipom oc lidi: segir hann hverso mörg skip hann vill þadan hafa or firdinom. Sídan gerir hann ordsending bædi nordr oc sudr med landi, et ytra oc et efra, oc lætr lidi útbióda. Olafr konungr lætr þá setia fram Orminn lánga, oc öll önnor skip sin, bædi stór oc smá: Styrdi hann siálfr Orminom lánga. Oc þá er menn voro þar rádnir til scipanar, þá var þar sva miök vandat lidit oc valit, at engi madr scylldi vera á Orminom lánga ellri enn sextogr, edr yngri enn tvítogr; enn valdir miök at afli oc hreysti. Þar voro fyrst tilskoradir hird-menn Olafs konungs, þvíat þat var valit af innanlands mönnom oc útanlands, allt þat er sterkast var oc fræknast.

## CAP. CII.

## MANNTAL Á ORMINOM.

Ulfr Raudr het madr, er bar merki Olafs konungs, oc í stafni var á Orminom, oc annar Kolbiörn stallari, Þorsteinn Uxafótr, oc Vikarr af Tiundalandi, bródir Arnlióts Gellina. Þessir voro á Rausninni í Söxom: Vakr Elfski Raumason, Bersi hinn Sterki Bollason, An Skyti af Jamtalandi, Þrándr Rami af Þelamörk, oc Uþyrmir bródir hans; Þeir Háleygir: Þránder Skiálgi oc Ögmundr Sandi, Lödver Langi or Salltvik, oc Hárekr Hvassi; Þeir Innan-Þrændir:

Ketill Hani; þorfinnr Eisli, Havardr, oc þeir brædor or Orkadal. þessir voro í Fyrirrúmi: Biörn af Studlo, Börkr or Fiördom, þórgrimr or Hvini þiódolfsson, Asbiörn oc Ormr, þórdr or Mardarlög, þórsteinn Hviti af Ofrostödom, Arnór Mærski, Hallsteinn oc Haukr or Fiördom, Eyvindr Snákr, Bergdórr Bestill, Hallkell af Fiölom, Olafr Drengr, Arnfinnr Sygnski, Sigurdr Bildr, Einarr Hördzki, oc Finnr; Ketill Rygski, Griótgardr Röskvi. þessir voro í Krapparúmi: Einar þambarskelfir, hann þótti þeim eigi lutgengr, þvíat han var XVIII vetra; Hallsteinn Hlifarson, þórolfr, Ivarr Smetta, Ormr Skógarnef; oc margir adrir menn miök ágætir voro á Orminom, þótt ver kunnom eigi at nefna. Atta menn voro í hálf-rymi á Orminom, oc var valit einom manni oc einom. XXX manna voro í Fyrirrúmi. þat var mál manna, at þat mannval er á Orminom var, bar eigi minna af ödrom mönnom um fridleika oc afl oc fræknleik, enn Ormrinn lángi af ödrom scipom. þórkell Nefia, bródir konungs, styrdi Orminom Skamma; þórkell Dydrill, oc Jósteinn, módorbrædor konungs, höfdo Trönona; oc var hvartveggia þat skip allvel skipat. Ellifo stórskip hafdi Olafr konungr or þrándheimi, oc umfram Tvítogsessor oc smærri skip oc vistar byrdinga.

## CAP. CIII.

## KRISTNAT ÍSLAND.

Enn er Olafr konungr hafdi miök búit lid sitt or

Nidarósi, þá skipadi hann mönnom um öll þrændalög í syslor oc ármenningar; þá sendi hann til Islands Gitzorr Hvíta oc Hiallta Skeggiason at boda kristni á Islandi, oc feck med þeim prest þann er þormódr er nefndr, oc fleiri vígda menn; enn hafdi eptir med ser i gisling IV Islendzka menn, þá er hönom þótto ágætastir, Kiartan Olafsson, Halldor Gudmundarson, Kolbein þórdarson, Sverting Runolfsson. Oc er þat sagt af ferd þeirra Gitzorar oc Hiallta, at þeir komo til Islands fyrir Alþing, oc fóro til þings, oc á því þingi var kristni í lög tekin á Islandi, oc þat sumar var skirt allt landsfólk.

## CAP. CIV.

## KRISTNAT GRÆNLAND

Olafr konungr sendi oc þat sama vár Leif Eiriksson til Grænlands, at boda þar kristni, oc fór hann þat sumar til Grænlands; hann tók í hafi skipsögn þeirra manna, er þá voro ófærir, oc lágo á skipsflaki, oc þá fann hann Vínland it góda; oc kom um haustit til Grænlands, oc hafdi þannog med ser prest oc kennimenn, oc fór til vistar i Brattahlíd til Eiriks födor sins. Menn köllodo hann sidan Leif hinn Heppna. Enn Eiríkr fadir hans segir, at þat var samskullda, er Leifr hafdi borgit skipsögn manna i hafi, oc þat er hann hafdi flutt ske-mannin til Grænlands, þat var prestrinn.

## CAP. CV.

## FRÁ SIGLING BIARNA HERIÚLSSONAR.

Heriúlfr var Bardar son, Heriúlfssonar: hann var frændi Ingolfs landnámamans. Þeim Heriolfi gaf Ingolfr land á milli Vogs oc Reykianess. Heriúlfr bió fyrst á Drepstocki; Þórgerdr het kona hans, enn Biarni son þeirra; oc var hinn efniligsti madr. Hann fystiz utan þegar á únga alldri: vard hönom gott, bædi til fiár oc mannvirdingar, oc var sinn vetr hvert utanlands edr med fedr sinom. Brátt átti Biarni skip i förom. Hinn sidasta vetr, er hann var í Noregi, þá brá Heriúlfr til Grænlands ferdar med Eiríki, oc brá búi sino. Med Heriúlfi var á skipi Sudreyskr madr kristinn, sá er orti Hafgerdingardrápo; þar er þetta stef í;

Mínar bidr ec munka reyni
meina lausan farar bæina;
hæidis halldi hattar folldar
hallar drottinn yfir mer stalli.

Heriulfr bió á Heriúlfsnesi, oc var hinn göfgasti madr. Eirikr Raudi bió í Brattahlíd; hann var þar med mestri virdingo, oc luto allir til hans. Þessi voro börn Eiríks: Leifr, Þórvalldr oc Þórsteinn; enn Freydís het dóttir hans: hon var gipt þeim manni, er Þorvalldr het, oc biuggo þau í Gördom, þar sem nú er Biskops stóll. Hon var svarri mikill, enn Þórvalldr var litil menni: var hon miök gefin til fiár. Heidit var fólk á Grænlandi í þann

tíma. Þát sama sumar kom Biarni skipi síno á Eyrar, er fadir hans hafdi brott siglt um vorit: þau tídindi þótto Biarna mikil, oc villdi eigi bera af skipi sino. Þá spurdo hásetar hans hvat er hann bæriz fyrir? enn hann svarar, at hann ætladi at hallda sidvenio sinni, oc þiggia at fodr sínom vetr vist, oc vil ec hallda skipino til Grænlands, ef þer vilit mer fylgd veita. Allir kvádoz hans rádom fylgia vilia. Þá mælti Biarni: úvitrlig mun þyckia vor ferd, þar sem eingi vor hefir komit í Grænlands haf. Enn þó hallda þeir nú í haf, þegar þeir voro búnir; oc sigldo III daga, þar til er landit var vatnat; enn þá tók af byrina, oc lagdi á norræni, oc þokór, oc visso þeir eigi hvert þeir fóro, oc skipti þat mörgom dægrom. Eptir þat sá þeir sól, oc mátto þá deila áttir; Vinda nú segl, oc sigla þetta dægr, ádr þeir sá land; oc ræddo um med ser, hvat landi þetta mun vera. Enn Biarni qvedz hyggia, at þat mundi eigi Grænland. Þeir spyria, hvert hann vill sigla at þesso landi, edr eigi? Þat er mitt rád at sigla í nánd vid landit; oc sva gera þeir; oc sá þat brátt, at landit var ófiaullott oc skógi vaxit, oc smá hædir á landino. Þeir leto landit á bakborda, oc leto skaut horfa á land: Sidan sigla þeir II dægor, ádr þeir sá land annat; þeir spyria, hvert Biarni ætladi þat enn Grænland? hann qvadz ei helldr ætla þetta Grænland, enn et fyrra; þvíat jöklar ero miklir sagdir á Grænlandi. Þeir nálgudoz brátt þetta land, oc sá þat var slett land oc vidi vaxit. Þá

tók af byr fyrir þeim; ræddo hásetar þat at þeim þótti þat rád, at taka þat land. Enn Biarni vill þat eigi; þeir þóttoz bædi þurfa vid oc vatn: at eingo ero þer því úbyrgir, segir Biarni; enn þó feck hann at því nockot ámæli af hásetom sínom. Hann bad þá vinda segl; oc sva var gert; oc setto framstafn frá landi, oc sigla í haf útsynnings byr III dægor; oc sá þá land it þridia. Enn þat land var hátt oc fiöllot, oc jöklar á. Þeir spyria þá, ef Biarni vill at landi láta þar? enn hann qvadz ei þat vilia; þvíat mer lítz þetta ógagnvænligt. Nú lægdo þeir eigi segl sitt; hallda med landino fram, oc sá, at þat var eyland; setto enn stafn vid því landi; oc helldo í haf hinn sama byr; enn vedr óx í hönd, oc bad Biarni þá svipta, oc eigi sigla meira, enn bædi dygdi vel skipi þeirra oc ræida: Sigldo nú III dægor; þá sá þeir land hit fiórda; þá spurdo þeir Biarna, hvert hann ætladi þetta vera Grænland, edr eigi? Biarni svarar: þetta er líkast því, er mer er sagt frá Grænlandi. Her munom ver at landi hallda. Sva gera þeir, oc taka land undir einhverio nesi, at kvelldi dags, oc var þar bátr á nesino. Enn þar bió Heriúlfr fadir Biarna á því nesi; oc af því hefir nesit nafn tekit, oc er sídan kallat Heriúlfsnes: Fór Biarni nú til faudr síns, oc hættir nú siglingo, oc er med faudr sínom medan Heriulfr lifdi; oc sídan bió hann þar, eptir faudr sinn.

## CAP. CVI.

## FRÁ LANDA FUNDI LEIFS EÍRIKS SONAR.

Þat er nú þesso næst, at Biarni Heriulfs son kom utan af Grænlandi á fund Eiríks Jarls; tok Jarl vid honom vel: Segir Biarni frá ferdom sínom, er hann hafdi lönd sed: oc þótti hann verit hafa úforvitinn, er hann hafdi eigi af þeim löndom at segia; oc feck hann af því nockot ámæli. Biarni gerdiz hirdmadr Jarls, oc fór út til Grænlands um sumarit eptir, oc var nú mikil umræda um landa leitan. Leifr son Eiríks Rauda or Brattahlíd, fór á fund Biarna Heriúlfssonar, oc kaupir skip at honom, oc red þar til háseta, sva at þeir voro hálfr fiordi togr manna saman. Leifr bad Eirík födr sinn, at hann mundi enn fyrir vera förinni. Eiríkr taldiz helldr undan: kvedz þá vera hníginn í alldr, oc kvedz minna mega vid vosi öllo, enn var. Leifr kvad hann enn mundo mestri heill styra, af þeim frændom: oc þetta let Eiríkr eptir Leifi, oc rídr heiman, þá er þeir ero at öllo búnir; oc þá skamt var at fara til skipsins, drepr hestrinn fæti, sá er Eiríkr reid, oc fell hann af baki, oc lestiz fótr hans. Þá mælti Eiríkr: eigi mun mer ætlat at finna lönd fleiri enn þetta, er nú byggiom ver; munom vær nú ecki lengr fara allir samt: Fór Eiríkr heim í Brattahlíd, enn Leifr redz til skips, oc felagar hans med honom, hálfr fiórdi togr manna. Þar var sudrmadr einn í ferd, er Tyrker het. Nú biuggo þeir skip sitt, oc sigldo í haf,

þá er þeir voro búnir; oc fundo þá þat land fyrst, er þeir Biarni fundo sídarst. Þar sigla þeir at landi, oc köstudo ackerum, oc skúto báti, oc fóro á land, oc sá þar eigi gras. Jöklar miklir voro allt it efra; enn sem ein hella væri allt til jöklanna frá siónom; oc syndiz þeim þat land vera gædalaust. Þá mælti Leifr: eigi er oss þat nú ordit um þetta land, sem Biarna, at ver hafom eigi komit á landit; oc mun ec nú gefa nafn landino, oc kalla Helloland. Sidan fóro þeir til skips, oc sigldo i haf, oc finna land annat; sigla enn at landi, oc kasta ackerom; skióta sídan báti, oc gánga á landit; þat land var slett oc skógi vaxit, oc sandar hvítir vída, þar sem þeir fóro, oc ósæbratt. Þá mælti Leifr: af kostom skal þesso landi nafn gefa, oc kalla Markland; Fóro sidan ofan aptr til skips sem fliótast. Nú sigla þeir þadan aptr í haf landnyrdings vedr: oc voro úti II dægor, ádr þeir sá land; oc sigldo at landi, oc komo at ey einni er lá nordr af landino, oc gengo þar upp, oc sáz um i gódo vedri, oc fyndo þat, at dogg var á grasino, oc vard þeim þat fyrir, at þeir tóko hondom sínom í doggina, oc brugdo í munn ser: oc þóttoz eigi iafnsætt kent hafa, sem þat var. Sidan fóro þeir til skips síns, oc sigldo i sund þat, er lá milli eyarinnar oc ness þess er nordr geck af landino; stefndo í vestr átt fyrir nesit. Þar var grunnsævi mikit at fioro sióvar, oc stód þá uppi skip þeirra: oc var þá lángt til sióvar at siá frá skipino. Enn þeim var sva mikil forvitni á at fara til landsins, at þeir

nento eigi þess at bída, at siór felli undir skip þeirra: oc runno til lands, þar er á ein fell or vatni eino. Enn þegar siór fell undir skip þeirra, þá tóko þeir bátinn, oc rero til skipsins, oc flutto þat upp í ána, sídan upp í vatnit, oc köstudo þar ackerom, oc báro af skipom húdföt sín, oc gerdo þar búdir: tóko þat rád sidan, at búaz þar um þann vetr, oc gerdo þar hús mikil. Hvarki skorti þar lax í ánni, ne í vatnino; oc stærra lax, enn þeir hefdi fyrr set. Þar var sva gódr landskostr, at því er þeim syndiz, at þar mundi eingi fenadr fódr þurfa á vetrom: þar komo eingi frost á vetrom, oc litt renudo þar gros. Meira var þar iafndægri, enn á Grænlandi edr Islandi; sól hafdi þar eyktar stad oc dagmála stad, um skamm-degi. Enn er þeir hofdo lokit húsgerd sinni; þá mælti Leifr vid föruneyti sitt: nú vil ec skipta láta lidi voro í II stadi, oc vil ec kanna láta landit; oc skal helmingr lids vera vid skála heima; enn annar helmingr skal kanna landit: oc fara eigi lengra enn þeir megi koma heim at kvelldi, oc skiliz eigi. Nú gerdo þeir sva um stund. Leifr gerdi ymist, at hann fór med þeim, edr var heima at skála. Leifr var mikill madr oc sterkr, skörugligr at siá, vitr madr, oc gódr hófsmadr um alla hluti.

CAP.

CAP. CVII.

## LEIFR ER Á ÞVÍ LANDI UM VETRINN, OC KALLADI ÞAT VÍN-LAND; SIGLIR SÍDAN HEIM TIL GRÆNLANDS APTR, OC HIALPAR SKIP-BROTZ MÖNNOM.

A eino hverio kvelldi bar þat til tídinda, at mans var vant af lidi þeirra, oc var þat Tyrker sudrmadr. Leifr kunni því stórilla: þvíat Tryker hafdi miök lengi verit med þeim fedgom, oc elskat miök Leif í barnæsko. Leifr taldi nú miök á hendr föronautom sínom, oc bióz til ferdar at leita hans, oc XII menn med hönom. Enn er þeir voro skamt komnir frá skála, þá geck Tyrker ímót þeim; oc var hönom vel fagnat. Leifr fann þat brátt, at fóstra hans var skap gott: hann var bratt-leitr, oc laus-eygr, smáskilligr í andliti, lítill vexti oc vesalligr; enn íþrótta-madr á allzkonar hagleik. Þá mælti Leifr til hans: hví varto sva seinn, fóstri minn, oc fráskili föruneytino? hann taladi þá fyrst lengi á þyrsko, oc skaut marga vega augunom, oc gretti sik; enn þeir skildo eigi hvat hann sagdi. Hann mælti þá á Norræno, er stund leid: ec var genginn eigi miklo lengra enn þit; kann ec nockor nynæmi at segia: þvíat ec fann vinvid oc vinber. Mun þat satt, fóstri minn? qvad

Leifr. At vísso er þat satt, qvad hann; þvíat ec var þar fæddr, er hvarki skorti vínvid, ne vínber. Nú svofo þeir af þá nótt; enn um morguninn mællti Leifr vid háseta sína: nú skall hafa tvennar syslor fram, oc skal sinn dag hvert; lesa vínber, eda högg-va vínvid, oc fella mörkina, sva at þat verdi framr til skips míns; oe þetta var ráds tekit. Sva er sagt, at eptir bátr þeirra var fylldr af vínberiom. Nú var högginn farmr á skipit. Þar voro oc hveitiak-rar siálfsánir, oc þau tre er mosor heita: oc höfdo þeir af öllo þesso med ser nockor merki; sum tre sva mikil, at í hús voro lögd. Oc er vorar, þá biuggoz þeir, oc sigldo brott, oc gaf Leifr nafn lan-dino eptir landkostom, oc kalladi Vínland: Sigla nú sídan í haf, oc gaf þeim vel byri, þar til er þeir sá Grænland, oc fiöll undir jöklom. Þá tók einn madr til máls, oc mælti vid Leif: hví styrir þú sva miök undir vedr skipino? Leifr svarar: ec hygg at stiórn minni, enn þó nú at fleira, edr hvat siái þer til tídinda? þeir qvadoz eigi siá, þat er tídin-dom sætti. Ec veit eigi segir Leifr, hvart ec se skip, edr sker. Nú siá þeir, oc qvodo sker vera. Hann sá því framar enn þeir, at hann sá menn í skerino. Nú vil ec, at ver beitim undir vedrit, se-gir Leifr, sva at náim til þeirra, ef menn ero þurf-tugir, at ná vorom fundi; oc er naudsyn á at duga þeim. Enn med því, at þeir se eigi fridmenn, þá eigom ver allan kost undir oss: enn þeir eigi undir ser. Nú sækia þeir undir skerit, oc lægdo segl

sitt, oc köstudo atkeri, oc skuto litlom báti ödrom er þeir höfdo haft med ser. Þá spyrdi Tyrker: hver þar redi fyrir lidi? sá kvez Þórir heita, oc vera Norænn madr át kynni: edr hvert er þitt nafn? Leifr segir til sín. Erto son Eiríks Rauda or Brattahlíd? segir hann. Leifr qvad sva vera. Nú vil ec, segir Leifr, bióda ydr öllom á mitt skip, oc femunom þeim er skipit má vidtaka. Þeir þágo þann kost; oc sigldo sídan til Eiríksfiardar med þeim farmi, þar til er þeir komo til Brattahlídar; báro farminn af skipi. Sidan baud Leifr Þóri til vistar med ser, oc Gudrídi kono hans, oc þrim mönnom ödrom; enn feck vistir audrom hásetom, bædi Þóris oc sínom felaugom. Leifr tók XV menn or skerino. Hann var sídan kalladr Leifr hinn Heppni. Leifi vard nú bædi gott till fiár oc mannvirdingar. Þann vetr kom sótt mikil í lid Þóris; oc andadiz hann Þórir, oc mikill hlúti lids hans. Þann vetr andadiz oc Eiríkr Raudi. Nú var umræda mikil um Vínlands för Leifs, oc þótti Þórvaldi bródr hans of úvida kannat hafa verit landit. Þá mælti Leifr vid Þórvalld: Þú skallt fara med skip mitt, bródir, ef þú vill til Vínnlands: oc vil ec þó, at skipit fari ádr eptir vidi þeim er Þórir átti í skerino. Oc sva var gert.

## CAP. CVIII.

## FRÁ ÞÓRVALLDI EIRÍKS SYNI BRÓDR LEIFS OC SKRÆLINGIOM Í VÍNLANDI.

Nú bióz Þórvalldr til þeirrar ferdar med XXX

manna, med umrádi Leifs bródor síns. Sídan biuggo þeir skip sitt, oc helldo í haf. Oc er engi frásögn um ferd þeirra, fyrr enn þeir koma til Vinlands, til Leifs búda, oc biuggo þar um skip sitt, oc sáto um kyrt þann vetr, oc veiddo fiska til matar ser. Enn um vorit mælti Þórvaldr, at þeir skylldo búa skip sitt, oc skylldi eptir-bátr skipsins, oc nockrir menn med, fara fyrir vestan landit, oc kanna þar um sumarit. Þeim syndiz landit fagurt oc skógótt; oc skamt milli skógar oc siovar: oc hvítir sandar. Þar var eyott miök oc grunnsævi mikit. Þeir fundo hvorki manna vistir ne dyra; enn í eyo einni vestarliga, fundo þeir kornhiálm af tre: eigi fundo þeir fleiri manna-verk; oc fóro aptr oc komo til Leifs búda at hausti. Enn at sumri ödro fór Þórvalldr fyrir austan med kaupskipit, oc hit nyrdra fyrir landit. Þá gerdi at þeim vedr hvast fyrir andnesi eino; oc rak þá þar upp, oc bruto kiölinn undan skipino, oc höfdo þar töf lánga, oc bætto skip sitt. Þá mælti Þórvalldr vid förunauta sína: nú vil ec at ver reisim her upp kiölinn á nesino, oc kallim Kialarnes: oc sva gerdo þeir. Sídan sigla þeir þadan í braut, oc austr fyrir landit, oc inn í Fiardarkiapta þá þar ero næstir, oc at höfda þeim er þar geck fram: hann var allr skógi vaxinn. Þá leggia þeir fram skip sitt í lægi, oc skióta bryggiom á land; oc gengr Þórvalldr þar á land upp, med alla förunauta sína. Hann mælti þá: her er fagurt, oc her vilda ec bæ minn reisa:

gánga sídan til skips, oc siá á sandinom, inn frá höfdanom þriár hædir, oc fóro til þángat oc siá þar húdkeipa þriá oc þriá menn undir hveriom. Þá skipto þeir lidi síno, oc höfdo hendor á þeim öllom; nema einn komz í brott med keip sinn. Þeir drepa hina VIII, oc gánga sídan aptr á höfdann, oc siáz þar um; oc sá inn í fiördinn hædir nockorar, oc ætludo þeir þat vera bygdir. Eptir þat sló á þá höfga sva miklom, at þeir mátto eigi vöko hallda, oc sofna þeir allir. Þá kom kall yfir þá, sva at þeir vöknudo allir; sva segir kallit: vaki þú Þórvalldr, oc allt föruneyti þitt, ef þú vill líf þitt hafa; oc far þú á skip þitt, oc allir menn þinir, oc farit frá landi sem skiótast. Þá fór innan eptir firdinom útal húdkeipa, oc lögdo at þeim. Þórvaldr mælti þá:, ver skúlom færa út á bord vígfleka, oc veriaz sem best; enn vega lítt ímót. Sva gera þeir. Enn Skrælingiar skuto á þá um stund; enn flya sídan í brott sem ákafast, hver sem mátti. Þá spurdi Þórvalldr menn sína, ef þeir væro nockot sárir? Þeir qvodoz eigi sárir vera. Ec hefi fengit sár undir hendi, segir hann, oc fló ör milli skipbordsins, oc skialldarins, undir hönd mer; oc er her örin, oc mann mik þetta til bana leida. Nú ræd ec, at þer búit ferd ydra sem fliótast, aptr á læid; enn þer skolot færa mik á höfda þann, er mer þótti byggiligr vera; má þat vera, at mer hafi satt á munn komit, at ec muni þar búa á um stund: þar skulo þer mik grafa, oc setia krossa at höfdi oc fótom;

oc kallit þat Krossanes iafnan sídan. Grænland var þá kristnat, enn þó andadiz Eirikr Raudi fyrir kristni. Nú andadiz þorvalldr, oc gerdo þeir allt eptir því sem hann hafdi mælt: oc fóro sídan, oc hitto förunauta sína; oc sögdo hvorir ödrom slík tídindi sem visso: oc bioggo þar þann vetr, oc fengo ser vinber oc vinvid til skips síns. Nú búaz þeir þadan um vorit, aptr til Grænlands; oc komo skipi sino í Eiríks fiörd, oc kunno Leifi at segia mikil tídindi.

## CAP. CIX.

## FRÁ ÞÓRSTEINI EIRÍKSSYNI BRÓDR LEIFS, OC HANS VÍNLANDS FERD.

þat hafdi gerz til tídinda medan á Grænlandi, at þórsteinn i Eiríksfirdi hafdi qvongaz, oc fengit Gudridar þórbiarnar dóttor, er átt hafdi þórir Austrmadr, er fyrr var frásagt. Nú fystiz þórsteinn Eiríksson at fara til Vínlands, eptir líki þórvallds bródr síns; oc bió skip hit sama: oc valdi hann lid at afli oc vexti, oc hafdi med ser hálfan þridiatog manna, oc kono sína Gudridi; oc sigla í haf þegar þau ero búin, oc or landsyn. þáu velkti úti allt sumarit, oc visso eigi hvar þau fóro; oc er vika var af vetri, þá tóko þeir land í Lysofirdi á Grænlandi, í hinni vestri bygd. þórsteinn leitadi þeim um vistir oc feck vistir öllom hásetom sínom; enn hann var vistlaus oc kona hans. Nú vore þau eptir at skipi tvao nockorar nætor. þá var enn úng kristni á Grænlandi. þat var einn dag, at menn komo at tialldi þeirra snemma; sá spyrdi er fyrir þeim var,

hvat manna væri í tialldino? þórsteinn svarar: tveir menn, segir hann; edr hver spyr at? þórsteinn heiti ec, oc er ec kalladr þórsteinn Svartr; enn þat er erindi mitt hingat, at ec vil bioda yckor bádom hiónom til vistar til mín. þórsteinn qvaz vilia hafa umrædi kono sinnar; enn hon bad hann ráda, oc nú iátar hann þesso. þá mun ec koma eptir yckor á morgin med eyki; þvíat mik skortir eigi til, at veita yckor vist; enn fásinni er mikit med mer at vera; þvíat tvö erom vid þar hion; þvíat ec er einþyckr miök; annan sid hefir ec oc, enn þer hafit; oc ætla ec þann þó betra er þer hafit. Nú kom hann eptir þeim um morgininn med eyki, oc fóro þau med þórsteini Svarta til vistar; oc veitti hann þeim vel. Gudrídr var skörulig kona at siá, oc vitr kona, kunni vel at vera med ókunnom mönnom. þat var snemma vetrar, at sótt kom í lid þórsteins Eirikssonar oc andadiz þar margr förunautr þórsteins. Hann bad gera kistor at líkom þeirra er öndudoz, oc færa til skips, oc búa þar um; þvíat ec vil láta flytia til Eiriksfiardar at sumri öll líkin. Nú er þess skamt at bída, at sótt kemr í híbyli þórsteins, oc tók kona hans sótt fyrst, er het Grímhildr; hon var ákafliga mikil, oc sterk sem karlar, oc þó kom sóttin henni undir. Oc brátt eptir þat tok sóttina þórsteinn Eiriksson, oc lágo þau bædi senn; oc andadiz Grímhilldr kona þórsteins Svarta. Enn er hon var daud, þá geck þórsteinn fram or stofunni eptir fiöl at leggia á líkit. Gudrídr mælti þá: verto litla hríd

í brott, Þórsteinn minn, segir hon: hann qvad sva vera skylldo. Þá mælti Þórsteinn Eiríksson: med undarligom hætti er nú um húsfreyo vora; þvíat nú örglaz hon upp vid ólnboga, oc þokar fótom sinom frá stocki, oc þreifar til skúa sinna. Oc í því kom Þórsteinn bóndi, oc lagdiz Grímhilldr nidr í því; oc brakadi þá í hverio tre í stofunni. Nú gerir Þórsteinn kisto at líki Grímhilldar, oc færdi í brott oc bió um: hann var bædi mikill madr oc sterkr, oc þurfti hann þess allz, ádr hann kom henni brott af bænom. Nú elnadi sóttin Þórsteni Eiríkssyni, oc andadiz hann. Gudrídr kona hans kunni því lítt: þá voro þau aull í stofunni. Gudrídr hafdi setit á stóli frammi fyrir becknom, er hann hafdi legit Þórsteinn bóndi hennar. Þá tók Þórsteinn bóndi Gudrídi í fáng ser af stólinom, oc settiz í beckinn annan med hana, gegnt líki Þórsteins, oc taladi um fyrir henni marga vega, oc huggadi hana, oc het henni því, at hann mundi fara med henni til Eiríksfiardar, med líki Þórsteins bónda hennar, oc forunauta hans: oc sva skal ec taka híngat hión fleiri þer til hugganar oc skemtunar. Hon þackadi honom. Þórsteinn Eiríksson settiz þá upp oc mælti: hvar er Gudrídr; þríá tíma mælti hann þetta; enn hon þagdi. Þá mælti hon vid Þórstein bóanda: hvert skal ec svör veita þesso máli, edr eigi? hann bad hana eigi svara. Þá geck Þórsteinn bóndi yfir gólfit, oc settiz í stólinn; enn Gudrídr sat í kniám honom; oc þá mælti Þórsteinn bóndi: hvat viltu nafni? se-

gir hann; hann svarar, er stund leid: mer er ant til þess, at segia Gudrídi forlaug sín, til þess at hon kunni þá betr andláti míno; þvíat ec er kominn til gódra hvílldar stada. Enn þat er þer at segia, Gudrídr, at þú munt giptaz Islendskom manni, oc muno lángar vera samfarar yckar, oc margt manna mun frá yckor koma þroskasamt, biart oc ágætt, sætt oc ilmat vel; muno þit fara af Grænlandi til Noregs, oc þadan til Islands, oc gera bú á Islandi; þar muno þit lengi búa, oc munto honom lengr lifa; þú munt utan fara, oc gánga sudr, oc koma út aptr til Islands til búz þíns: oc þá mun þar kirkia reist vera, munto þar vera oc taka nunno vígslo, oc þar munto andaz; oc þá hnígr Þórsteinn aptr, oc var búit um lík hans, oc fært til skips. Þórsteinn bóndi efndi vel vid Gudrídi, allt þat er hann hafdi heitit. Hann seldi um vorit iord sína oc kvikfe, oc fór til skips med Gudrídi, med allt sitt: bió skipit, oc feck menn til, oc fór sídan til Eiríksfiardar: Voro nú líkin iordot at kirkio. Gudridi fór til Leifs í Brattahlíd; enn Þórsteinn Svarti gerdi bú í Eiríksfirdi, oc bió þar medan hann lifdi: oc þótti vera hinn vaskasti madr.

## CAP. CX.

## FRÁ ÞÓRFINNI KARLSEFNI ER HANN KOM TIL VÍNLANDS, OC FRÁ SKRÆLINGIOM.

Þat sama sumar kom skip af Noregi til Grænlands;

sá madr het þorfinnr Kallzefni, er því skipi styrdi; hann var son þórdar Hesthofda, Snorra sonar, þórdar sonar frá Höfda. þorfinnr Kallzefni var stórau-digr at fe; oc var um vetrinn í Brattahlíd, med Leifi Eirikssyni. Brátt felldi hann hug til Gudridar, oc beiddi hennar; enn hon veik til Leifs svörom fyrir sik. Sídan var hon honom föstnot, oc gert brúdkaup þeirra á þeim vetri. Hin sama var umræda á Vinlands för, sem fyrr, oc fysto menn Kallzefni miök þeirrar ferdar, bædi Gudrídr, oc adrir menn. Nú var rádin ferd hans, oc red hann ser skipveria LX karla, oc konor V. þann máldaga gerdo þeir Kallzefni oc hásetar hans, at iöfnom höndom skylldi þat hafa, allt þat er þeir fengi til gæda. þeir höfdo med ser allzkonar fenat; þvíat þeir ætludo at byggia landit, ef þeir mætti þat. Kallzefni bad Leif húsa á Vinlandi; enn hann qvadz liá mundo húsin, enn gefa eigi. Sídan helldo þeir í haf skipino, oc koma til Leifs búda med heilo oc hölldno, oc baro þar upp húdföt sin. þeim bar brátt í hendor mikil föng oc gód; þvíat reidor var þar upprekin, bædi mikil oc góđ; fóro til sídan, oc skáro hvalinn: skorti þá eigi mat. Fenadr geck þar á land upp: enn þat vard brátt, at gradfe vard úrigt, oc gerdi mikit um sik. þeir höfdo haft med ser gridung einn. Kallzefni let fella vido, oc telgia til skips síns; oc lagdi vidinn á biarg eitt til þurkanar. þeir höfdo öll gædi af landkostom, þeim er þar voro, bædi af vinberiom, oc allzkonar veidom oc gædom. Eptir þann

vetr hinn fyrsta kom sumar; þá urdo þeir varir vid Skrælingia, oc fór þar or skogi fram mikill flockr manna. Þar var nær nautfe þeirra; enn gridungr tók at belia oc gialla ákafliga hátt: enn þat hræddoz Skrælingiar, oc lögdo undan med byrdar sínar; enn þat var grávara oc safali oc allzkonar skinna vara; oc snúa til bæar Kallzefnis, oc vildo þar inn i húsinn. Enn kallzefni let veria dyrnar. Hvorigir skildo annars mál. Þá tóko Skrælingiar ofan bagga sina, oc leysto, oc budo þeim, oc villdo vopn hellzt fyrir. Enn Kallzefni bannadi þeim at selia vopnin. Oc nu leitar hann ráds med þeim hætti, at hann bad konor bera út búnyt: þá vildo þeir kaupa þat, enn eigi annat. Nú var sú kaupför Skrælingia, at þeir báro sinn varning i brott í mogom sínom; enn Kallzefni oc förunautar hans höfdo eptir bagga þeirra oc skinnavöro; fóro þeir vid sva búit i brott. Nú er frá þat at segia, at Kallzefni lætr gera scipgard ramligan um bæ sinn, oc biuggoz þar um. I þann tíma fæddi Gudridr sveinbarn, kona Kallzefnis, oc het sá sveinn Snorri. A aundverdom ödrom vetri, komo Skrælingiar til móts vid þá; oc voro miklo fleirri enn fyrr, oc höfdo slikan varnat sem fyrr. Þá mælti Kallzefni vid konor: nú skulo þer bera út slikan mat, sem fyrr var rífastr, enn ecki annat. Oc er þeir sá þat, þa köstudo þeir böggunom sínom inn yfir skípgardinn. Enn Gudridr sat i dyrom inni med vöggo Snorra sonar sins: þá bar skugga á dyrin, oc geck þar inn kona i svör-

tom námkyrtli, helldr lág, oc hafdi dregil um höfot, oc liósiörp á hár, fölleit, oc miök eygd: sva at eigi hafdi iafnmikil augo set, í einom manz hausi: hon geck þar at er Gudrídr sat, oc mælti: hvat heitir þú? segir hon; ec heiti Gudrídr; edr hvert er þitt heiti? ec heiti Gudrídr, segir hon. Þá retti Gudrídr húsfreya hönd sína til hennar, at hon sæti hiá henni; enn þar bar allt saman, at þá heyrdi Gudrídr brestmikinn, oc var þá konan horfin; oc í því var oc veginn einn Skrælingr af einom húskarli Kallzefnis; þvíat hann hafdi viliat taka vopn þeirra; oc fóro nú í brott sem tídazt; enn klædi þeirra lágo þar eptir oc varningr. Eingi madr hafdi kono þessa set utan Gudrídr ein. Nú munom ver þurfa til ráda at taka, segir Kallzefni; þviat ec hygg at þeir moni vitia vor hit þridia sinni, med úfridi oc fiölmenni. Nú skulom ver taka þat rád, at X menn fari fram á nes þetta oc syni sik þar; enn annat lid hvart skal fara í skóg, oc höggva þar riodr fyrir nautfe vort, þá er lidit kemr fram or skóginom. Ver skulom oc taka gridung vorn oc láta hann fara fyrir oss. Enn þar er sva háttat, er fundr þeirra var ætladr, at vatn var ödromegin, enn skógr á annan veg. Nú voro þessi rád höfd, er Kallzefni lagdi til. Nú komo Skrælingiar í þann stad, er Kallzefni hafdi ætlat til bardaga. Nú vard þar bardagi, oc fell fiöldi af lidi Skrælingia. Einn madr var mikill oc vænn í lidi Skrælingia; oc þótti Kallzefni at hann væri höfdingi þeirra. Nú hafdi einn þeirra Skrælingia

tekit upp öxi eina, oc leit á um stund, oc reiddi at félaga sinom, oc hió til hans: sá fell þegar daudr. Þá tók sá hinn mikil madr vid öxinni, oc leit á um stund, oc varp henni sidan sem lengst mátti á sióinn: enn sidan flya þeir á skóginn, sva hver sem fara mátti; oc lykr þar nú þeirra vidskiptom: Voro þeir Kallzefni þar þann vetr allan; enn at vori þá lysir Kallzefni, at hann vill eigi þar vera lengr; oc vill fara til Grænlands. Nú búa þeir ferd sina, oc höfdo þadan mörg gædi, í vínvidi oc beriom oc skinna vöro. Nú sigla þeir í haf, oc komo til Eiríksfiardar skipi síno heilo, oc voro þar um vetrinn.

## CAP. CXI.

## FRÁ FREYDÍSI EIRÍKS DOTTOR, OC VÍNLANDS FERD HENNAR, OC ÚDÁDOM.

Nú tekz umræda at nyo um Vínlands ferd; þvíat sú ferd þótti gód, bædi til fiár oc virdingar. Þat sama sumar kom skip af Noregi til Grænlandz, er Kallzefni kom af Vínlandi; því skipi styrdo brædor tveir, Helgi oc Finnbogi, oc voro þann vetr á Grænlandi: þeir brædor voro Islendskir at kyni, oc or Austfiördom. Þar er nú til at taka, at Freydis Eiríks dóttir gerdi ferd sina heiman or Gördom, oc fór til fundar vid þá brædor Helga oc Finnboga, oc beiddi þá, at þeir færi til Vínlands med farkost sinn, oc hafa helming gæda allra vid hana, þeirra

er þar fengiz. Nú iátto þeir því. Þadan fór hon á fund Leifs brodor síns, oc bad at hann gæfi henni hús þau, er hann hafdi gera látit á Vinlandi. Enn hann svarar híno sama; qvez liá mundo hús, enn gefa eigi. Sá var máldagi med þeim brædrom oc Freydísi, at hverir skylldo hafa XXX vígra manna á skipi, oc konor umfram. Enn Freydís brá af því þegar, oc hafdi fimm mönnom fleira, oc leyndi þeim: oc urdo þeir brædor eigi fyrri vid þá varir, enn þeir komo til Vinlands. Nú leto þau í haf, oc höfdo til þess mælt ádr, at þau mundi samflota hafa; ef sva villdi verda: oc var þess litill munr. Enn þó komo þeir brædor nockro fyrri, oc höfdo uppborit faung sín til húsa Leifs. Enn er Freydís kom at landi, þá rydia þeir skip sitt, oc bera upp til húss faung sín. Þá mælti Freydís: hví báro þeir inn her faung ydor? því at ver hugdom, segia þeir, at halldaz muni öll áqvedin ord med oss. Mer ledi Leifr húsanna, segir hon, enn eigi ydor. Þá mælti Helgi: þrióta mun ockor brædor illsko vid þik: báro nú út faung, oc gerdo ser skála, oc setto þann skala firr siónom, á Vatnsströndom, oc biuggo vel um; enn Freydís let fella vido til skips síns. Nú tók at vetra, oc tölodo þeir brædor, at takaz mundo upp leikar oc veri höfd skemtan. Sva var gert um stund, þar til er menn bároz verra í milli; oc þá gerdiz sundrþycki med þeim, oc tókoz af leikar; oc eingar gerdoz komor milli skálanna: oc fór sva fram lengi vetrar. Þat var einn morgin snemma at Freydís

stód upp or rúmi síno, oc klæddiz, oc fór eigi í skóklædin; enn vedri var sva farit, at dögg var fallin mikil. Hon tók kápo bónda síns oc fór í; enn sídan geck hon til skála þeirra brædra, oc til dyra; enn madr einn hafdi útgengit litlo ádr, oc lokit hurd aptr á midian klofa: hon lauk upp hurdinni, oc stód í gátt um stund, oc þagdi; enn Finnbogi lá innstr í skálanom oc vakti. Hann mællti: hvat hvillto híngat Freydís? hon svarar: ec vil at þú standir upp, oc gángir út med mer, oc vil ec tala vid þik. Sva gerir hann. Þau gánga at tre, er lá undir skála vegginom, oc settoz þar nidr. Hverso líkar þer? segir hon. Hann svarar: gódr þyki mer landskostr; enn illr þyki mer þústr sá, er vor í millom er; þvíat ec kalla eigi hafa til ordit. Þá segir þú sem er, segir hon; oc sva þicki mer. Enn þat er eyrindi mitt á þinn fund; at ec villda kaupa skipom vid ykkor brædor; þvíat þit hafit meira skip enn ec, oc villda ec í brott hedan. Þat mun ec láta gángaz, ef þer líkar þá vel. Nú skilia þau, vid þat; gengr hon heim, enn Finnbogi til hvilo sinnar. Hon stígr upp í rúmit kölldom fótom, oc vaknar hann Þórvalldr vid, oc spyr, hví at hon væri sva köld oc vot? hon svarar med miklom þiósti: ec var gengin, segir hon, til þeirra brædra, at fala skip at þeim, oc villda ec kaupa meira skip: enn þeir urdo vid þat sva illa, at þeir bördo mik oc leko sárliga: enn þú, vesæll madr, munt hverki vilia reka ne retta minnar skammar, ne þinnar; oc

mun ec þat nú finna, at ec er brotto af Grænlandi: oc mun ec gera skilnat vid þik, utan þú hefnir þessa. Oc nú stódz hann eigi átölor hennar, oc bad menn uppstanda sem skiótazt, oc taka vopn sín: oc sva gera þeir, oc fara þegar til skála þeirra brædra, oc gengo inn, at þeim sofandom, oc tóko þá, oc færdo í bönd, oc leiddo sva út hvern sem bundinn var. Enn Freydís let drepa hvern sem út kom. Nú voro þar allir karlar drepnir; enn konor voro eptir, oc vildi eingi þær drepa. þá mælti Freydís: fái mer öxi í hönd; sva var gert. Sídan vegr hon at konom þeim fimm er þar voro, oc geck af þeim daudom. Nú fóro þau til skála síns eptir þetta it illa verk; oc fanzt þat eitt á, at Freydís þóttiz allvel hafa umrádit, oc mælti vid felaga sína: ef oss verdr audit at koma til Grænlands, segir hon, þá skal ec þann mann ráda af lífi, er segir frá þessom atburdom. Nú skulo ver þat segia, at þau búi her eptir, þá er ver fórom í brott. Nú biuggo þeir skipit snemma um vorit, þat er þeir brædor höfdo átt, med þeim öllom gædom, er þau mátto til fá, oc skipit bar: sigla sídan í haf, oc urdo vel reidsfara; oc komo i Eiríksfiörd skipi síno snemma sumars. Nú var þar Kallzefni fyrir, oc hafdi albúit skip sitt til hafs, oc beid byriar: oc er þat mál manna, at eigi mundi audgara skip gengit hafa af Grænlandi, enn þat er hann styrdi. Freydís fór nú til búss síns; því þat hafdi stadit medan úskatt: hon feck

mikinn

mikinn feng fiár öllo föröneyti síno; þvíat hon vildi leyna láta údádom sinom: Sitr hon nú í búi síno. Eigi urdo allir sva halldinordir, at þegdi yfir údádom þeirra edr illsko, at eigi kæmi upp um sídir fyrir Leifi bródor hennar; oc þótti honom þessi saga allill. Þá tók Leifr þriá menn af lidi þeirra Freydísar, oc píndi þá sagnar á, um þenna atburd allan iafn saman: oc var med eino móti sögn þeirra. Eigi nenni ec, segir Leifr, at gera þat at vid Freydísi systor mína, sem hon veri verd; enn spá mun ec þeim þess, at þeirra afkemi mun lítt at þrifom verda. Nú leid þat sva fram, at eingom þótti um þau vert þadan ífrá, nema illz.

## CAP. CXII.

## FRÁ ÞÓRFINNI KARLSEFNI, OC HANS ÆTTBOGA.

Nú er at segia frá því, er Kallzefni byr skip sitt, oc sigldi brott or landi: honom fórz vel, oc kom til Noregs med heilo oc hölldno, oc sat þar um vetrinn, oc seldi varning sinn: oc hafdi þar gott yfirlæti, oc þau bædi hión, af hinom göfgaztom mönnom í Noregi. Enn um vorit eptir bió hann scip sitt til Islands; oc er hann var albúinn, oc scip hans lá til byriar fyrir bryggionom, þá kom þar at þeim sudrmadr einn, ættadr af Brimom or Saxlandi; hann falar at Kallzefni húsasnotro hans. Ec vil

eigi selia, sagdi hann. Ec vil gefa þer vid hálf mörk gullz, segir sudrmadr. Kallzefni þótti vel vidbodit; oc keypto sidan: Fór sudrmadr brott med húsasnotruna: enn Kallzefni vissi eigi hvat tre var. Enn þat var mausór, kominn af Vínlandi. Nú siglir Kallzefni í haf: oc kom skipi sino fyrir nordan land í Skagafirdi; oc var þar upp sett skip hans um vetrinn. Enn um vorit keypti hann Glaumbæiar land, oc gerdi bú á; oc bió þar medan hann lifdi, oc var hit mesta göfugmenni, oc er margt manna frá hönom komit oc Gudrídi kono hans, oc gódr ættbogi. Oc er Kallzefni var andadr, tók Gudrídr vid búss vardveizlo, oc Snorri son hennar, er fæddr var á Vínlandi. Oc er Snorri var qvongadr, þá fór Gudrídr utan, oc geck sudr; oc kom út aptr til búss Snorra sonar síns, oc hafdi hann þá látit gera kyrkio í Glaumbæ. Sidan vard Gudrídr nunna, oc einseto-kona: oc var þar medan hon lifdi. Snorri átti son þann, er Þórgeir het; hann var fadir Ingvelldar, módor Brands Biskops. Dóttir Snorra Kallzefnissonar het Hallfrídr: hon var módir Runolfs, födor Þórláks Biskops. Biörn het son Kallzefnis oc Gudrídar; hann var fadir Þórunar, módor Biarnar Biskops. Fiöldi manna er frá Kallzefni komit, oc er hann kynsæll madr ordinn. Oc hefir Kallzefni gerst sagt allra manna, atburdi um farar þessar, er nú er nockot ordi ákomit.

## CAP. CXIII.

## RÖGNVALLDR JARL SENDI MENN TIL OLAFS KONUNGS.

Olafr konungr oc þyri drottning sáto i Nidarósi um vetrinn, er konungr hafdi kristnat Halogaland. þyri drottning hafdi um sumarit ádr fædt sveinbarn, er þau Olafr konungr átto: sá sveinn var bædi mikill oc efniligr, oc kalladr Haralldr eptir módor-födr sínom: Unno þau konungr oc drottning þeim sveini mikit; oc hugdo gótt til, at han mundi fædaz upp, oc taka arf eptir födor sinn; enn hann lifdi eigi fullt ár, frá því er hann var fæddr: þótti þeim bádom þat mikill skadi. þann vetr var mart Islendskra manna med Olafi konungi, sem fyrr er ritat, oc margir adrir göfgir menn. þá var oc med hirdinni Ingibiorg Tryggva-dóttir, systir Olafs konungs: hon var frid synom, litilát oc blíd vid alþydo, fastræk oc drenglundot i scapi, oc allvinsæl. Hon var vel til Islendskra manna, þeirra er þar voro: enn Kiartan Olafsson var henni kærastr; þvíat hann hafdi lengst af þeim verit med konungi; þótti honom oc opt skemtiligt at tala vid hana; þvíat hon var bædi vitr, oc sniöll i máli. Olafr konungr var iafnan gladr, oc kátr vid sína menn; oc leiddi miök at spurningom, um hátto oc höfdingskap ríkra manna, af hinom næsto löndom, ef men komo til hans af Danmörk edr Sviþiod. Hallfredr Vandrædaskalld hafdi komit um sumarit austan af Gautlandi; hafdi

hann verit med Rögnvaldi Jarli Ulfssyni, er þá var kominn til ríkis í vestra Gautlandi. Ulfr fadir Rögnvalds var bródir Sigrídar hinnar Stórrádo: voro þeir syskina-synir Olafr konungr Sænski oc Rögnvaldr Jarl: Segir Hallfredr Olafi konungi margt af Jarli; sagdi, at han var hraustr höfdingi oc stiórnsamr, örr af penningom, drenglyndr oc vinhollr: sagdi Hallfredr þat oc med, at Jarl vildi hallaz til vináttu vid Olaf konung; oc hafdi þat talat, at hann villdi bidia Ingibiargar Tryggva-dóttor. A þeim vetri komo austan af Gautlandi sendimenn Rögnvalds Jarls, oc fundo Olaf konung nordr í Nidarósi; báro þar fram eyrindi Jarls fyrir konung, öll slík sem Hallfredr hafdi ádr ordi á komit, at Jarl villdi vera fullkominn vin Olafs konungs; oc þar med mælti Jarl till mægda vid konung, oc vildi fá Ingibiargar systor hans: Flutto sendimenn her med konungi berar iarteignir af Jarli, at þeir fóro med sönnom hans eyrindom: Tók konungr vel þeirra máli; enn segir, at Ingibiorg mundi miklo ráda siálf um giaford sitt. Sídan taladi konungr þetta mál vid systor sína, oc spurdi, hverso henni veri um þetta gefit? hon svarar sva: ec hefi verit med ydr um hríd, oc hafi þer veitt mer bródrliga umsiá, oc elskuliga sæmd í alla stadi, sídan er þer komot í land þetta. Fyrir því vil ec iátta ydvarri forsió um giaford mitt: vænti ec at þer giptit mik eigi heidnom manni. Konungr segir sva skylldi vera. Atti konungr þá tal vid sendi-

menn; oc var þesso rádit ádr þeir færi brott, at Rögnvalldr Jarl skylldi koma til motz vid Olaf konung um sumarit austr í landi, ef hann villdi gera vid hann vináttu fullkomna; skylldo þeir þá siálfir tala med ser þessi rád, er þeir fynduzt: Fara þá sendimenn Jarls austr aptr med þessom eyrindom; enn Olafr konungr sat um vetrinn í Nidarósi med mikilli rausn oc fiölmenni.

## CAP. CXIV.
## OLAFR KONUNGR BYRIAR FERD SÍNA TIL VINDLANDS.

Olafr konungr fór um sumarit, med lidi síno sudr med landi, um Stad. Þar í ferd var med hanom Þyri drottning oc Ingibiorg Tryggvadóttir, systir konungs: Sótto þá til fundar vid hann vinir hans margir oc ríkis-menn, þeir er til ferdar voro búnir med konungi: Var þar hinn fyrsti madr Erlingr Skiálgsson mágr hans, oc hafdi hann skeid ena miklo: hon var XXX at rúmatali, oc var þat scip allvel scipat. Þá komo oc til konungs mágar hans Hyrningr oc Þórgeirr, oc styrdi hvartveggi miklo scipi. Margir adrir ríkismenn fylgdo hanom: Fór hann öllom hernom sudr med landi; enn er konungr kom sudr á Rogaland, dvalldiz hann þar; þviat Erlingr Skiálgsson hafdi búit hanom virdugliga veitzlo á Sola. Þá kom austan af Gautlandi Rögnvalldr Jarl Ulfsson, á fund Olafs konungs, at vitia einka-

mála þeirra, er ord oc sendibod hafdi í midlom farit um vetrinn, at hann skylldi fá Ingibiargar, systor konungs; tók Olafr konungr þá vel vid hanom: Var þá talat um þetta mál; sagdi Olafr, at hann villdi hallda öll sín ord þar um, oc gipta hanom Ingibiörgo systor sína, ef hann villdi taka trú retta, oc kristna allt sitt undirfólk, þat er hann var yfirskipadr. Jarl játti því: var hann þá skirdr, oc allt hans föruneyti: var þá aukin veitzla sú er Erlingr hafdi giöra látit; geck Jarl at þeirri veitzlo, at eiga Ingibiörgo Tryggva dóttor; hafdi Olafr konnngr þá gipt allar systor sínar: bióst Jarl til heimferdar, oc Ingibiörg; feck konungr Jarli kennimenn, at kristna fólk á Gautlandi, oc kenna því retta sido: skildo þeir konungr oc Jarl med hinom mesta kiærleik.

## CAP. CXV.

## FERD OLAFS KONUNGS TIL VINDLANDS.

Eptir gipting Ingibiargar systor sinnar, bióst Olafr konungr sem hvatligast or landi med lid sitt; hafdi hann fridt lid oc mikit; hann hafdi LX lángscipa, er hann fór or landi, oc sigldi sudr fyrir Danmörk gegnom Eyrarsund, oc sva til Vindlands. Hann gerdi stefnolag vid Burislaf konung, oc funnoz þeir konungarnir: tölodo þeir þá um eignir þær, er Olafr konungr heimti, oc fóro allar rædor likliga milli konunga, oc var gódr greidscapr ger á þeim eignom er Olafr konungr þóttiz þar eiga: Dvalldiz

Olafr konungr þar lengi um sumarit oc fann þar marga vini sina.

## CAP. CXVI.

## SAMTÖC SVÍA- OC DANA-KONUNGA OC EIRÍKS JARLS ÍMÓT OLAFI KONUNGI TRYGGVA SYNI.

Sveinn konungr Tiúguskegg átti þá Sigrídi hina Stórrádo, sem fyrr er ritit. Sigríd var hinn mesti úvin Olafs konungs Tryggvasonar, oc fann þat til saka, at Olafr konungr hafdi slitit einkamálom vid hana, oc lostit hana i andlit, sva sem fyrr var ritit. Hon eggiadi miök Svein konung til at hallda orosto vid Olaf konung Tryggvason, oc segir, at þat væri ærin sök vid Olaf konung, er hann hafdi lagz med Þyri systor hans at ólofi ydro, oc mundo eigi hinir fyrri frændor ydrir slikt þola; hafdi Sigríd drottning slíkar fortölor optliga í munni, oc kom hon sva sinom fortölom, at Sveinn konungr var fullkominn at gera þetta. Oc snimma um várit sendi Sveinn konungr menn austr í Svíþióð til Olafs Svia konungs mágs síns, oc Eiriks Jarls, oc let segia þeim, at Olafr Noregs konungr hafdi leidángr úti, oc ætladi at fara um sumarit til Vindlands: Fylgdi þat ordsendingo Dana konungs, at þeir Svía konungr oc Eiríkr Jarl scylldo her úti hafa, oc fara til móts vid Sveinn konung; skylldo þeir þá allir samt leggia til orosto vid Olaf konung Tryggvason.

Enn Svía konungr oc Eirikr Jarl voro þessarar ferdar albúnir, oc drogo þá saman scipa her mikinn af Svíavelldi, oc fóro því lidi sudr til Danmerkor, oc komo þar sva, at Olafr konungr Tryggvason hafdi ádr austr um siglt. Þess getr Halldorr Ukristni í drápo, er hann orti um Eirik Jarl:

Ut baud iöfra hneitir
elmódr af Svíþiódo,
sunnr hellt gramr til gunnar,
gunnblics lidi miklo;
hverr villdi þá höllda
hræ gæitunga feitir,
már feck á siá sára
sylg, Eiríki fylgia.

Þeir Svía konungr oc Eirikr Jarl helldo til móts vid Dana konung, oc höfdo þá allir saman úgrynni hers.

## CAP. CXVII.

## SVIKRÆDI SIGVALDA JARLS.

Sveinn konungr, þá er hann hafdi sendt til Svíþiódar eptir herinom, þá sendi hann Sigvallda Jarl til Vindlands, at niósna um her oc ferdir Olafs konungs Tryggvasonar, oc gilldra sva til, at fundr þeirra Sveins konungs mætti verda oc Olafs konungs: Ferr þá Sigvalldi Jarl leid sína, oc kom fram á Vindlandi; fór til Jomsborgar, oc sídan á fund Olafs konungs Tryggvasonar; voro þar mikil vinátto mál þeirra á milli: kom Jarl ser í hinn mesta kærleika vid konung. Astrid kona Jarls, dóttir Burisláfs konungs, var vin mikill Olafs konungs Tryggvasonar,

oc var þat miök af hinom fyrrom tengdom, er Olafr konungr hafdi átt Geiro systor hennar. Sigvalldi Jarl var madr vitr oc rádugr: enn er hann kom ser í rádagerd vid Olaf konung, dvalldi hann miök ferd hans austan at sigla, oc fann til þess miök ymsa hluti. Enn lid Olafs konungs let geysi illa; oc voro menuirnir miök heim-fúsir, er þeir lágo albúnir, enn vedor byrvænlig. Sigvalldi Jarl feck niósn leyniliga af Danmörk, oc þá var austan komiun her Svía konungs; oc Eiríkr Jarl hafdi þá oc búiun sinn her; oc þeir höfdingiarnir mundo þá koma austr undir Vindland, oc þeir höfdo áqvedit, at þeir mundo bída þar Olafs konungs vid ey þá er Svolld heitir; sva þat, at Jarl skylldi sva tilstilla, at þeir mætti þar finna Olaf konung.

## CAP. CXVIII.

## FERD OLAFS KONUNGS AF VINDLANDI.

Þá kom pati nockr til Vindlands, at Sveinn Dana konungr hefdi her úti, oc gerdiz brátt sá kurr, at Sveinn Dana konungr mundi vilia finna Olaf konung. Enn Sigvalldi Jarl segir sva Olafi konungi: ecki er þat rád Sveins konungs, at leggia til bardaga vid þik med Dana-her einn saman, sva mikinn her sem þer hafit. Enn ef ydor er nockr grunr á því, at úfridr muni fyrir, þá skal ec fylgia ydor med míno lidi, oc þótti þat enn styrkr hvar sem Jomsvíkingar fylgdo höfdingiom; man ec fá þer XI seip vel scipot. Konungr iátadi þesso; var þá lítit vedr

oc hagstædt; let konungr þá leysa flotann, oc blása til brottlögo; drógo menn þá segl sin, oc gengo meira smáscipin öll, oc sigldo þau undan á hafit út. Enn Jarl sigldi nær konungs scipino, oc kalladi til þeirra, bad konung sigla eptir ser; mer er kunnaz, segir hann, hvar diúpaz er um eya-sundin: enn þer manot þess þurfa med þau hin stóro scipin: Sigldi þa Jarl fyrir, med sínom skipom; hann hafdi XI scip, enn konungr sigldi eptir hanom med sínom storscipom; hafdi hann oc þar XI scip, enn allr annar herinn sigldi út á hafit. Enn er Sigvalldi Jarl sigldi utan at Svöld, þá reri ímóti þeim skúta ein; þeir segia Jarli, at her Dana konungs lá þar í höfninni fyrir þeim. Þá let Jarl hlada seglonom á scipom sínom, oc róa þeir inn undir eyna. Halldorr UCristni segir sva:

Ona fór oc eino
unnviggs konungr sunnan
sverd raud mætr at mordi
meidr siötigom skeida;
þá er hun lagar hreina
hafdi Jarl ofkrafda
sætt geck seggia ættar
sundr skánunga fundar.

Her segir, at þeir Olafr konungr, oc Sigvalldi Jarl höfdo LXX scipa, oc eino meirr, þá er þeir sigldo sunnan.

## CAP. CXIX.

## FRÁ TALI KONUNGANNA.

Sveinn Dana konungr oc Olafr Svía konungr, oc

Eiríkr Jarl, voro þar þá med allan her sinn; þá var fagrt vedr oc biart sólskin, gengo þeir nú á hólminn allir höfdingiar, med miklar sveitir manna, oc sá er scipin sigldo út á hafit, miök mörg saman, oc nú siá þeir hvar siglir eitt mikit scip oc glæsilikt; þá mælto bádir konungarnir: þetta er mikit scip oc ákafa fagrt; þetta mun vera Ormr hinn lángi. Eiríkr Jarl svarar: ecki er þetta Ormr hinn lángi; oc sva var sem hann sagdi; þetta scip átti Eindridi af Gimsom. Litlo sídar siá þeir, hvar annat scip sigldi, miklo meira enn it fyrra. þá mælti Sveinn konungr: hræddr er Olafr Tryggvason nú, eigi þorir hann at sigla vid höfudin á scipi síno. þá segir Eiríkr Jarl: eigi er þetta konungs scip, kenni ec þetta scip oc seglit, þvíat stafat er seglit; þetta er Erlingr Skiálgsson, látom sigla þá; betra er oss skard oc missa í flota Olafs konungs, enn þetta scip þar sva búit. Enn stundo sídar sá þeir oc kendo scip Sigvallda Jarls, oc viko þau þannog undir hólmann. þá sá þeir hvar sigldo III scip, oc var eitt mikit scip; mælti þá Sveinn konungr, bidr þá gánga til skipa sinna, þvíat þá ferr Ormr hin lángi. Eiríkr Iarl segir: mörg hafa þeir önnor stórscip oc glæsilig, enn Orm hinn lánga; bídom enn. þá mælto miök margir menn: eigi vill Eiríkr Jarl nú beriaz, oc hefna födor síns; þetta er skömm mikill, sva at spyriaz mun um öll lönd, ef ver liggiom her med jam-miklo lidi, enn Olafr konungr sigli á hafit út her hiá oss siálfom. Enn er þeir höfdo þetta talat um hríd,

þá sá þeir hvar sigldo IV scip, ok eitt af þeim var dreki allmikill, oc miök gull-búinn. Þá stód upp Sveinn konungr, oc mællti: hátt mun Ormrinn bera mik í kvölld, því hanom skal ec styra. Þá mælto margir at Ormrinn var furdo mikit scip oc frítt, oc rausn mikil at láta gera slíkt scip. Þá mælti Eiríkr Jarl, sva at nockorir menn heyrdo: þótt Olafr konungr hefdi eigi meira scip enn þetta, þá mundi Sveinn konungr þat alldri fá af hanom med einom saman Dana-her: Dreif þá fólkit til scipanna, oc ráko af tiölldin, oc ætlado at búaz skiótliga. Enn er höfdingiar ræddo þetta milli sín, sem nú er sagt, þá sá þeir hvar sigldo III scip allmikil, oc et fiórda sídast, oc var þat Ormr hinn Lángi. Enn þau hino stóro scip, er ádr höfdo siglt, oc þeir hugdo at Ormrinn væri, þat var it fyrra Tranan, enn it sídara Orm hinn Skammi. Enn þá er þeir sá Orminn Lánga, kendo allir; mælti þá eingi ímót, at þar mundi sigla Olafr Tryggvason; gengo þá til scipanna, oc scipado til atlögunnar: Voro þat einka mál þeirra höfdingianna Sveins konungs oc Olafs konungs oc Eiríks Jarls, at sinn þridiung Noregs scylldi eignaz hverr þeirra, ef þeir felldi Olaf konung Tryggvason; enn sá þeirra höfdingia, er fyrst gengi á Orminn, scylldi hann eignaz oc allt þat lutscipti, er þar fekz, oc hverr þeirra þau scip er siálfr hrydi. Eiríkr Jarl hafdi barda einn geisi mikinn, er hann var vanr at hafa í víking; þar var skegg á ofanverdo bardino

hvarotveggia; enn nidr frá iárnspaung þyck, oc sva breid sem bardit, oc tók allt í siá ofan.

## CAP. CXX.

## FRÁ LIDI OLAFS KONUNGS.

Þá er þeir Sigvalldi Jarl rero inn undir hólmann, þá sá þeir þat Þorkell Dydrill af Trönonni, oc adrir scipstiórnar menn, þeir er med hanom fóro, at Jarl sneri sínom scipom undir hólmann; þá hlódo þeir oc seglom, oc rero eptir hanom, oc kölludo til þeirra, oc spurdo, hví þeir fóro sva. Jarl segir, at hann vill bida Olafs konungs, oc er meiri von at úfridr se fyrir oss; leto þeir þá flióta scipin, þar til er Þorkell Nefia kom med Orminn Skamma, oc þau III skip, er hönom fylgdo, oc voro þeim sögd enn sömo tídindi. Hlódo þeir þá oc sínom seglom, oc leto flióta, oc bido Olafs konungs. Enn þá er konungrinn sigldi inn at hólmanom, þá reri allr herinn innan fyrir þá, oc út á sundit. Enn er þeir sá þat, þá bádo þeir konunginn sigla leid sína, enn leggia eigi til orosto vid sva mikinn her. Konungr svarar hátt, oc stód upp í lyptingunni: látit ofan seglit; eigi skulo mínir menn hyggia á flótta; ec hefi alldri flúit í orosto; rádi Gud fyrir lifi míno, enn alldri mun ec á flótta leggia: Var sva gert, sem konungr mælti. Sva segir Hallfredr:

Geta skal máls þess er mæla
menn at vapna senno
dólga fangs vid drengi
dádöflgan gram qvado;

badat her tygdar hyggia
hneckir sína recka,
þess lifa þiódar sessa
próttar ord, á flótta.

## CAP. CXXI.

## LAGT SAMAN SKIPOM OLAFS KONUNGS.

Olafr konungr let blása til samlögo öllom skipom sínom; var konungs skip í midio lidi; en þar á annat bord Ormr hinn Skammi, enn á annat bord Tranan. Enn þá er þeir tóko at tengia stafnana, þá bundo þeir saman stafnana á Orminom Lánga oc Orminom Skamma; enn er konungr sá þat, kalladi hann hátt, bad þá leggia fram betr it mikla skipit, oc láta þat eigi aptaz vera allra skipa í herinom. Þá svarar Ulfr hinn Raudi: ef Ormrinn skal því lengra framleggia, sem hann er lengri en önnor skip; þá mun ávínt verda um söxin í dag; konungr svarar: eigi vissa ec, at ec átti stafnbúan bædi raudan oc ragan. Ulfr svarar: ver þú eigi meir baki lyptinguna, enn ec man stafninn. Konungr hellt á boga, oc lagdi ör á streng, oc sneri at Ulfi; Ulfr mælti: skiót annan veg, konungr, þannog sem meiri er þörfin; þer vinn ec þat er ec vinn.

## CAP. CXXII.

## FRÁ OLAFI KONUNGI.

Olafr konungr stód í lypting á Orminom; bar hann hátt miök; hann hafdi gylltan skiölld oc gullrodin

hiálm; var hann miök audkendr frá ödrom mönnom; hann hafdi raudan kyrtil stuttan yfir brynio: Enn er Olafr konungr sá at ridlodoz flockarnir, oc upp voro sett merki fyrir höfdingiom, þá spurdi hann: hverr er höfdingi fyrir lidi því, er gegnt oss er? hanom var sagt, at þar var Sveinn konungr Tiúguskegg, med Danaher; konungr svarar: eigi hrædomz ver bleydor þær; eingi er hugr í Dönom: enn hverr er fyrir lidi því, er hægra veg er frá Dönom; hanom var sagt, at þar var Olafr konungr med Sviaher. Olafr konungr segir: betra væri Sviom heima, oc sleikia um blótbolla sína, enn gánga á Orminn lánga undir vapn ydor. Enn hvarir eiga þau stóro skip, er þar liggia út á bakborda Dönom. Þar er, segia þeir, Eiríkr Jarl Hákonarson. Þá svarar Olafr konungr: hann mun þickiaz eiga vid oss skapligan fund, oc af því lidi er oss van snarprar orrosto; þvíat þat ero Nordmenn, sem ver erom.

## CAP. CXXIII.
## UPHHAF OROSTUNNAR.

Sídan greida konungar atródrinn: lagdi Sveinn konungr sitt skip móti Orminom lánga, enn Olafr konungr Sænski lagdi þar út frá, oc stack stöfnom at ytzta skipi Olofs konungs Tryggvasonar, enn ödrom megin lagdi at Eiríkr Jarl: Tókz þar þá hörd orosta. Sigvalldi Jarl let skotta vid sitt skip, oc lagdi ecki til orosto. Sva segir Skúli Þórsteinsson hann var þá med Eiríki Jarli:

Fylgdak Frísa dólgi
feck ec úngr þar er spior súngo,
nú fidr ölld at ec elldumz,
alldr bót oc Sigvallda.
Þar er til móts vid mæti
málm þíngs í dyn hiálma
sunnr fyrir Svolldrar mynni
sár lanc rodinn bárom.

Oc enn segir frá þessom tídíndom Hallfredr:

Þar hyck víst til miök misto
mörg kom drott á flótta,
gram þann er gunni framdi
gengis þrænskra drengia.
Næfr vá einn vid iöfra
allvalldr tva snialla
frægr er slíkt at segia,
sidr enn Jarl hinn þridia.

## CAP. CXXIV.

## FLÓTTI SVEINS KONUNGS OC OLAFS KONUNGS.

Þessi orosta var hin snarpasta, oc allmannskæd. Frambyggiar á Orminom lánga oc Orminom skamma oc Trönonni færdo akkeri oc stafnliá í skip Sveins konungs; enn átto vapnin att bera á þá nidr undir fætor ser; hrudo þeir öll þau skip, er þeir fengo halldit. Enn konungrinn Sveinn, oc þat lid er undan komz, flydi á önnor skipin: oc því næst lögdo þeir frá or skotmáli. Oc fór þessi her, sva sem gat Olafr konungr Tryggvason. Þá lagdi þar at i stadinn Olafr Svía konungr; oc þegar er þeir komo nær stor-

stórskipunom, þá fór þeim sem hinom, at þeir leto lid mikit, oc sum skip sín, oc lögdo frá vid sva búit. Enn Eirikr Jarl síbyrdi bardanom vid it yzta skip Olafs konungs, oc raud þat oc hió þegar þat or tengslom: enn lagdi þá at því, er þar var næst, oc bardiz till þess, er þat var rodit: Tók þá lidit at hlaupa af hinom smærrom skipunom, oc upp á stórskipin. Enn Jarl hió hvert ór tengslom, sva sem hrodit var. Enn Danir oc Svíar lögdo þá í skotmál oc öllom megin at skipom Olafs konungs: ennEiríkr Jarl lá avallt síbyrdt vid skipin, oc átti höggorosto. Enn sva sem menn fello á skipom hans, þá gengo adrir upp í stadin, Danir och Sviar. Sva segir Halldórr:

Gerdis snarpra sverda
slito drengir frid lengi
þar gullin spior gullo
gángr of Orm hinn lánga:
dolgs qvádo fram fylgia
fráns leggbita hánom
Sænska menn at senno
sunnr oc Danska rúnna.

Þá var orosta hin snarpasta, och fell þá miök lidit, oc kom sva at lyktom, at öll voro rodin skip Olafs konungs Tryggvasonar, nema Ormrinn lángi; var þar þá allt lid komit, þat er vígt var hans manna. Þá lagdi Eirikr Jarl bardanom at Orminom sibyrdt, oc var þar þá enn höggorosta; sva segir Halldórr:

Fiörd kom helldr í harda
hnito reyr samman dreyra,
túngl skároz þá tingla
tángar, Ormr hinn lángi;

þá er bord mikinn Barda
brynflagds regin lagdi
Jarl vann hiálms at hólmi
hríd vid Fafnis sído.

## CAP. CXXV.

## FRÁ EIRÍKI JARLI.

Eirikr Jarl var i fyrirrúmi á skipi síno, oc var þar fylkt med skialldborg: Var þar þá baedi höggorosta oc spiótom lagt, oc kastat öllo því er til vapna var: enn sumir skuto bogaskoti edr handskoti: Var þá sva mikill vapnaburdr á Orminn, at varla mátti hlífom fyrir sik koma, er sva þykt flugo spiót oc örvar; þvíat öllom megin lágo þá herskip at Orminom. Enn menn Olafs konungs voro þà sva ódir, at þeir hlópo upp á bordin til þess, at ná med sverdshöggom at drepa fólkit. Enn margir lögdo eigi sva undir Orminn, at þeir villdo i höggorosto vera. Enn Olafs konungs menn gengo flestir út af bordonom; oc gádo eigi annars, enn þeir berdiz á slettom velli, oc sucko nidr med vapnom sínom. Sva segir Hallfredr:

Sucko nidr af nadri
naddfárs í böd sárir
baugs gerdot vid vaegiaz
verkendor megin serkiar;
vanr mun Ormr þótt ormi
alldyrr konungr styri
hvars hann skrídr med lid lyda
lengi slíkra drengia.

## CAP. CXXVI.

## FRÁ EINARI ÞAMBARSKELFI.

Einar Þambarskelfir var á Orminom aptr í Krapparúmi: hann skaut af boga; oc var allra manna hardskeytastr. Einar skaut at Eiriki Jarli, oc laust í styris hnackann, fyrir ofan höfot Jarli; oc geck allt upp á reyrböndin. Jarl leit til, oc spurdi, ef þeir vissi hverr þar skaut? enn jamskiótt kom önnor ör, sva nær Jarli, at flaug milli sidunnar oc handarinnar, oc sva aptr í höfdafiölina, at lángt stód út broddrinn. Þá mælti Jarl vid þann mann, er sumir nefna Finn, enn sumir segia at hann væri Finnskr; sá var hinn mesti bogmadr: skiótto mann þann hinn mikla í Krapparúmino! Finnr skaut; oc kom örin á boga Einars midian, i því bili er Einar dró it þridia sinn bogann: brast þá boginn i tva luti. Þá mælti Olafr konungr: hvat brast þar sva hátt? Einar svarar: Noregr or hendi þer, konungr! eigi mun sva mikill brestr ordinn, segir konungr: tak boga minn, oc skiót af: oc kastadi boganom til hans. Einar tók bogan, oc dró þegar fyrir odd örvarinnar, oc mælti: ofveikr, ofveikr allvallds boginn, oc kastadi aptr boganom: tók þá skiölld sinn oc sverd, oc bardiz röskliga.

## CAP. CXXVII.

## OLAFR KONUNGR FÆR MÖNNOM SÍNOM SKÖRP SVERD.

Olafr konungr Tryggvason stód í lypting á Orm-

inom, oc skaut optaz um daginn stundom bogaskoti, enn stundom gaflokom; oc iafnan tveim senn. Konungr sá fram á skipit, oc sá sína menn reida sverdin, oc höggva titt, oc sá at illa bito: mælti þá hátt: hvart reidit þer sva sliáliga sverdin, er ec se at ecki bíta ydor? Madr svaradi: sverd var ero slæ, oc brútin miök. Þá geck konungr ofan í fyrirrúmit, oc lauk upp hásætis kistuna; tók þar or mörg sverd hvöss, oc feck mönnom sínom: enn er hann tók nidr inni hægri hendi, þá sá menn at blód rann ofan undan brynstúkunni; enn engi veit hvar hann var sárr.

## CAP. CXXVIII.
## UPPGÁNGA Á ORMINN.

Mest var vörnin á Orminom, oc mannskædoz af Fyrirrúms mönnom, oc stafnbúom; þar var hvartveggia valit mest mannfolkit, oc hæst bordin. Enn lid fell fyrst um mitt skip. Oc þá er fátt stód upp mannanna um siglo skeidit, þá red Eiríkr Jarl til uppgaungunnar, oc kom upp á Orminn med fimtánda mann. Þá kom ímóti hanom Hyrningr, mágr Olafs konungs, med sveit manna, oc vard þar hinn hardasti bardagi, oc lauk sva, at Jarl röck ofan aptr á Bardann: enn þeir menn, er hönom höfdo fylgt, fello sumir, enn sumir voro særdir. Þess getr Þórdr Kolbeinsson:

> Þar var hiálmads heriar
> hroptz vid drærgar tóptir;

ord feck gott er gerdi
grams vör oc blám hiörvi,
höll bilar hárra fialla
Hyrningr adr þat fyrmiz.

þá vard enn hin snarpasta orosta, oc fello þá margir menn á Orminom. Enn er þyntiz skipan á Orminom til varnarinnar, þá red Eiríkr Jarl i annat sinn til uppgaungo á Orminn: vard þá enn hörd vidtaka. Enn er þetta sá stafnbúar á Orminom; þá gengo þeir aptr á skipit, oc snúaz til varnar móti Jarli, oc veita harda vidtöko. Enn fyrir því, at þá var sva miök fallit lid á Orminom, at vida voro aud bordin; tóko þá Jarlsmenn vída upp at gánga: enn allt þat lid, er þar stód upp til varnar á Orminom, sótti aptr á skipit, þar til sem konungr var: oc sneriz þá enn til varnar. Sva segir Halldórr Ucristni, at Eiríkr Jarl eggiadi þá sína menn:

Het á heiptar nyta
hugreifr med Oleifi
aptr stöck þiód á þóptor
þengill sína drengi,
þá er haf vita höfdo
Hallands of gram sniallan,
vard fyrir Vinda myrdi
vapneidr, lokit skeidom.

## CAP. CXXIX.

## RODINN ORMRINN LÁNGI.

Kolbiörn Stallari geck upp í lypting till konungs; þeir höfdo miök likan klædabúnad oc vapna. Kol-

biörn var oc allra manna mestr och frídastr: Vard nú enn i Fyrirrúmino hin snarpasta orosta. Enn fyrir þá sök, at þá var sva mikit fólk komit upp á Orminn af lidi Jarls, sem vara mátti á skipino; enn skip hans lögdo at öllom megin utan at Orminom, enn lítit fiölmenni til varnar, móti sva miklom heri nú þótt þeir menn væri bædi sterkir oc fræknir; þá fello nú flestir á litilli stundo. Enn Olafr konungr siálfr, oc þeir Kolbiörn Stallari bádir, hlópo þá fyrir bord, oc á sitt bord hvarr; enn Jarls menn höfdo lagt at utan smáskútor, oc drápo þá er á kaf hlópo. Oc þá er konungr siálfr hafdi á kaf laupit, villdo þeir taka hann höndom, oc færa Eiriki Jarli. Enn Olafr konungr brá yfir sik skilldinom, oc steyptiz í kaf; enn Kolbiörn Stallari skaut undir sik skilldinom, oc hlífdi ser sva vid spiótom, er lagt var af skipom þeim, er undir lágo, oc fell hann sva á siáinn, at skiölldrinn vard undir hanom; oc komz hann því eigi í kaf sva skiótt: oc vard hann handtekinn, oc dreginn upp í skútona, oc hugdo þeir, at þar væri konungrinn: Var hann þá leiddr fyrir Jarl; enn er þess vard Jarl varr, att þar var Kolbiörn, enn eigi Olafr konungr, þá voro Kolbirni grid gefin. Enn í þessi svipan hlópo allir fyrir bord af Orminom, þeir er þá voro á lifi, Olafs konungs menn; oc segir Hallfredr sva, at Þórkell Nefia, konungs bródir, hlióp sidast allra manna fyrir bord:

Ugrædir sá anda
armgrióts Tröno flióta,
hann raud geir at gunni
gladr, oc báda Nadra.
Adr hialldr Þórinn helldi
hugframr í böd ramri
snotr af snæris vitni
sunds Þórketill undan.

## CAP. CXXX.

## EYA-SÖGN.

Sva var fyrr ritat, at Sigvalldi Jarl kom til föroneytis vid Olaf konung i Víndlandi; oc hafdi Jarl X skip; enn Þat ellifta, er á voro menn Astrídar konungs dóttor kono Sigvallda Jarls. Enn Þá er Olafr konungr hafdi fyrir bord laupit, Þá æpti herinn allr sigr óp: oc Þá lusto Þeir árom i siá Sigvalldi Jarl oc hans menn, oc rero til bardaga. Þess getr Halldórr Ukristni:

Drógoz vítt at vagi
Vinda skeidor oc gíndo
Þridia haudrs á Þiódir
Þunn galkn í iárn-munnom.
Gnyr vard á siá sverda
sleit örn gera beito
d rr vo drengia stióri
drótt kom mörg á flótta.

Enn sú Vinda sneckian, er menn Astrídar voro á; reri brott, oc aptr undir Vindland; oc var Þat Þegar ræda margra manna, at Olafr konungr mundi steypt hafa af ser brynionni í kafi, oc kafat sva út

undan lángskipunom; lagz sidan til Vinda sneckionnar, oc hefdi menn Astridar flutt hann til Vindlands; oc ero þar margar frásagnir um ferdir Olafs konungs gerdar sidan af sumom mönnom. Enn á þessa leid segir Hallfredr:

Veit ec eigi hitt hvart heita
húngrdeyfi skal ec leyfa
dynsædinga daudan
dyr bliks eda þó kyqvan.
Alls sannliga segia
sárr mun gramr at hvaro
hætt er til hans at fretta
hvartveggia mer seggir.

Enn hvarnog sem þat hefir verit, þá kom Olafr konungr Tryggvason alldrigi sidan til ríkis í Noregi. Enn þó segir Hallfredr Vandrædaskálld á þessa leid:

Samr var árr of æfi
ódbragds hinn er þat sagdi
at lofda gramr lifdi
læstyggs sonar Tryggva.
Vera qvedr öld or eli
Olaf kominn stála;
menn geta mali sönno.
miök er verr enn sva, ferri.
Mundot þess alls þegnar
þrótthardan gram sótto
frá ec med lyda lidi
land her þar sköp verda.
At mundiökuls mundi
margdyrr koma styrir
geta þickiaz þess gotnar
glikligs or styr slíkom.
Enn segir audar kenni

austr

austr í málma gnaustan
seggr frá sárom tiggia
sumr eda brot of komnom.
Nú er samn fregit sunnan
siklings or styr miklom
kann ec eigi mart vid manna
mord veifanar ordi.

## CAP. CXXXI.

## FRÁ EIRÍKI JARLI HÁKONAR SYNI.

Eiríkr Jarl Hákonarson eignadiz Orminn lánga med sigrinom, oc lutscipti mikit; oc styrdi Jarl Orminom frá fundinom. Sva segir Halldórr:

Hiálmfalldinn bar hilmi
hríngs at miklo þíngi,
skeidor glæsto þá þiódir,
þángat Ormr hinn lángi.
Enn sudr at gny gunnar
gladr tók Jarl vid nadri
ádr vard egg at rióda
ættgódr Hemings brodir.

Sveinn, son Hákonar Jarls, hafdi þá fest Hólmfrídi, dóttor Olafs Svía konungs. Enn er þeir skipto Noregs velldi milli sín, Sveinn Dana konungr oc Olafr Svía konungr, oc Eiríkr Jarl, þá hafdi Olafr konungr IV fylki í Þrándheimi oc Mæri hvaratveggio, oc Raumsdal, oc austr Ránríki frá Gautelfi oc til Svínasunds. Þetta ríki feck Olafr konungr í hendor Sveini Jarli, med þvílikvm formála, sem fyrr höfdo haft skattkonungar edr Jarlar, af yfirkonungom. Enn Eiríkr Jarl hafdi IV fylki í Þrándheimi, oc

Hálogaland, oc Naumodal, Fiördo oc Fialir, Sögn oc Hördaland, oc Rogaland, oc Nordan Agdir allt til Lidandisness. Sva segir Þordr Kolbeinsson:

Veit oc fyrir Erling utan
ár at hersar váro
lofak Fasta ty-flestir
Farlands vinir Jarla;
Enn ept víg frá veigo
vel oc ord at styr nordan
land eda lengra stundo
lagdiz sudr til Agda.
Allvallds unto alldir
una líkar vel slíko
skylldr letz hendi at hallda
hann of Noregs mönnom.
Enn Sveinn konungr sunnan
sagdr er daudr hinn audi,
fátt bilar flestra yta,
fár hans byir váro.

Sveinn Dana konungr hafdi þá enn Víkina, sva sem hann hafdi fyrr haft; enn hann veiti Eiríki Jarli Raumaríki oc Heidmörk. Sveinn Hákonarson tók Jarldóm af Olafi enom Sænska. Sveinn Jarl var allra manna frídastr, er menn hafa sed. Eiríkr Jarl oc Sveinn Jarl leto bádir skiraz, oc tóko retta trú; enn medan þeir redo fyrir Noregi, leto þeir gera hvern sem vildi um kristnihalldit: enn forn lög helldo þeir vel, oc alla lands sído; oc voro menn vinsælir oc stiórnsamir; Var Eiríkr Jarl miök fyrir þeim brædrom um for-rád öll.